# STUTT OG EINFOLLD UNDERVIJSUN
um
# Christenn doomeñ,

Samañteken epter Frœde-Bookum hiñar Evangelisku Kyrkiu,

Af

## Mag. Jone Thorkels-Syne, VIDALIN,

Fordum Biskupe Skalhollts-Stiftes (Sællrar Miñingar.)

Selst Almeñt O-Jñbundeñ 15 Fiskum.

Editio III.

Pryckt a Hoolum i Hialltadal, Af Halldore Erikssyne 1748.

Joh. 17. v. 3.

Þad er Eylijft Lijf, ad þeir þecke þig Eiñ sañañ Gud ad vera, og þañ þu sender, JEsum Christum.

1 Cor. 12. v. 3.

Eingeñ kañ JESUM DRotteñ ad kalla, nema fyrer Heilagañ Anda.

1. Joh. 3. v. 23.

Þad er Bod hañs, ad vier trwum á Nafn hañs Sonar, JESU Christi, og Elskunst Jñbyrdis, So sem hañ hefur skipad oss.

## ERRATA.

PAg. 27. Lin. 13. les Guds. P. 40. L. 4. l. Bodorde. P. 82 L. 1. l. Mismuneñ. P. 83. L. 3. l. Fullkomlega. P. 89. L. 16. l. DRotteñ. P. 125. L. 11. l. Joh. 4. P. 215. L. 8. l. Velferd. P. 223. L. 11. l. Sem. P. 269. L. 14. l. 1. Epis: 1. v. 3. P. 307. L. 7. l. þetta.

Hafe fleira kuñad ad yfersiaast, i Correction og Pryckingu þessarar Bookar, Er Goodfws Lesare umbedeñ ad Leidretta.

Til

## Til Lesarans.

Vel talar St. Petur i sijns Fyrra Pistels 1. Cap. v. 2. 3. Er hañ seger: So girnest nu, eins og nyfædd Børn, hina hreinu og ofølsudu Miolk, so ad þier eflest af heñe, epter þvi þier hafed smackad hvad sætur ad Drotteñ er. Eingeñ Efe er a þvi, ad Postuleñ nefner Guds Heilagt Ord, Mioolk, i þessum Stad, og þo hellst hid fyrsta Upphaf Christelegs Lærdooms; Hver Ordshaattur ad Heilagre Ritningu er altamur: Eg baud ydur Mioolk og eige megnañ Mat seger Paulus, 1. Cor. 3. v. 2. Og er þetta næsta vel tilfunded; Eins og Børneñ nærast a Mioolkeñe, so nærest hiñ Andlega nya Skepna Guds, i Christo af hañs Orde. Børneñ kuña eige ad lifa aan Mioolkur; Þeim er og vijs Andlegur Daude, sem eige hefur sitt Foostur af Guds Orde; Fyrer Guds Ord erum vier Endurfædder; Med Guds Orde verdum vier endurnyader, og af Guds Orde voxum vier til fullkomens Mælers Christi Alldurs, so sem Paulus ad Orde kemst, Eph. 4. v. 13. J Skijrneñe, og fyrer Guds Ord smeckum vier fyrst

hvad sætur ad DRottenñ er, þvi þar ødlunst vier Trwna, so sem Frelsarenñ seger ; Ad Ungbørnenñ trwe a sig, og ad þvilijkra sie Himnarijke; Enñ nær vier drøgunst a Legg, þa verdur oss frambodenñ þesse hreina Miolk i vorum Barna Lærdoome, og þad allra fyrst i hinum minña Catechismo hins Sæla Lutheri, vorrar Kyrkiu Lærefødur, hver ad sønu hefur allt þad i sier folged, sem Christenñ Madur þarf ad trwa sier til Mysskunar og Saaluhiaalpar. Enñ fyrer þvi, ad hanñ er so sem Upphafs Stafer Christelegs Lærdooms, Hebr. 5. v. 12. Og giørdur til þess, ad Børnenñ, strax a Ungmeñis Arum, skule nema, og kuña hanñ utanñ ad, þa er hanñ æred stuttur, og alleina þar fyrer Børn unum i fyrstuñe eige so audskilenñ, ad þau kuñe ad færa sier i nyt þær Guds Gaafu, so sem þarf, nema hun sie þeim greinelega wtløgd ; hvar fyrer margur Gudhræddur og Lærdur Madur, hefur skrifad Utskijring yfer þesse Fræde og eru nockrar þesshaattar Bækur wtgeingnar a vora Tungu : Þar er ein Book, kølluð Leikmaña Biblia, wtgeingenñ 1599. Er wtlagt hefur Saal. Herra Gudbrandur Biskup Hoola Stiptes ; (sællrar

(sællrar Miñingar) hver ed vel wtskijrer Iñehalld þessa Catechismi, og oska eg, ad su Book mætte aptur þryckiast, þvi hun er hin nytsamlegasta ein fyrer sig, til Þeckingar Christeñdoomsens. Þar er Enchiridion edur Handbook þeirra Lærdu Maña D. Davidis Chytræi, og D. Martini Chemnicii, og svo wtlógd af Herra Gudbrande, prentud ad Hoolum 1600. Su Book er ægiæt, eñ þo leingre eñ so, ad þeir kuñe ad neina, sem añadhvert eru onæmer, edur ei faa toom til ad ydka sig stoorum i Bookalestre, so sem eru þeir, ed hlioota ad viña fyrer sijnu og añarra Braude. Þar er og so hiñ stoore Catechismus, er vier so kóllum, eiñeñ epter Utleggingu Herra Gudbrands, ad eg meina; eñ su Book er æred laung, og valla þienanleg, nema þeim, sem hafa goodar Stunder: Eñ af þessum þrem Bookum, og þeim Formaalum, er þeim fylgia, er audsært, hvad mikla Astundan, ad sa Guds-Madur hefur haft til ad efla Christeñdomeñ i Lande voru. Til eru og so Hofudgreiner Christelegrar Trwar, er wt hefur lagt Saal. Sr. Ion Arason Profastur i Isafiardar Sijsslu; Þad er good Book, eñ nockud laung, so sem hinar. Eige veit eg

hvert hier eru adrar, þesshattar Bækur so merkelegar.

Nu fyrer þvi, ad þessar Bækur eru ad mestu Leite wrgeingnar, þa hefe eg samañ teked þeña litla Bækling, er eg kalla Under vijsun um̃ Christeñdoomeñ, og leitast vid i hønum, epter þeirre Raad, sem Gud hefur mier gefed, ad wtskijra, med Greinelegum og skiliañlegum Ordum, þa Hlute, sm̃ i hinum Miña Lutheri Catechismo kiender eru, og þaangad eiga ad heimfærast. Hver su mier hafe þad tekest, Læt eg ødrum epter um̃ ad dæma; Hitt vitnar Samvitska mijn, ad eg hefe þad eige betur kuñad. Eg villde, ad søñu, hafa lagt wt hiñ stærre Lutheri Catechismum, þvi eingeñ er betre, og eige øllu leingre Book eñ þesse, eñ i hønum er sumt þad, sem sier i Lage vidkemur Þyskalande, og so þeim Tijmum, er sa Guds Madur lifde a; Þvi syndest mier Raadlegra, ad fylgia hønum, og ødrum vorrar Kyrkiu Fræde-Bookum, þad nær sta eg kuñe, helldur eñ ad leggia hañ wt Ord fyrer Ord. Meige nu þesse Bæklingur heita þess verdur, ad hañ kuñe ad hiaalpa til, ad leggia Eiñ Stein i Christs Kyrkiu hier i Lande, þa vil eg hafa um̃boded øllum

um Forelldrum, Hwss-Bændum, og sierhverium, sem añadhvert eiga Bornum, edur Faafroodum Hiwum til ad segia, og svara Gude fyrer Saaler þeirra, og ecke añad betra hafa, ad þeir brijne hañ fyrer þeim, sem Gud hefur þeim til-trwad: Þvi eg vona, ad hver sem hañ les med Athygle, þa mune hañ, ad samverkanda Naad Heilags Anda, so miklum Skilninge naa i sijnum Saaluhiaalpar Efnum, sem hønum næger, ef hañ þar fyrer utañ aastundar goodar Keñingar, bæde Heimuglegar, og Opeñberlegar. So bid eg ydur nu, ad Endingu, Christner Meñ, fyrer Myskunar-Ydur Guds vors, og JEsu blessudu Under, hafed Myskunseme med Saalum ydar, Barna ydar, og Hiwa, so ad eige kome þier nie þau, i þañ Kvala-Stad, hvadañ eingeñ er Endurlausn; Jaa, Og Graatbæne ydur med St. Paals Ordum, er hañ skrifar, 2. Cor. 5. v. 20. Og svo hlioода: Vier erum Sendebodar fraa Christo, og so sem ad Gud beidde ydur fyrer oss, þa bidium vier i Christi Nafne, forlijkest vid Gud, þvi hañ hefur giørt hañ ad Synd fyrer

oss,

oss, sem ecke visse af Synd, so vier yrdum Guds Rettlæte i hønum; Eñ eingeñ er aňar Vegur til ad forlijkast vid Gud, helldur eñ ad þeckia haň Saňaň Gud ad vera, og þaň er haň sende, JEsum Christum; Hvad vier kuňum eige ad ødlast fyrer utaň Greinelegaň Skilning vors Barna Lærdooms. Par fyrer, ef þier elsked ydar Saaluhiaalp, og ef ydur svijda þær Illgiørdernar, er hiň Saklausa Guds Son kvaled hafa, þegar haň bar vorar Synder uppaa Gaalgaň; Pa læred ad þeckia Gud og haňs Christ, og lifed þar epter i Elskuňe til haňs, og Jňbyrdes Kiærleika hver vid aňaň, og giøred verduga Avøxtu Ydraneňe. Eň Gud, Fader vor allra, saa ed alla Hlute kaň yferfliootaňlegar ad giøra, eň mijn syndug Tunga kaň fyrer ad mæla, haň styrke ydur i øllu goodu Verke og sier þægelegu, sijnu Dijrdarfulla Nafne, til Lofs og Heidurs, eň øllum oss til Saalar og Lijfs Nota!

Þess Oskar af Alhuga
Ydar Þienare og Brooder i Christo

J. WIDALIN.

Skaalhollte þaň
20. Martii 1718.



# J. N. J.

# Sannur Christeñdoomur.

### Hvad er Christeñdoomureñ?

HAñ er riett og soñ Triw at Eiñ Gud, sem skapad hefur Himen og Jord, siw ed kroptug sie til Framkvæmdar þeirra Hluta, sem Gud hefur boded, og til ad fordast þa Hlute, er hañ bañad hefur, og so til ad giora Mañeñ Sæluhoolpeñ fyrer JEsu Christi Forþenustu.

### Hvilijkur er Gud?

Hañ er i siñe Veru eingum lijkur, þvi hañ er øllum ædre og meire, so sem hañ sialfur seiger; Hverium vilied þier samlijkia mig, edur jafna vid mig, edur samañbera vid mig, ad vid skylldum lijker vera. Esa. 46. v. 5. Gud er eiñ Ande, Joh. 4. v. 24. Eylijfur, Almattugur, Alvitur, i øllum Stødum nalægur; Eingeñ Madur kañ þad ad hugsa, edur mæla,

hvilijkur hañ sie, og hañ verdur best med þeim Orduun wtmaaladur, sem under eins medkieña vorn Vanmaatt og Faavitsku, til ad wtskijra hañs Veru; sem er: ad hañ er Ogrijpanlegur, Omælanlegur, Oendanlegur, Osynelegur, og øllum allra Eingla og Maña Skilninge til fulls Oransakanligur. 1. Cor. 2. v. 11.

Er þesse Gud nema Eiñ?

Hañ er alleinasta Eiñ i Veruñe.

Hvar fyrer leggur þu þetta Ord til, i Veruñe?

Þvi hañ er Preñur i Persoonunum.

Hvøriar eru þær Persoonur?

Gud Fader, Gud Sonur og Gud Heilagur Ande.

Hvørneñ maa eg þvi trwa, ad Gud sie bæde Preñur, og þo eige nema Eiñ?

Pad gietur eige syndugs Maññs Skilningur griped, samt eigum vier þvi ad trwa, ef vier villum Guds Børn kallast: Þvi hañ hefur siaalfañ sig aa þeña Haatt opeñberad, sem sijdar skal sagt verda i Utleggingu Trwar-Greinaña, sem hier aa epter fylgia.

Hvørs vegna hefur Gud sig Opeñberad?

Til þess, ad meddeila Mañenum Þeckingu

ingu sinar Giædsku, og sitt Riettlæte: Giædskuna til ad elska sig, en Rietklæted til ad Ottast sig; Eñ hvertveggia til ad trwa aa sig til Saaluhjaalpar.

Hvad er Madureñ?

Saa Fyrste Madur var ein skyniande Skepna, samsett af Saal og Lijkama, af Gude i ondverdu skopud epter hañs Mynd, fullkomlega Heiløg og Riettlaat, og hinum bestu Kostum og Atgiørfe bweñ; hvertum hañ fieck i Hendur Raad og Stioorn yfer øllum Skiepnum under Himnenum, siaalfum sier til Lofs og Dijrdar, eñ Mañenum til ædstu Farsælldar Nota.

Hvad er þad Skyniande?

Þad er fullur Raads og Skilnings, saa ed hefur Vitsmune aa ad þeckia Gud, og so allar Skiepnur, sem Gud hafde skapad, og þeirra Edle og Verkaner, og þvilijkur var Madureñ i Fyrstuñe; Hañ þeckte Gud siñ Skapara merkelega, og so alla Naatturuna fullkomlega, þvi gaf hañ og øllum Dijrum Nafn; aan Efa, epter sierhvørs Edle; þviad Gud, sem þau siaalfur skapad hafde, hañ liet þad Nafn halldast,

er Madureñ gaf; Hañ þeckte og, ad Konañ var Bein af hañs Beinum, og Holld af hañs Hollde: Gaf heñe þvi Nafn þar epter, ad hun ſkyllde Karliña kallaſt, Gen. 2.v.23. Þvi er audvitad, ad hañ hefur grant þeckt añara Hluta Naatturu.

Af hveriu er Mañſens Lijkame giordur?

Adam hiñ Fyrſte Madur var af Molldu giordur: So ſeiger Moiſes: Og Gud giorde Mañiñ af Molldu Jardareñar, Gen.2.v.7. Eñ Konañ er ſkøpud af Mañſens Rif-Beine. Gen. 2.v.22.

Af hveriu er Saaliñ ſkøpud?

Af eingu; Þvi Ritningeñ ſeger: Gud blies lifande Anda i Mañſens Naſer. Gen. 2.v.7. Hvad talad er ad ſoñu epter Mañligum Plagſid, eñ aa þo eige ſo ad ſkiliaſt, ſo ſem þegar Madur blæs ſijnum Anda fra ſier, helldur talar hier ſo uñ, þviad Saaleñ er eiñ Ande, og aa ſo ad ſkiliaſt, ad Gud hafe hana tilreidt og Mañenum iñgefid, eige af nockrum ødrum Hlut, eins og Lijkama Mañſens, helldur af eingu, eins og Einglana, ſem og eru Andar. Þvi er Saaleñ ecke ſamrar Veru med Lijkamanum, edur nockrum ødrum þeim Hlut, ſem er

þreiſañ-

þreifanlegur og synelígur, og hun þeckest eige nema af sijnum Utriettingum.

*Hvad er þad þu sagder, ad Madureñ være skapadur epter Guds Mynd?*

Guds Mynd, epter hverre Madureñ skapadur er, er eige iñefaliñ i wtvortis Alite, þvi Gud er eiñ Ande, og hefur eige Holld nie Bein, er eige helldur synelígur nie þreifanlegur nockrum Mañe, helldur er su Guds Mynd iñefaliñ i þessu epterfylgiande. 1. J ægiætre Þeckingu Guds og allrar Skepnu, sem Gud hafde so dærsamlega skapad, so sem ædur er sagt. 2. Er hun iñefaliñ i Rettlæte og Heilagleika Vilians, þvi Madureñ var so skapadur, ad hañ kuñe ad vera frij fyrer allre Synd, og þurfte eckert illt ad gyrnast; Þvi Gud skapade Mañeñ Rettañ, Eccles. 7. v. 29. seger Salomon, og þar var eingeñ Tilhneiging til hins Jlla, hvar fyrer þau þurftu ad skamast sijn. Þvi seiger Ritningeñ, Gen. 2. v. 25. Þau voru bæde nakeñ, og skomnudust sijn eige, þvi var og Lijkameñ ad sijnu Leite hluttakare þessarar Guds Myndar i Heilagleikanum; Þvi hvad sem Gud heimter af Endurfæddum

Mañe epter Falled, þad sama hefur hinum Fyrsta Mañe vered medskapad; Eñ Paulus bijdur, Rom. 6. v. 13. Ad vier skulum liꜳ vora Limu, so sem Vopn Rettlæteſins Gude, og til Þienara Riettlæteſins, til Helgunar: Søkum þessarar Guds Myndar var Madureñ Odaudlegur skaptur, og i hañs Skapnade og Lijkamans Edle og Hꜳttum var eingeñ Ordsøk til Daudans, edur nockurs Mootgꜳngs, so leinge sem hañ hiellt þessare Guds Mynd; Eñ þo var hañ so skapadur, ad hañ kuñe ad deya, ef hañ syndgade. Hvad audsied er af þvi Fyrsta Bodorde, er Gud gaf hønum, og so hlioodar: Gen. 2. v. 17. A hverium Dege sem þu etur af Averxte Skilnings-Trieſens Goods og Ills, skalltu Dauda deya. Hier af fylgde þad Valld, sem Gud gaf Mañenum yfer øllum Skepnum under Himnenum, so seger Gud: Gen. 1. v. 28. 29. Legged Jørdena under ydur, og drottned yfer Fiskum Siꜳfarens, og Fuglum Lóptsens, og yfer øllum Villudijrum, sem skrijda ꜳ Jørduñe, og eg hefe gefed yckur øll Grøseñ og Eikurnar; Þar ad auke sette hañ Mañeñ i hiñ

fagra

fagra Alldeñgard Eden, hvørn Gud hafde sialfur prijdt med allra handa kostulegum Bloomstrum, og Avoxtum, ad hañ skyllde yrkia hañ; Ecke med Mædu nie Erfide, þvi su Plaaga var ecke eñ þa løgd a Mañeñ; Helldur sier til Epterlætis, og Yndælis, og gaf hønum eckert Bodord ad lifa epter, nema þad Eina, ad hañ skyllde ecke neyta af Averte Skilnings-Treſins Goods og Jlls, til ad syna þar med sijna Hlydne og Undergefne vid Gud siñ Skapara.

Mier skilst, ad Madureñ hafe ei leinge hallded þessare Guds Mynd, eñ hvad var til þess, ad hañ miste hana?

Pad skiede fyrer slægdarfulla Diøfulsens Aeggian, hvor ed i einum Høggorme talade vid vora Fyrstu Moodur Evu, og ried heñe, ad eta af þeim forbodna Averte, eñ hun tælde Mañ siñ þar til, og er þau þañig høfdu broted Guds Bodord, tøpudu þau Pessare dijrdlegu Guds Mynd, og til merkis þar um̃, þaa formerktu þau strax, er þau høfdu syndgad, ad þau voru Nakeñ, skyldu sier med Fykiu-Blødum, og føldu sig fyrer Gude;

Af þessu formyrkvadest Skilningurenn, so ad Holldlegur Madur skyniar ecke hvad Guds Anda er, 1. Cor. 2. v. 14. Og Viljenn vard Gude fraahverfur og til alls Ills hneigdur, so ad Gud seiger: Gen. 6. v. 5. Ad Mannsens Þankar sieu vonder ifraa Upphafe; Hann meinar, Upphafe Syndafallsens, enn eige Skapnadarens. Fyrer þessa Synd voru þau Adam og Eva wtrekenn af Aldenngardenum, i hvern Gud hafde sett þau, og Jordenne var bølvad fyrer Syndarennar Skulld, Þyrna og Þistla skyllde hun bera, og Madurenn skyllde med Erfide sig af henne næra, alla sijna Lijfdaga; Enn Konunne var sier i lage uppaalagt, ad hun skyllde fæda sijn Børn med Harmkvælum, og under Bonda sijns Vallde skyllde hun vera, og hann skyllde vera hennar Herra; J einu Orde ad seigia: Aller Siwkdoomar, Hwngur, Drepsoott, Strijd og Styrislld, Oaaran, Illvidre, og allt þad Andstreyme, er oss mæter hier i Heime, þad er Avøxtur þessarar Fyrstu Syndar, og ad sijdustu Daudenn; Ecke einasta hinn Tijmannleige, sem er Adskilnadur Saalar og Lijkama,

kama, helldur og hiñ eylijfe, og þess vegna høfum vier hañ, asamt med Upprunna Syndeñe, i Arf teked epter vora Fyrstu Forelldra, so sem Paulus vottar: Rom. 5. v. 12. Lijka sem Syndeñ er fyrer eiñ Mañ iñkomeñ i Heimeñ, og fyrer Syndena Daudeñ; Eiñeñ med sama hætte er Daudeñ til allra Maña i gieguum geingeñ, i hverium (Mañe) aller syndgudu.

Hvad er þad, Eylijfur Daude?

Þad eru Oendañlegar Pijsler, sem alldrei þrioota, hveriar og epter Daudañ eru ætladar øllum Vantrwudum, og Ogudlegum med Dioflenum, og øllum hañs Arum, so sem Endurlausnareñ vottar. Matth. 25. v. 41. Hvar ad vera mun Op og Tañagnijstran; Uñ hveriar Pijsler DRotteñ talar fyrer Muñ Esajæ, Esa. 66. v. 24. Og er Þeir (Utvalder) gaanga wt, munu þeir siaa Hræ þeirra Maña, sem mig hafa yfergiefed, þvi þeirra Ormur mun alldrei deya, og þeirra Elldur skal ecke slockna, og þeir skulu verda Andstygd øllu Hollde.

Hvilijkur er Diofulleñ?

Hañ var i fyrstuñe eiñ dijrdlegur Eingell, skapadur af Gude i søñum Heilagleika, eñ hañ syndgade vijsvitande, þar hañ var þo so veglegur giør, og vardveitte ecke siñ Uppruna, helldur yfergaf sitt Heimile, ásamt ødrum Einglum, er med hønum syndgudu; Þar fyrer hefur Gud ecke þyrmt þeim, helldur bunded þá med Myrkraña Hleckium, og steypt þeim til Helvijtis, ad þeir þar vardveitter verde til Doomsens. 2. Pet. 2. v. 4. Jud. v. 6. Sijdañ er hañ Guds svareñ Ovinur, og so Mañaña, leggiande allt Kapp á, ad draga sem flesta frá Gude, med þvi ad svijkia Mañskiepnuna til ad trwa hønum ecke, edur á hañ, og brioota hañs Bodord.

Attu aller Meñ ad deya fyrer þessa eina Synd, hins fyrsta Mañs?

Ad søñu áttu þeir; Þvi aller syndgudu i hønum, Rom. 5. Ecke ad søñu fyrer þañ Giørning er hañ giørde, þvi þar fyrer áttu þau alleina ad deya, Adam og Eva, eñ fyrer þvi þau gátu syndug Børn, eins og þau voru, so sem þar stendur, Gen. 5. v. 3. Og Adam gat Son epter

siñe

sĩñe Mynd, þa hlaut þad allt ad verda Holld, sem af Holldenu fædt er, þad er Syndugt, sem komed er af Syndugum, so vier ættum nu ad deya fyrer vorar eigeñ Synder, sem fram̃koma af Uppruna Syndeñe, er vier erft høfum, hver og er Dauda verd i siaalfre sier, nema Gud hefde af Omælañlegre Myskun sĩñe bætt vort Raad aptur ad nyu.

Med hveriu Moote hefur hañ þad giørt?

Þad giørde hañ fyrst, strax epter Falled, þegar hañ took Mañkyned aptur i Saatt med þvi Fyrsta Evangelio, edur Naadar-Bodskap, ad Kvinuñar Sæde skyllde i sundurmeria Høggormsins Høfud, Gen. 3. v. 15. Þad er, ad Guds Eingeteñ Sonur skyllde samteingiast Mañlegu Hollde, og fædast af Kvinuñe, og nidurbriota i þvi sama Hollde Høggormsens, þad er, Dioefulsens Verk, eñ frelsa Mañkyned af hañs Vallde, og betala med sĩñe Pijnu og Dauda, þad sem i Holldenu syndgad verdur. Fyrer þetta Guds Fyrerheit eru aller þeir hoolpner vordner, sem trwdu aa Christum, þañ er koma aatte, og uppaa hañs tilkomande Dauda, aa medañ

eñ Syndeñ var eñ þa under Guds Poleñmæde, ſo ſem Paulus ackvedur, Rom. 3. v. 26. Eñ vier fyrer hañs Pijnu og Dauda, er hañ allareidu lided hefur, ſem ſijdañ lifad høfum, med hverium hañ hefur wtvegad oß þau Medøl, er oß gagna til Saaluhiaalpareñar; Uñ allt þetta mun eg hier epter greinelegar tala.

Hefur Madureñ alldeilis miſt þeſſa Guds Mynd, er þu talader uñ?

Nei, ecke ad øllu Leite, ſo miked er Mañenum epterlaated, ad hañ getur þeckt, ad Gud er til, þvi ſeger Paulus, Rom. 1. v. 20. Hañs Oſyneleger Hluter, allt fraa Skøpun Veralldareñar, af Verkunum athugader, verda i gegnumſiener, ſo ſem er hans eylijfur Kraptur, og Guddoomur. Hañ getur og viliad og ſtundad þa Hlute ad nockruleite, ſem gooder eru, og fordaſt hina vondu; Hvad vier ſiaaum jafnvel aa Heidnum Møñum, ſem marger hafa talad Skynſamlega uñ Guð og goodar Dygder, og ydkad þær med mikille Koſtgiæfne; Eñ þo er þeſſe Þecking ecke noog til Saaluhiaalpar, helldur er hun nockurskonar Leidarviiſer til hiñar ſañu Guds

Guds Preckingar, hveria siaalfur Gud hefur oss openberad, og verkar þad, ad Madureñ kañ ad lifa Farsællega añars Heims.

Hvad er Saaluhiaalpeñ? Edur hvad er þad, Añars Heims?

Eg hefe aadur sagt þier, ad Mañsens Naattura er af Tveim Hlutum samsett, sem er Lijkameñ, hvern vier siaaum, og Saaleñ, hveria vier ecke siaaum, eñ fiñum heñar Verkaner, þvi vier Hugsum, Raadslægum og samañberum i vorum Paunkum þa Hlute, er fyrer oss bera, edur vier heyrum fraasagt. Lijkameñ deyr þegar Saaleñ skilst vid hañ, þar til hañ samteingest heñe aptur i Upprisuñe. Nu uppaa þad hun skule niota kuña eylijfrar Sælu hiaa Gude, þa hun burtfer af Lijkamanum, og so uñ eylijfar Allder, (hvad ed kallast añars Heims, hvar i Saaluhiaalpeñ og foolgeñ er) þa hefur Gud Opeñberad Mañenum siñ Vilia, aan hvers Madureñ ei kañ hoolpeñ ad verda; Lijkameñ skal og somu Vist hafa epter Upprisuna.

Hvar edur med hveriu moote hefur Gud Opiñberad Sig?

Pad hefur hañ fyrst giort med Skop-

un allra Hluta, er vier siaaum fyrer Aug-
um vorum, so sem eru; Sool og Tungl,
og aññar Himinsins Her; sem hefur siñ O-
umbreittañ Gaang, Ar wt, og Ar iñ, fraa
fyrstu Skøpun Veralldar allt til þessa
Dags, Jørdeñ, sem aa vissum Tijmum
ber siñ Avøxt, og folnar aptur, Siooreñ,
sem fellur fraa Jørduñe og aptur til heñ-
ar, Tvisvar aa Dege og Noottu og vex og
mijnkar med Smaa-Straum og Stoor-
Straum, Tvisvar aa hverium Maanude,
jaa, sialfur Madureñ, sem so daasamlega
myndast i Moodur-Lijfe, og so furdan-
lega þadañ wtleidest, vex sijdañ og þrooast
ad Alldre og Vitsku. Allra hellst Saal-
eñ, sem so mikla Hlute uppþeinker, og kañ
ad ødlast, ef ecke fullkomna, samt miøg aa-
giæta Þeckingu þessara Hluta. Þegar
ein Mañeskia nu ihugar, hvad kostulegt
allt þetta er, og under eins, ad eingeñ Hlu-
tur hefur sialfañ sig giørt, edur skapad,
þa sier hun og augliooslega þecker, ad þar
er ein Odandleg Vera, aan Upphafs og
Enda, sem allt þetta hefur giørt, og því
stioornar, (hveria vier Gud køllum) hvar
fyrer eingeñ Þiood hefur su vered i Heim-
enum,

enum, sem ecke hafe dyrkad Gud med einhveriu Mooti. Og Søkum þess, ad vier siaaum bæde Guds Speke, hañs Maatt, og hñs Giædsku i øllum þessum Hlutum, þa hafa Vitrer Meñ, jafnvel aa medal Heideña Pioода, aalyctad, ad Gud være Alvitur, Almaattugur, og alls goods Uppsprettu-Bruñur, eins og eg sie, ad eiñ er Vitur, þvi hañ kañ ad giøra þad adrer ei kuña; Ad eiñ er Sterkur, af þvi hañ kañ miklu ad lopta, eiñ er Goodur, af þvi hañ gefur þa Hlute, sem mig stoda, og mier aagiæter þykia; Og þesser Hluter hafa uppvaked, jafnvel i sumra Heidingia Hiørtum, stoora Undran um̃ Guds Speke, og Elsku til hñs Giædsku og Goodgirne; Kallast þvi þesse Ihugan, Guds Naatturleg Þecking, hveria aller Meñ hafa meiga, sem hier um̃ huxa neña, og Heilvita eru: Og þetta eru þær Leifar Guds Myndar i Mañenum, er eg fyrer skømu talade um̃.

Er þesse Þecking Guds noog til ad naa þeirre Sælu epter Lijfed, sem þu strax um̃gast?

Eige er hun noog i siaalfre sier, helldur er hun Leidarviiser til añarar laangtum full-

fullkomnare, sem ađur er sagt.

Seig mier þa, Hver er su Nùur?

Pad er su sem Gud hefur opeñberad oss i Heilagre Ritningu.

Hvad er þad, Heiløg Ritning?

Pad er Guds Ord, hvert ed ritad er af Moyse, og af Spaamoñunum i Gamla Testamentenu; Eñ af Gudspiallamoñunum og Postulunum i þvi Nya, keñande oss Guds saña Þeckingu, og hañs retta Dyrkun, bæde i Trwñe og Verkunum, oss til eylijfrar Saaluhiaalpar.

Hvad er þetta Gamla og Nya Testamented?

Pad er 1. Tveñslags Saattmaale. Gamla Testamented er Saattmaale saa, er Gud giorde vid Fedurnar aa þeim Døgum, uppaa Christum Okomeñ; Eñ Nya Testamented er saa Saattmaale, er hañ giort hefur vid oss uppaa Christum i Hollденu auglystañ. 2. Eru þad Tveñer Tijmar, sem Christner Meñ so kalla; Hiñ fyrre er fraa Upphafe Veralldareñar, allt til þess Guds Sonur Opeñberadest i Holldenu; Hiñ sijdare hoofst aa hañs Hiervistar-Døgum, og stendur eñ nu yfer, og varer til Enda Veralldar. 3. So

nefnast

nefnast og almenelega Partar Ritningarenar, þad eru þær Bækur, sem skrifadar eru a hvers Testamentis Tijma fyrer sig.

Hver var Moises?

Han̄ var ein̄ Madur, sem var Medalgangare mille Guds og Man̄a; Han̄ bar Foolksens Naudsyniar fram̄ fyrer Gud, og opinberade þvi han̄s Vilia; Honum feck Gud i Hendur Logmaaled, þad eru þau Tiju Guds Laga Bodord, sem Men̄ eiga ad læra, og epter þeim ad lifa.

Hvad hefur nu þesse San̄a Guds þeking fram̄ yfer hina, sem þu aadan um̃taladir?

Margt er þad; Eg kan̄ eige ad þeckia af Natturun̄e, ad Gud sie ein̄ i Þren̄ingu, og Þren̄ur i Einingu; og eige, ad han̄ sie so Rettlaatur, ad han̄ kun̄e ecke ad fyrergefa Syndernar, nema fyrer fullnoogan̄ Betaling; Ecke ad han̄ sie so Myskunsamur, ad han̄ hafe sendt sin̄ Eingeten̄ Son i Heimen̄ til ad betala fyrer Syndernar; Edur ad skynia neitt um̄ Christ edur han̄s Forþienustu; Ecke þecke eg helldur af Natturun̄ar Kroptum Embætte Heilags Anda; Edur kan̄ ad skynia neitt

um̃ Mañsens Endurgetning, og Endurnyung; Edur um̃ Krapt, og Nytseme Sacramentaña, og ei feinge eg þetta ad vita, nema Gud hefde mier þad i Ritninguñe opeñberad, eñ eg þarf þo hier i uppfrædour ad vera, ef eg skal Sæluhoolpeñ verda, og med Gude eylijflega lifa.

Hvar fyrer hefur Gud þañeñ Opeñberad sig Mañenum?

Til ad bæta oss aptur, þad vier høfdum i Adams Falle æ mis fared, ad so miklu Leite sem oss nægia kyñe til Sæluhiælpar, ef vier hañs Naad, og Velgiørninga ecke forsoomuum, og til þess ad vier skylldum hañ lofa og dyrka; Fyrst hier Tijmañlega i hañs Naadar-Rijke, og sijdañ æ Himnum eylijflega i hañs Dijrdar-Rijke.

Hvar fæ eg þetta ad læra?

J Utskyring Trwar-Greinaña, sem eru wtdregnar af H. Ritningu.

Hvilijk er su Guddoomsens Dyrkun, sem vier eigum ad veita hønum hier i Lijfe?

Þad er su Pioonusta, sem Madureñ æ Gude ad audsyna, bæde i þvi, ad lofa hañ og prijsa, þacka hønum, heidra hañ og elska frañ yfer alla Hlute, fyrer allt þad gott

gott hañ giort hefur Mañkynenu; so og i þvi, ad trwa øllu, sem hañ hefur um̃ sig edur siñ Vilia opeñberad i Ritninguñe, og ad setia allt sitt Traust til hañs, og ad giøra þa gooda Hlute, sem hañ hefur boded, eñ fordast þad hañ bañad hefur.

Hvar hefur Gud boded þessa Gooda Hlute og bañad hina Vondu?

Fyrst hefur hañ þad skipad og bañad i allra Maña Hiørtum: Þar aller Meñ af Naatturuñar Lioose kuña ad nockru-Leite ad greina Gott fraa Illu, og Illt fra Goodu, so sem St. Paall seger, Rom. 2. v. 14. 15. Ad Heidingiarner, sem eige hafa Løgmaaled, giøre þo af Naatturuñe hvad Løgmaalsens er, hvar med þeir syne Løgmaalsens Verk ad vera skrifad i siinu Hiarta; Eñ allra hellst og fullkomlegast hefur hañ opeñberad siñ Vilia i siinu Heilaga Løgmaale, sem hañ wtgaf aa Fiallenu Sina i Eydemørkeñe, epter þad hañ hafde wtleidt Israels Sonu af Ægyptalande fyrer Hønd siins Þienara Moisis.

Hvad hefur þetta Løgmaal iñe ad hallda?

Þad hefur iñe ad hallda þau Tiju Bodord, sem þu lært hefur i Frædunum, og

kallast ORD, Devt. 4.v. 13. Til hverra allt þad Gott heimfæra maa, sem Gud hefur skipad, og allt þad Jllt, sem hañ bañad hefur.

Þvi hefur Gud boded þad Gooda, eñ bañad ad giøra þad Jlla?

Þvi hañ er sialfur goodur, og alls goods Høfundur og Uppspretta, eñ þad vonda er hønum gagnstædelegt; Þvi vill hañ ad Madureñ (sem i øndverdu var epter Guds Mynd skapadur til ad þioona hønum i Rettlæte og Heilagleika) ad hañ verde sier sem lijkastur i øllum sijnum Huxunum, Ordum og Giordum.

Fyrst Guds Sonur hefur bætt fyrer Syndena, þvi þarf þaa ad lifa epter þessum Guds Tiju Bodordum?

Þviad Guds Sonur hefur broted Afl Syndareñar, og afmaad heñar Straff, eñ eige Løgmaaled, Hañ er komeñ til ad uppfylla Løgmaaled, eñ eige ad uppleysa þad, edur onytt giøra, Matth. 5.v. 17. Gud saa ad Madureñ gat ecke hid miñsta af Løgmaalenu fullkomlega uppfyllt epter þad hañ var falleñ; Þvi sende hañ Soneñ til ad uppfylla þad vor vegna, samt vill hañ þo, ad vier skulum Løgmaalenu hlyduger

vera i øllu þvi vier getum.

Med hveriu moote afhendte Gud Moisi þetta Løgmaal ?

Hañ feck hønum þad skrifad a Tveim-ur Stein-tøblum.

Hvad mørg voru a þeirre Fyrre ?

Þar um̃ hafa Meñ eckert vijst, rijdur og a eingu ad vita þad, alleina sokum þess, ad vor Endurlausnare seiger, ad allt Løgmaa-led og Spaameñerner sie iñcfaled i þessum Bodordum; Matth. 22. v. 37. Elska skall-tu Drotteñ Gud þiñ af øllu Hiarta þijnu, og af allre Ondu þiñe, og af øllu Hugskote þijnu, og þiñ Naunga sem sialfañ þig. Þa segia Meñ, ad þau Bodordeñ, sem a-hræra Guds Dyrd, hafe vered a þeirre Fyr-re, eñ hin sem Naungans Elsku snerta, a hiñe Sijdare.

Hvad mørg eru þa hver um̃ sig ?

Þau sem Guds Dyrd sierdeilis ahræra, eru alleina Þriu, eñ hin Siø.

Willtu seigia mier Utskyring Bodordaña ?

Eg vil ad søñu, eñ þo skalltu athuga fyrst þessar epterfylgiande Reglur, ef þu villt rett skilia, og þier i Nyt færa Guds Tiju Laga Bodord.

1. Bodorden eiga eige so ad skiliast, so sem ecke sie meira i þeim boded nie bañad, eñ þad syneſt ad vera i fyrsta Alite; helldur epter þvi, sem bevijsad verdur af Heilagri Ritningu, ad þau eige ad skiliast, og so sem Gud hefur þau sialfur utlagt i sijnu Heilaga Orde.

2. Þar sem nockur Hlutur er skipadur i einu Bodorde, þa skilst þar under, ad þad bañad sie, sem þeim hinum sama gagnstædelegt er, og þar sem eitt er bañad, þa er þad under eins skipad, sem þar er þvert a moote: Til dæmes; J Fiorda Bodordinu er skipad ad heidra Fødur og Modur; Þvi er þar under eins bañad, ad vanheidra þau: Og i þvi Fimta er bañad ad vega Mañ; Þvi er þar eiñeñ boded, ad hialpa hønum til Lijfsens, ef aliggur.

3. Þad ber skynsamlega ad adgreina i Bodordunum, sem ad øllum Møñum vidkiemur, so sem er: (1) Allt þad, er af Natturuñe er opeñbert øllum. (2) Þad sem af Christo, og hañs Postulum er i Nya Testamentesins Bookum Jtrekad, og øllum boded, fra hinu, sem sier i lage vidkom Jsraels Foolke. (3) Hootaner

Løg-

Logmaalsens eiga ad skiliast med þui Fororde, ad þær endelega skule fram̃koma, nema Syndareñ ydrest; Þvi þoott ad Logmaaled wtheimte fullkomna Hlydne, Gal. 3. v. 13. Þaa er þo þess Bølvan burttekeñ af þeim sem ydrast og trwa aa Christum. Rom. 8. v. 1.

(5) Fyrerheit Logmaalsens aa med þvi Skilorde ad wtleggia, ad Madureñ, fyrer hvern Guds Sonur hefur Logmaaled uppfyllt, sie þo alltijd skylldugur Krosseñ ad lijda; Þvi Syndareñ hefur hañ forþienad, og laangtum meira eñ Gud leggur honum uppaa, jafnvel þeim er hañ elskar, til ad temia Holldsens Gyrnder, so ad Trwañ aa Christi Forþienustu, sem hiaa Guds Børnum er i stadeñ fyrer Logmaalsens Uppfylling, hun efllest þess meir, og ad hañ verde Saaluholpeñ fyrer Trwna, sem vegna Holldsens Veikleika, gietur eige orded fyrer Logmaaled. Rom. 8. v. 3.

Ad þessu vil eg giæta, eñ þo maa eg fyrst spyria Hvad merkia þesse Ord, Hootaner Logmaalsens, Fyrerheit Logmaalsens?

Hootaner Logmaalsens er þad Straff, sem Gud hefur hootad þeim, sem Logmaa-

led eige hallda; So sem þetta. Devt. 27. v. 26. Bølvadur sie sa, sem ecke helldur allt þad, sem skrifad stendur i Løgmaalsens Book, ad hañ giøre þad. Fyrerheit Løgmaalsens er allt þad, sem Gud hefur fyrerheited þeim, sem Løgmaaled fullkomlega hallda, so sem þetta: Hver sem þetta giører, hañ skal lifa þar i, og añad þvilijkt.

Hvad merker þetta Ord, ad lifa? Margur lifer leinge, mun þad koma af þvi, ad hañ helldur Løgmaaled?

Laangt er fraa þvi; Helldur kiemur þad af Mÿskun Guds, og Poleñmæde, sem vill draga Syndarañ til Jdranar og siñar Peckingar, ad hañ hoolpeñ verde: Og þoott hañ vite, ad sumer verde ei þessarar siñar Naadar niootande, Sokum þeirra Pvermoodsku, og Hirduleyses, þaa samt frambydur hañ þeim Naadena, so ad þeir hafe einga Afsøkun, eñ ad hañs verde Dijrdeñ: Eñ þetta Ord, ad Lifa, merker allra handa Farsælld, bæde Tijmañlega og eylijfa, sem sijdar mun sagt verda.

Seig mier nu þesse Tiu Guds Bodord og þeirra Utskyring?

Pad vil eg giøra, eñ giæt ad þvi, sem eg strax

strax sagde. Les hid Fyrsta Bodord.
† Eg er Drotten Gud þin, þu skallt eigi hafa anarlega Gude fyrer mier. †

Þu hefur sagt mier ad nockruleite hvilijkur Gud sie, en hvad er þetta, ad hafa anarlega Gude?

Eg hefe ad sonu; Þo attu ad merkia þad i þessu Bodorde, ad Gud setur þad allra fyrst af Bodordunum, til þess ad syna øllum Monum, ad han hafe Walld til ad biooda, bæde þad sem i þessu Bodorde er skipad og banad, so vel sem i øllum hinum, sem a epterfylgia; Þvi ef han er Gud, sem øllu stioornar bæde a Himne og Jordu, og bæde Manen og alla adra Hlute giort hefur, þa er andvitad, ad han hefur miklu meira Walld til ad skipa hverium einum þad han vill, helldur en nockur Verralldlegur Hofdingie edur Konungur hafa kan, og þad Walld er þeir hafa, þad hafa þeir alleina af honum.

Þetta skilst mier, en seig mier nu hitt, hvad er ad hafa anarlega Gude?

Fyrst byriar ad athuga hvad þetta Ord merke, ad hafa. Men kalla ad hafa ein Hlut, er Men hallda a, brwka edur geima;

ſo at þetta Ord ecke ad ſkiliaſt i þeſſum Stad, þvi Gud er obreifanlegur, og oſynilegur, verdur þvi ecke geimdur edur iñelokadur i nockre Hirdſlu edur Herberge, edur med Hønd hafdur, eins og Lijkamleger Hluter; helldur merker þetta Ord, ad hafa, i þeſſu Bodorde, eckert añad, eñ ad hafa, eitthvad i Hiartanu, hveriu Mañſens Hugur treyſter aavallt, trwer aa þad, vonar aa þad, og vænter ſier þar af Hiaalpar og Adſtodar, hvad ſem aaliggur, og alls añars gods, bæde i Medlæte og Motgaange, i Lijfe og Dauda. Eñ añarleger Guder voru fordum Daga. 1. Allur Himenſens Her, Sool, Tungl, og adrar Stiørnur; Item ferfætt Villudyr, er Meñ hofdu Gagn af, epter hverium Heidner Meñ ſmijdudu Skwrgod ſijn og Likneſkiur; So og voru þad Bilæte daudra Maña, Konunga og Landshøfdingia, þeir ed mektuger voru, og brutu adra under ſig; So ſem voru hiaa oſs Þor og Odiñ: Hveria þeirra Epterkomendur, fyrer Tilteiging Andſkotans, giørdu ad Gudum, til ad hræda þar mz einfallt Mañkyn, ſem ei viſſe af hinum ſaña Gude, og ſtood af þeſſu ecke all-lijtell Otte, þvi þeir meintu,

ad

ad þeir være Godaña Syner, er feingu Moñum slijkt til Atrwnadar; So og voru þeir dyrkader, so sem Guder, epter Daudañ, sem upp høfdu funded Menter og Kunster Moñum til Gagns og Nota, edur Skemtunar; So sem: Skalldskap, Hlioodfære, Læknisdooma, Smijdverk, Hagleik, og añad þvilijkt; Item Kvikinde Jardareñar, jafnvel hin audvirdelegustu, hver ed heidner Meñ dyrkudu. Um̃ allt þetta talar Paulus, Rom. 1. v. 23. 25. Segiande; Þeir hafa snued Dyrd oforgeingelegs Guds i Bilætis Lijking forgeingelegs Mañs, og Fugla og Fiska, og ferfætlinga; Og skom̃u sijdar seiger hañ; Ad þeir hafe um̃breitt Guds Sañleika i Lyge, og gøfgad og dyrkad Skepnuna fram̃ hiaa Skaparañum. 2. Er þad allt þad, er Meñ tilleggia þañ Heidur og Virdingu, er Gude alleina soomer; So sem þegar þeir ottast Meñena eins, edur framar, eñ Gud, og hlijda þeim i þvi sem Gud hefur bañad, edur treista nockrum Hlut jafnfram̃t hønum, hvert helldur þad eru Eigner, Valld, Metord, Afl edur Vitska, edur hvad añad, sem Meñ hafa Traust aa. 3. Er þad allt þad sem Meñ

Packa

Packa fyrer, medtekna Velgiorninga, jafnt Gude, edur framar hønum; So sem ef nockur giører oß gott, þaa stundum vier ad þocknast hønum aptur (sem ad søñu aa ad vera) eñ Gude giallda Meñ litlar Packer þar fyrer, edur kostgiæfa ad lifa epter haña Bodordum (hvar med hønum verdur best þackad) og nockrer þacka siaalfum sier, og siinum Atburdum og Skynseme, Laun sitt og Luckn, þad er allt, ad hafa Añarlega Gude: Þvi hvad hellst, sem vier gott hliootum, hvert þad kemur fraa ødrum Møñum, edur vier siaalfer kostum voru Erfide edur Ahyggiu þartil, þa kemur þad allt i Fyrstuñe fraa Gude; Og aa hønum þar fyrer ad giallda hinar mestu Packer, añars Ovirdum vier hañ og høfum añarlega Gude. 4. Eru añarleger Guder, allt þad er Madur elskar, so miked edur framar helldur eñ Gud, hvert þad eru Meñ erner lifande edur dauder, edur eru þad adrar haña Skepnur, Goß og Peningar, og sierhvad añad, sem Gud hefur oß giefed til Nota, jafnvel vort eiged Lijf; Þvi Meñ eru skylldugir ad laata þad, helldur eñ ad giøra vijsvitande þad sem Gud hefur bañad,

ad, an̄ars syndga Men̄ a moote pessu Bodorde; Þvi seger Christur: Luc. 14. v. 26. Ef nockur kemur til mijn, og hatar (*) ecke Fødur sin̄ og Moodur, Konu sijna og Brædur sijna, og Systur, og jafnvel sitt eiged Lijf, han̄ kan̄ ecke min̄ Lære-svein̄ ad vera. En̄ hin vesta Afgudadyrkun er ad elska Holldsens Girnder, Synder og Leste, og liggia i þeim a moote Samvitskun̄e.

I þessu Bodorde er ban̄ad ad hafa Aũarlega Gude, En̄ hvad er nu boded i þvi?

J þvi er boded, 1. Ad þeckia Gud, ad so miklu Leite, sem han̄ hefur open̄berad sig i sijnu Orde, og til Saaluhiaalpar maa nægia; Hveria Þecking Men̄ faa i han̄s Heilaga Orde, og saa sem þad forsoomar, han̄ brytur þetta Bodord. 2. Ad trwa a han̄, og setia allt sitt Trwnadar-Traust til hn̄s Maattar og Giædsku, ad han̄ bæde vilie og gete veitt oss allt hid Gooda, en̄ sierdeilis Fyrergefning Syndan̄a og eylijft Lijf. 3. Eiga Men̄ ad elska han̄ laangt fram̄ yfer alla adra Hlute. 4. Eigum vier

(*) Ad hata, merker hier (epter Ordshætte Ritningaren̄ar) ad elska min̄a conf. Matth. 10. v. 37

vier ad vona a hañ, og vænta Hiaalpar og Adstodar af hønum, og alls Goods, hverſu Ovænlega ſem aahorfeſt. 5. Eigum vier ad Ottaſt hañ, þad er, ad hrædaſt fyrer ad ſtyggia hañ vijsvitande, med þvi, ad giora nockurt af þvi, ſem hañ bañad hefur, og ad læra ad þeckia hañs Vilia, ſo vier eige ſieum ſiaalfer Orſøk i þvi, ad vier giørum Ovitande, þad ſem hañ hefur fyrerboded. 6. Eigum vier ad audmykia oſs fyrer hønum, og reikna oſs miña eñ einkis verda i hañs Auglite, ſem er ſo Heilagur, Volldugur og Rettlaatur, og þo ſo Myskunſamur og Naadugur. 7. Eigum vier þoleñmoodlega ad lijda allt hvad hañ aa oſs leggur, vitande ad vier høfum þad med vorum Syndum forþienad, og jafnvel þott vier meigum fyrer Sakleyſe lijda Illt af vondum Møñum, ſamt eigum vier þad med Poleñmæde ad uñbera; Þvi Gud aa friaalſt ad typta oſs þar med, fyrer adrar vorar Synder, edur ad temia vort giaalijfa Holld, og leida oſs til Idranar þar med.

Hvad er Voneñ? Mier ſyneſt þad vera hid ſama og Trweñ?

Lijk-

Lijkar eru þær ad soñu; Eñ þo eige alleilis hid sama. 1. Trweñ er fyrre, og getur af sier Vonena. 2. Trweñ medtekur alleina Christum, fyrer hvern vier bliootum allt hid Gooda, og ber hañs Forþienustu fram̃ fyrer Guds Haasæte; Hun forlijkar oss vid Gud, og afrekar oss hañs Naad; Eñ Voneñ biijdur epter þvi gooda, sem afrekad er, og Gud hefur lofad Trwudum, og bidur um̃ þad med fullu Trauste. 3. Trweñ er sier i Lage um̃ þa Hlute, sem nærverande eru; So sem um̃ Guds Naad og Fyrergefning Syndaña. Voneñ biijdur epter þvi, sem Okomed er; So sem er eylijft Lijf.

Er eckert bañad i þessu Bodorde, nema þad sem þu fyrer skoñu upptalder?

Allt er þad Iñefaled, ad soñu i þvi, sem aadur er sagt, eñ þo eru þessar Synder sierdeilis aa moote þessu Bodorde. 1. Gudleysa þeirra er seigia; Þar er eingeñ Gud. Ps. 14. v. 1. 2. Þeirra er seigia, ad hañ eckert hirde um̃ Verolldena, edur Hattalag daudlegra Maña. 3. Skurdgoda Dyrkun, er var hiaa Heidingium, þeir ed tilbaadu Afgude sijna, sem aadur er sagt.

4.

4. Er þad Galldur og Fiølkynge þeirra, er særa og Tilbidia Andskotañ, brwka þar til Ristingar og Okieuda Stafe, og hafa Trwnad þar aa. 5. Raangar Meiningar uñ Gud, og Villu Lærdoomar, nær Meñ trwa edur kieña añad uñ Gud og hañs Veru, Ord og Sacramenta, eñ hañ hefur opeñberad, og þad sem ei sambijdur hinum retta Ordsens Skilninge, edur og uñ hañs Stioornan i sijnu Naadar-Rijke. 6. Pad er og aa moote þessu Boddorde, nær Meñ hafa Of-Traust aa Gude, i þeim Hlutum, er hañ ei hefur lofad siñe Naad og Adstod; So sem ad voga sier i Lijfs-Haaska, ad Parflausu; Pad er ad freista DRottens: Edur og ad liggia i einhverre vitañlegre Synd a moote Samvitskuñe, hversu lijtel sem hun synest i vorum Augum, eñ ætla þo ad Gud mune vera sier Naadugur; Pad er ad Ovirda Gud, og ætla, ad hañ ecke sie eins vel Rettlaatur og Myskuñsamur. 7. Er þad Hræsne þeirra, er laatast þioona Gude, hafa hañs Ord i Muñe, laata siaa sig i Kyrkiuñe, og seigiast trwa aa hañ, eñ þeinkia þo allt añad, lifa eingañveigeñ epter hañs Orde, og

þo

þo þeir lœteſt lifa, til ad firra ſig Viitum fyrer Moñum, þo er þad ecke af Hiarta, ecke af Elſkuñe til Guds, nie Kiœrleikañum til Naungans.

Er þar nockur, ed ſege, ad Gud ſie ei til?

Lijklegt være, ad ſaa være eingeñ; Þo ſeger David: Pſ. 14. v. 1. og Pſ. 53. v. 1. Hiñ Ogudlege ſeger i Hiarta ſijnu; Þar er eingeñ Gud. Þar fyrer, mun þvi ei neitta meiga, ad ſlijker Gudlauſer Skaalkar ſieu til; Velldur þad þvi, ad þeir giefa ſier eingar Stunder, fyrer Holldſens Giaalijfe, til ad þeinkia um̃ Guds undarleg Verk, og alvijſa Raadſtøfun, bæde i Naatturu Hlutaña, er Meñ Daglega ſiaa fyrer Augum ſier, ſo og i Mañaña Efnum, ſem vier optlega meigum berlega þreifa aa; Eñ þad þyker þeim yndællt, ad eingeñ ſkule Gud vera; Edur og, ad hañ ei hirde um̃ forgeingelega Hlute, og þar ſie eingeñ Hegnare vondra Verka, So ad þeir lifa meige epter Villd ſiñe.

Hier ſtendur; Þu ſkallt eige hafa añarlega Gude, Eins og talad ſie vid Eiñ?

Þad er til þeſs giort, ad eige einaſta aller Almeñelega, helldur og ſierhver eiñ vite,

ad hañ sie skylldugur sierhvert eitt af þessum Bodordum ad hallda; Eige einasta Gydinga Foolk, helldur sierhver Adams Nidie; Þvi seger Postuleñ: Rom. 11. v. 32. Ad Gud hafe iñelukt allt under Ohlydneñe, þad er, under Þeckingu Ohlijdneñar, sem kemur af Logmaalenu.

Hvar fyrer fylger þesse Grein sierhveriu Bodorde; Vier eigum ad Ottast og Elska Gud?

Hun miñer oss aa Skylldu vora vid hvert Bodord. Vorrar Kyrkiu Lærefader, Lutherus seger fyrst, Vier!, þar sem Gud seger, Þu, til ad syna, ad þetta sie ei boded einhveriunt Einum, helldur øllum. Þar næst seger hañ: Vier Eigum; Þad er til ad syna oss, ad vier sieum Skylldug er hier til: Vier eigum, þo ecke getum vier. Guds Bille og hañs Logmaal er Ombreitañlegt; Hañs Rettlæte lijtur ecke epter þvi, sem vier getum, helldur epter þvi, sem vier erum skyllduger ad giøra, og epter þvi, sem Madureñ gat hallded, þegar hañ var af Gude fyrst skapadur i Rettlæte og Heilagleika. Ad Ottast; Þetta Ord gagnar til þess, ad nær oss sierhvert Bodord i Hug kemur, edur eitthvert þad, sem i þvi

i þvi er bañad, þa skulum vier hrædast og skielfast vid ad styggia soddañ Ognarlega Haatign, med þvi, ad drygia þad, sem hañ bañad hefur, þvert aa moot Samvitskuñe. Og i ødru lage, nær vier reynum og proofum sialfa oss, og fiñum, ad vier høfum margfalldlega broted aa moote sama Bodorde, jaa og moote øllum, ad vier þa skelfunst fyrer hañs Reide, hveria vier forþienad høfum; og aangrunst i Hiartanu, lærum ad audmykia oss, og bidia um̃ Fyrergefning Syndaña, med Harmþrwngnum og sundurknosudum Anda: Þetta aa ecke ad vera neiñ Þræls-Otte, so sem þegar eiñ Þræll strykur fraa sijnum Herra, þvi hañ ottast Straffed; Helldur Sonarlegur, saa ed verke hiaa oss þad sem aadur er sagt, og ad hrædast ad syndga framar, ad ei missium vier Guds Naad, og verdum alldeiles wtskwfader. Ad Elska Gud: Eckert er kostulegra til ad hallda Guds Bodord, eñ Elskañ til hañs; Þvi hvern sem Madur elskar, þañ varast hañ ad styggia, og vier þolum alla Hlute fyrer þaa, er vier af Hiarta uñum; Og þott ad allt þad, er vier megnum ad giora epter Guds Bodordum,

ordum, sie Ofullkomed, þa verdur allt gylldara, nær þad framkemur af Elskuñe til hañs, og fullkomnast fyrer Trwna, sem ad Elskuñe jafnañ fylger. Hier ad auke miñer þetta Ord oss aa hañs Guddoomlega Elsku, hañs Giæsku, hañs Poleñmæde yfer oss Syndugum Ormum, so vier af þeirre sijfelldre Ihugan drogunst, jafnvel nauduger, til ad elska hañ, og fordast ad giora þad honum mislijkar: Og þessara Orsaka vegna, sem nu hefe eg sagt, þa fylger þesse Grein hveriu Bodorde i Christelegum Frædum; Og þetta er hid Ædsta og Mesta Bodord i Logmaalenu; Og so sem þad er fyrst i Toluñe, so hanga og øll hin af þvi; Þviad allt hvad i þeim er boded edur bañad, þad eigum vier fyrer Guds Saker ad giora, og laata Ogiort, so ad ef nockur heidrar Fødur og Moodur, lifer hreinferduglega i Ordum og Verkum, og añad þvilijkt, eñ elskar þo ecke Gud nie Ottast hañ, saa same kañ ecke Gude ad þocknast, og hefur broted þetta Bodord, þott hañ øll hin hallded giæte, og so øll hin, fyrst hañ eige þetta helldur; Ecke einasta þess vegna, ad saa sem helldur allt Logmaaled,

marled, eñ brytur eitt Bodorded, hañ verdur sekur i øllum, so sem Jacob vottar, Cap. 2. v. 10. Helldur og hins, ad Otte og Elska DRottens ar ad gaanga i gegnum øll Bodordeñ, pad er, ad hvad vier giørum edur Ogiørt laatum, pa sie Otteñ og Elskañ Orsøk par til.

Seg mier Utskyring hins Añars Bodordsins.

† Pu skallt eige leggia Nafn DRottens Guds pijns vid Hiegooma. †

So sem Gud hefur i fyrsta Bodordenu skipad, ad ottast sig og elska (hvad alleina verdur giørt med Hiartanu) So hefur hañ og i pvi ødru boded, hverneñ Madureñ skule heidra sig med Muñenum og Twnguñe.

Hvad merker petta Ord, Guds Nafn?

Pad er allt pad sem um̃ Gud verdur kiendt af hañs Heilaga Orde. 1. Merker pad hañs Guddoomlega Veru, sem er EJn; Og hañs Personur, sem eru PRJar. 2. Hañs EJGiñlegleika, so sem eru; Hañs GJŒDska, hañs RETTlæte, hañs Almætte, hañs Alvitska, og añad pviljkt. 3. Eru pad hañs Verk; So sem SKOPunareñar, STJORNareñar; Ad hañ rædur og styrer øllum Hlut-

um, bæde a Himne og Jordu: VARD-veitsla og VIDurhalld allra Hluta; Ad hañ øllum Hlutum vid Makt helldur, bæde aa Himne og Jordu, ad þeir ecke eydeleggiast edur forgaanga. 4. ENDurlausnar og HELGunar-Verked; Hvar uñ sijdar talad verdur i Utleggingu Trwargreinaña: Eckert af þessu aa ad leggia vid nockurn Hiegooma.

Hvad er þad, ad leggia vid Hiegooma?

Þad er, ad hafa þad i Muñe, nær Madur talar uñ hiegomlega Hlute, aa hverium lijted edur eckert rijdur, þvi þaa brwka Meñ Guds Nafn, so sem einkis verdañ Hlut, og moote þvi syndga aller þeir, ed i Daglegu Tale nefna Gud til añars, eñ ad tilbidia hañ, lofa og dyrka, og ad sveria þaa Eida, sem naudsynleger eru, jafnvel þott sañer være.

Er þetta so mikel Synd?

Ad vijsu er þad ein hrooplegSynd; Þvi ad Guds Nafn er hiñ veglegaste Hlutur, er hugrast kañ, þvi eigum vier ecke ad taka oss þad i Muñ, nema med stærstu Virdingu; So ad jafnvel þeir, sem laatast tilbidia Gud, edur syngia hønum Lof, eñ giora þad ecke,

ecke af Hiarta, þeir vanbruka Guds Nafn; Og þessu Bodorde fylger ein straung Hootan i Løgmaalenu, sem ecke er iñfærd i Frædeñ.

Hvørneñ er þesse Hootan?

Hun er þañeñ. Þvi Gud mun ei halda þañ saklausañ, sem hañs Nafn brwkar Hiegoomlega, Exod. 20. v. 7.

Er þesse Hootan so straung?

Ad vijsu er hun; Þvi hvern þañ sem Gud ecke helldur saklausañ, þañ helldur hañ sekañ; Eñ sæ ed hañ sekañ helldur, hañ er sekur Helvijtis Ellds.

Er þa eckert añad fyrerboded i þessu Bodorde?

Margt er þar i añad fyrerboded; Eñ Gud hefur teked til hins miñsta, sem er, ad leggia sitt Nafn vid Hiegooma, og lagt þar Straff vid, til ad syna hverju vidurstyggelegar ad sieu adrar Gudlastaner, i hañs Auglite, og þo ad øll Bodorda-brot viñe til Fordæmingar, þaa fylger eingum hinum Bodordunum nein wtþryckeleg Hootan, nema þessu; Bæde þeß vegna, ad syna hverju stoorar ad sieu i hañs Auglite þær Synder, sem moote þvi drygdar eru; Hins og añars, ad Meñ virda þad so lijtels ad

vanbrwka Guds Nafn, þess vegna, ad þad er so alment, og valla nockur Synd tijdare medal Mañaña.

Hvad er þa fleira bañad i þessu Bodorde?

J þessu Bodorde er boñud wtþryckelega øll Vanbrwkun Guds Nafns; Eñ þar underfelst: 1. Galldur og Fiølkyngi; Þad er, nær Madur brwkar Guds Ord, Heilaga Psalma, edur Ord Ritningareñar til ad dyrka Sathan med, og blanda þvi vid heimskulegar Rwner og Ristingar. 2. Er þad allra handa Gudløstun, sem skedur med Twnguñe, añadhvert, ad Meñ lasta Gud, edur tala illa, og med Opoleñmæde, um̃ hañs Stioornan, edur Tilhlutan; Eñ ecke sijdst, nær Meñ keña edur tala ranglega um̃ hañs Veru, edur Persoonur Guddoomsens; So og um̃ hañs Eigeñlegleika: GJÆDskuna, RJETTlæted, ALmættet og añad þvilijkt. 3. Eru hier bañader onaudsynleger Eidar, jafnvel þott Madur satt seige, og eiga Meñ ecke einasta, ad varast ad sveria vid Guds Veru, og Guddoomsins Persoonur, helldur og vid hañs Eigeñlegleika; So Madur mã alldeilis ecke sveria; So sañarlega sem Gud

er,

er goodur, RETTlaatur, Almaattugur; jafnvel þoott hañ satt seige; Eige hellður vid hañs Verk; Til Dœmes; So sem Gud hefur skapad mig. So sem eg er christeñ Madur; Þvi þad snerter Skøpunar, Endurlausnar, og Helgunar Verked, og vid eingañ Hlut, sem Gud hefur skapad, Þvi hvad sem Madur sver vid, og vill stadfesta Sañleikañ þar med, þad giører hañ ad Gude; Þvi Gud hefur boded, Devt. 6. v. 13. Ad sveria vid sitt Nafn, þar sem sveria byriar: Þvi stendur þad fast, sem Christur sagde vid Læresveinana; Matth. 5. v. 34. 37. Þier skulud ølldungis ecke sveria, eñ ydar Ræda sie Jaa og Nei. 4. Eru þad Formælingar, og illar Fyrerbæner fyrer siaalfum sier, edur ødrum, hvert hellður Meñ bidia þess illa af Gude siaalfum; Edur og ad hañ leise Andskotanum edur illum Møñum ad straffa nockurn og med hveriu moote, sem Madur bidur siaalfum sier edur ødrum Olucku nockurrar: Eñ hier eru fraatęknar þær Formælingar, er alleina fram̃koma af Vandlætenu vegna Guds, og hañs Nafns; So sem nær Meñ bidia, ad Gud straffe Ov'ne

siñar Christelegrar Kyrkiu; So sem lesa maa sumstadar ad Guds Meñ hafe giørt, bæde i Gamla og Nya Testamenteñu. Po skal Madur vakta sig vel, ad i slijkum Formælingum eckert frañkome af Heiptrækne, edur Hefndargyrne, fyrer sialfañ sig; miklu helldur bidia, ad Gud vilie uñsnua þeim til Sañleikans Vidurkeñingar 5. Bænræktarleysed, nær Meñ forsooma ad aakalla Gud, tilbidia hañ, lofa og vegsama og þacka hønum; Þvi allt þetta skilst under Bæneñe. 6. Vanþacklæte vid Gud, nær Meñ berlega vanþacka hønum hañs Gaafur, tilleggia þær sialfum sier, edur ødrum, med Sialfhælne edur faanytu Hroosē a ødrum. 7. Ad jaata ecke og medkeña Gud og sañа Trw, nær sem Þørf giørest; Edur og ad jaata añad med Muñenum, eñ Madur þeinker, fyrer Otta edur Aviñings Saker. 8. I sijdarsta Maata, er þad, ad liuga edur svijkia vid Guds Nafn, hvert ad er stoor Synd i sialfu sier, eñ verdur miklu stærre, þegar Guds Nafn er brwkad þar til. Hier eiga og heima raanger Eidar.

Hver-

Hveriar Dygder eru bodnar i þessu Bodorde?

Pad er audsied af þvi sem bañad er; Eñ þo eru þessar hinar hellstu. 1. Ad Akalla Gud, ecke einasta þegar oss sier i Lage eitthvad aaliggur, helldur ydnglega. 2. Ad Vidurkieña Guds Nafn, og Trw sijna fyrer hveriuum Mañe, nær Þorf giörest, og jafnvel þott Meñ ættu ad leggia Lijfed þar ofan aa, so sem Guds Pijslarvottar giordu. 3. Ad giora Gude Packer ydnglega fyrer sijna Velgiorninga, Andlega og Lijkamlega. 4. Hin Fioorda Dygd, sem bodeñ er i þessu Bodorde, er ecke einasta, ad hallda þad fyrer hiñ stærsta Glæp ad sveria raunglega, helldur og ad hallda fastlega siñ Eid, sem Meñ hafa Gude svared.

Pu sagder fyrer skömu, ad Meñ ætte aldeilis ecke ad sveria, eru þaa einger Eidar leifeleiger?

Ad vijsu eru þar nockrer: Fyrst eru þad aller þeir Eidar, sem eiñ Doomare leggur einum riettvijslega uppaa, til ad stadfesta Sañleikañ og reka Lygena til baka. J Añañ Maata eru þad þeir Eidar, sem Yfervallded leggur sijnum Undersaatum uppaa, so sem þegar Meñ sveria Konunge-

um Hollustu, edur nær Prestar og Yfervallds Meñ sveria sijna Embættes Eida; Aller þesser Eidar eru leifeleiger; Þvi med þeim verdur Gud Dijrdkadur.

Med hveriu Moote verdur Gud med þeim Dijrdkadur?

Fyrst med þvi, ad þar Meñ taka hañ til Vitnes ad Søgu siñe, þa jaata Meñ hañ Alvitrañ, ad hañ vite þad, sem eingeñ kañ ad vita; Og so Riettlaatañ, ad hañ mune þa ecke Ohegnda laata, er sveria raanglega vid hañs Nafn; Og her ad auke duga soddañ Eidar til ad framfylgia Rettenum og Sañleikanum, eñ reka Lygena til Baka; Til ad fella hiñ Sakada, eñ frelsa hiñ Saklausa; Til ad giøra Ender aa Prætum, og til ad koma Saattum aa mille Maña, ef rettelega er hier med høndlad, hvad allt þienar til Guds Dijrdar; Þvi bañar og DRottenn, ad sveria vid Nafn añarlegra Guda, Exod. 23. v. 13. Eñ hiner sijdare Eidarner eru til þess, ad halda Moñum til ad efna sitt Heit, so nær þeir verda freistader af einhverre Synd, sem er aa moote þvi, þa miñer Eidureñ þaa ad hrædast ad styggia Gud, vid hvern þeir svared hafa.

Legg

Legg mier wt hid Pridia Bodorded?

† Minstu ad Helga Hvijlldar-Dageñ DROTTeñs Guds Pijns. †

Hier er fyrst ad athuga þetta Ord, Minstu, hvert ecke er forgefens sett hier, þvi 1. heyrer Miñed til Saaluñe, og hi-
num-Jñra Mañenum; Verdur þvi sijnt hier med, ad Gud heimter ecke einasta af oss wtvortes Pioonustuna, helldur laang-
tum meir þa, sem iñre er i Hiartanu. 2. Ad þad sie Orsøk til allra Synda og Lasta, ad gleyma Guds Dyrkan, og afrækia ha-
ñs Ord. 3. Til ad kieña, ad vier eigum ecke fyrer hvern Mun ad laata þetta und-
añfalla, þvi þad er so sem nockurskonar sierdeilis Skattur, saa ed Gud hefur skiled sier af Mañsens Saalu og Lijkama, og fylger þetta Ord einasta þessu Bodorde.

1. Vegna þess, ad þetta Efne er so haa-
leitt, og Omissande fyrer Mañeñ, ad hañ aan þess (þad er aan Guds Orda Heyrn-
ar) kañ ecke hoolpeñ ad verda; Og þess vegna er þetta Bodord optar eñ hvert añ-
ad Jtrekad i Ritninguñe. 2. Af þvi, ad Gud hefur fyrersied, ad hin ytre Pioon-
ustugiørd munde hiaa allmørgum verda

blønd

blønduð með Hræsne og utvortis Skyne, þvi brukast hier þetta Orð, til að syna, að Helgun Hvijlldardagsens ei sie foolgeñ i Ydiuleyse, Klæda-skiptum, edur utvortis Ceremonium; Helldur i þvi, að miñast aa Guds Daasemder, Velgiørninga og Kiærleika til Mañsens, sem og adra Hlute, er þiena til Saaluhiaalpareñar. 3. Søkum Illsku og Toomlætis vors Hiarta, sem þyngest af Sorgum þessarar Næringar, eñ lætur sier so lijtt uñhugað vera, að þeinkia aa sijna Helgan, er að soñu ætte Daglega að ske, með Idran og Yferboot, eñ þo hvað mest aa þessum Dege, hvar fyrer oss boðed er að hvijlast af ødru Erfide, so vier faaum þetta þess betur giørt.

Hvað merker hier, Að Helga?

Það er, að hallda Heilagañ. Þesse Dagur er ecke i sialfsun sier heilagare eñ añar Dagur, eñ hañ verdur oss heilagur, nær vier helgum oss sialfa aa honum, og brukum hañ til að þioona Gude, og verka vora Saaluhiaalp, hvað eð skedur: 1. Með þvi að hvijlast af veniulegu Erfide. 2. Ecke að bruka þeña Dag til eintoomes Ydiuleyses, helldur til að heyra Guds

Orð

Ord og læra þad, ecke einasta i Kyrkiuñe, helldur bæde fyrer og epter Pioonustugiørdena; Fyrer hana med Bænum til Guds, ad hañ vilie giefa oss Eptertekt siña Heiløgu Orda, sañarlegt Angur og Trega fyrer Synder vorar, (hvar til Naudsynlegt er ad rañsaka sitt Lijferne æ fyrerfarande Viku) ad hañ vilie stadfesta i oss Trwna, Kiærleikañ, og Poleñmædena, og med þvilijku Hugarfare æ Madur ad gaanga til Kyrkiu; Epter Pioonustuna, ad prijsa Gud med Psalmum og Loffsaungum, edur i añañ Maata, med Lestre Guds Orda. Eñ sierdeilis ætte þesse Tijme ad brwkast til ad uppfræda hina Ungu og Faafroodu i sijnum Christelegum Lærdoome; Og hiner, sem faafrooder eru, jafnvel þott gamler sieu, eiga ad brwka hañ til ad læra af þeim, sem betur vita; Þesse æ ad vera vor Ydia æ Helgum Døgum: Þvi fylger þesse Grein hinu Pridia Bodordenu: Pad er Hvijlldar-Dagur fyrer Gud þiñ; Hvar af siaa mæ, ad hañ æ ad brwka til þeirrar Yდni, sem Gude þocknast.

Hvad

Hvad er Hvijlldar-Dagureñ?

Pad er hiaa oss (sem lifum a Nya Testamentesins Døgum) Suñudagureñ, edur hiñ Fyrste Dagur Vikuñar: J Gamla Testamentenu var pad hiñ Siøunde Dagur; Pvi Gud hvijlldest a hinum Siøunda Dege af Skøpunar-Verkenu, pad er, hañ hætte ad skapa alla Hlute; Pvi skipade hañ pañ sama Dag Heilagañ ad hallda.

Pvi er pesse Uñbreiting giørd, ad saa Fyrste Dagur Vikuñar, er nu Heilagur halldeñ?

Hier byriar ad athuga, ad uñ peña Dag er tvent ad hugleida; Sem er nockud pad, er vidkemur Sida Løgmaalenu, og nockud pad, sem Kyrkiu-Løg Gydinga snerter: Sida Løgmaalenu vidkemur pad, ad hallda einhvern Dag i Vikuñe helgañ; Pad er audsied af hiñe Fyrstu Stiptan Hvijlldar-Dagsens, ad Gud hefur pad skiled sier; So og ad viña eckert Verk, sem Madur maa vel aan vera a pessum Dege, so Pioonustugiørdeñ og oñur Guds Dijrkan eige hindrest: Kyrkiu-Løgunum tilheyrer pad, ad hallda peña Hvijlldar-Dag a vissum Dege, sem var hiñ Siøunde;

Exod.

Exod. 20. v. 10. Sem og ad vina aldeilis eckert Verk a hønum, Devt. 5. v. 14. Og jafnvel eige ad Matreida, þvi þad attu Gydingar ad giora Dagen fyrer: Þesse Kyrkiu-Løg hefur Endurlausnaren JESUS afmaad, so ad vier Christner Men erum eige bundner vid þau, og þvi hafa Postularner, edur og hiner Fyrstu Christe legrar Kyrkiu Forstioorar utvaled hin Fyrsta Dag Vikunar, i Staden hins Siøunda, i Minning Upprisu DRottens JESU; Þvi han reis upp a sama Dege: Joh. 20. v. 1. So og hefur jafnan vered Leifelegt hallded i Christnene ad Matreida, ad gefa Fienade sitt Foodur, og anad þvilijkt, sem heyrer til Daglegs Adbwnadar a þessum Dege.

Maa þa eckert Verk vina a þessum Dogum, utan þetta og anad þvilijkt?

Eckert aan stoor Naudsynia: Leifelegt er ad draga upp Gripe þaa, ed falla i Pitt, edur Fen; Hvad Endurlausnaren ecke lastar a Gydingum, Luc. 14. v. 5. So og ef stoor Naudsyn tildregur ad biarga Lijfs-Næringu sine, med hveriu moote sem vera kan. Undan eru skilen sinaa-Hand-

D Tok

Tok sem ei reiknast fyrer Vinu.

Hvad er framar skipad i þessu Bodorde?

J þessu Bodorde er skipad 1. ad hallda helga Hvijlldar-Dagana, sem aadur er sagt, og þad med hiñe mestu Virdingu, bæde i Gudrækne Andans, og so i Hegdun Lijkamans, med allre Audmykt og Sidsemę. 2. Alla adra helga Daga, Hatijder og Bæna-Daga, epter þvi sem Christeñ Yfervolld hafa boded; þvi Gud hefur skipad Yfervalldenu ad hlijda, og aa þad allra hellst ad giøra i þeim Hlutum, sem Guds Dyrkan, og vora Saaluhiaalp aahræra. 3. Ad heyra Guds Ord og ydka þad, keña þad ødrum, og læra, nær sem vier faaum Toomstund, og Hendtugleika þar til, og hafa þad i hiñe mestu Virdingu, þvi þad er Guds Ord og ecke Maña; Yfervega þad med oss yduglega, og aastunda ad laga vorn Lifnad þar epter. 4. Ad keña Guds Ord hreint og klaart med allre Kostgiæfne, handtera Sacramenteñ rettelega, og aastunda, ad good Skickan og Frameferde halldest i Søfnudunum. Þetta tilheyrer sier i Lage Prestunum, og ødrum sem i Guds Stad eru setter, hverium einum

ennum epter Skylldu sijns Embættis.

Hveriar Synder eru bañadar i þessu Bodorde?

1. Allt Hneixle, med hveriu Lærdoomureñ spillest og Sacramenteñ vanhelgast; So sem Vanrækt Guds Orda, og ad tala lijtelsierlega edur mijnkunarlega þar uñ, og eige sijdst ad utleggia þad ranglega, ad hæda ad Sacramentunum, og virda þau lijtels, og hallda fyrer almeñelegañ Hlut. 2. Ad hata edur forsmaa Helgar Tijder, og Guds Ords Þienara, allrahellst nær þeir straffa Syndena, og ad hlyda ecke þeirra Gudrækelegum Aminiñingum. 3. Liooter Leiker, og Ogudleg Skemtan; Item Erfide, þad sem vel maa aan vera: Drickiu-Svall, Lauslæte, og aññad þvilijkt Gialijfe Heimsens, sem hvad mest (þvi verr) tijdkad er aa Helgum Dogum, þar Gud hefur þo bañad Es. 58. v. 13. ad giora þad ofs lyster aa sijnum Helgum Deige.

Hvad er sierdeilis Athuga verdt i hinu Fioorda Bodordenu?

† Heidra skalltu Fodur þiñ og Moodur, so þu verder Langlijfur aa Jordiñe. † Hid Fioorda Bodorded er fyrst i hiñe

Sijdare Bodorda Toblunñe, hver ed talar umñ Skylldu vora vid Naungañ; Og so sem hid Fyrsta Bodorded geingur undañ baadum hinum i þeirre Fyrre, Søkum þess; ad aa þvi rijdur mest allra; Þvi þad snerter Guds Veru, og Guddoomsens Persoonur, og hañs Æru; So verdur og þetta fyrst sett af øllum i hiñe Sijdare; Þvi þad sem i þvi er boded, er mest verdt, nærst Guds Dyrkun, og er, so ad seigia, med vissu moote Root til alls þess, sem boded verdur i hinum, sem sijdar seger.

Hvad er þad ad heidra Forelldrana?

Þad er ad veita Forelldrunum allskonar Virdingu, Elsku, Pioonustu, Hlydne, Undergefne, Adstod, Goodgyrnd og Poleñmæde, so sem Syrach bydur Syrach. 3. v. 8. 9. Ad heidra Forelldrana med Orde Verke og Poleñmæde; Og þetta ecke alleina med wtvortis Hegdañ og Atlotum, helldur og af Hiartanu.

Syn mier ad i þessu Orde, Heidra skallt þu, sie og boded ad Elska?

Þad er audvitad af þvi, ad Gud heimter af Mañenum, ecke einasta wtvortes Hlydnena i Bodordunum, helldur miklu framar

framar þa sem iñvortes er, so sem aadur er sagt: Nu verdur eingeñ heidradur i Hiartanu, nema þar fylge Elskañ med; þvi margañ þañ hata Meñ, sem Meñ þo heidra med wtvortes Hegdan, og Syrach skipar ad heidra Forelldrana med Poleñmæde, hver ad hefur siñ Bwstad i Hiartanu, og kañ alldrei ad vera aan Elskuñar.

Þvi skal Madur heidra eiñ meir eñ añañ?

Þad a ad giøra 1. Fyrer Guds Saker; Aller erum vier ad soñu jafner i Guds Auglite, epter Naatturuñe; Eñ fyrer þvi ad Gud hefur sumum af oss meddeilt nockra Lijking siñar Tignar, og hefur boded oss hana ad virda og heidra, þa eigum vier hans Skipan i þvi ad hlyda, so sem øllu ødru. 2. Þviad Gud verdur hvad mest Dijrdkadur med þessum Heidre, og þad nærst þeirre Dyrdkan, sem hañ hefur siaalfum sier skiled, þvi hañ hefur sett þessa i siñ Stad a Jorduñe: So ad allt hvad i hinum Boodordunum skipad er, þad er miña verdt eñ þetta, bæde þessvegna, ad Gud verdur sier i Lage hier med Dyrdkadur, sem aadur er sagt; Hins og añars, ad saa sem hlyder goodum Forelldrum, og goodre Valldstiorn,

oorn, hañ kostar Kapps uñ, ad giøra þad, sem i hinum Bodordunum er skipad; Og þvi sagde eg fyrer skømu, ad þad være med vissu Moote Root til þess sem i þeim boded er. 3. Þviad þad er i sialfu sier riettviist, og sambiidur Naatturuñe, þar eckert er riettviisara, eñ ad launa þeim goodu, sem oss gott giøra, og giørt hafa ad fyrra bragde; Eñ eingeñ er sliikur Velgiørningur, sem Forelldrañaa vid Børneñ, af hverium þau hafa Saal og Liikama, þad er allañ Mañlegañ Skapnad, og þar ad auke Føt og Foostur i siinum Barndoome, nær þau gaatu einga Biørg sier veitt, og vidliikt maa seigia uñ adra, þaa sem eru oss setter i Fødur stad, sem siidar seiger. 4. Þvi þad er gagnsamlegt fyrer hvern eiñ, eige einungis þess vegna, ad þad aflar godrar Samvitsku; Og saa sem heidrar Fødur og Moodur, hañ maa hins sama krefia af siinum Bornum med þess stærra Rette; Helldur og hins, ad þetta Bodord hefur Fyrerheit: So þu verder laangliifur a Jørduñe, hvert eg mun siidar wtskiira. 5. Sokum þeirrar Skadseme, sem Ohlydneñ velldur, þvi væru aller jafner, og eingeñ

ødrum

ødrum undergiefeñ i Heimenum, þar kyñe Verølldeñ ecke ad standast, helldur være hvers Mañs Hønd a mooti ødrum, og hver eydelegde aňaň.

Eiga Meñ fleire ad heidra eñ Forelldrana ?

Ad vijsu eiga Meñ.

Hverier eru þeir.

Pad er Valldstietteñ, Kieñe-fedurner, bæde i Kyrkiunum, sem eru Prestarner; Og i Skoolunum, sem eru Skoolameistarar; So og eru þad Hwsbændur, Fiarhallds og Forsvars Meñ, og adrer, sem eru i Forelldra stad setter: Konungenum a hiñ mesta Heidur ad syna nærst Gude, þvi hañ er hañs Umbodsmadur a Jordune; Og nærst hønum, þeim sem hañ hefur sett til Yfervallda, epter þvi sem hañ hefur skipad hvern eiñ ad heidra og virda: Prestunum a og ad syna mikeñ Heidur; Þvi vier erum þeim eigi miña skyllduger eñ Forelldrunum, nær þeir giøra sitt Embætte kostgiæfelega, og þeir uppfostra Saaler vorar til eilijfs Lijfs a Guds Orde, og vaka yfer þeim; Þvi seiger Paall, 1. Tim. 5. v. 17. Þeir Ølldungar, sem vel forstanda, skulu halldast tvefallds Heidurs

verduger, einka mest fyrer þeirra Erfide.

Hvar fyrer verdur alleina geted um̃ Forelldrana i þessu Bodorde, fyrst þar eru so marger sem Meñ eiga ad heidra?

Pad er þess vegna, ad Hiwskapar stiett-eñ er so sem Upphaf alls Mañlegs Valldz af Gude iñsett; Er þvi so sem Mooder añ-ara Stietta; Eñ þesser, sem eg fyrer skom̃u upptalde, eru i Heilagre Ritningu Fedur kallader, og Gud hefur boded ad heidra þa og virda.

A ad hlyda þessum øllum i øllu þvi, sem þeir biooda

Ad søñu ꜳ þeim ad hlyda, i øllu þvi sem þeir oss biooda i Guds Stad, og epter hañs Orde og Bodordum, eñ eingañ veig-eñ i þvi sem hañ bañad hefur, og fyrr eiga Meñ Lijfed ad lꜳta, eñ ad giora i þvilijk-um Hlutum nockurs Mañs Skipan.

A Madur ad heidra Oguđlega Forelldra og Yfervølld, og þꜳ sem giøra Møñum allañ Oriett?

Ad vijsu er þad skylldugt ad giora; Þvi Meñ eiga ecke ad lijta til þeirra Hꜳtta-lags, edur þess Oriettar, er vier lijdum af þeim, helldur til Guds Persoonu, hvers Um̃bod þeir ꜳ Hende hafa, og til hañs Bodords, er hañ gefed hefur hier um̃, þvi hañ hefur eingañ frateked, og hañ giører

oss alldrei oriett, hversu miked sem hañ læ-tur oss af odrum lijda, eñ ecke aa þeim ad hlijda i þvi sem ogudlegt er, so sem eg hefe aadur sagt.

Maa þa eige klaga Yfervallded, edur Keñemeñena, ef þeir giøra Oriett?

Konungureñ hefur eingañ Doomara, neina Gud; Yfer hønum maa aldeilis ecki klaga; Alla adra maa klaga; Þvi þar til eru Løgeñ skipud, sem eins eru fyrer Undergefna og Yferbodna; Eñ þetta a þo ad ske med allre Virdingu, og aan Haturs og Reide.

Þu talader um̃ Guds Ords Þienara i Pridia Bodordenu, hverneñ verdur þeirra þa geted i þessu?

Eige er þetta um̃ Skøp fram̃, helldur til ad syna, ad Guds Ords Þienara byriar ad heidra, bæde epter hiñe Fyrre og Sijdare Bodorda-Tobluñe; Eingañveigeñ i þeirre Veru, ad þeim byrie i nockurn Maata Gudlegañ Heidur ad syna, helldur aa þaa ad virda epter Þridia Bodordenu, þessvegna, ad þeir fremia hina Almeñelegu Þioonustu-giørd; Hveria ef Madur skal i mikille Virdingu og Heidre hafa, þa er þad vijst, ad hañ byriar ad heidra, sem hana fremur; Eñ epter Fioorda Bodor-

denn as þeim Virdiug ad veitast, af þvi þeir eru Andleger Fedur Saalna vorra.

Eru Forelldrarner og Yfirvallded Undergiefnum nu eckert Skyllduger ?

Vijst eru þeir.

Hvad eru Forelldrarner Børnunum Skyllduger um, edur Hwsbændurner sijnum Pienurum ?

Forelldrarner eru skyllduger ad veita Børnunum Føt og Fæde, og alla þa Pionustu og Umsorgun, er þau Lijkamans vegna vid þurfa. J Aññañ Maata; Eiga þeir ad Ala Upp fyrer Saalum þeirra, færa þau til Heilagrar Skijrnar, Uppala þau sijdañ i Otta DRottens, kieña þeim þeirra Christeñdoom, og hallda þeim til Gudrækelegs og sidsamlegs Lijfernis. J Pridia Lage ad setia þau añadhvert til Menta, edur kieña þeim, edur laata kieña, eitthvert ærlegt Handverk, edur Erfide, er þau kuña ad næra sig af. Og i Fioorda Maata; Um fram allt; Ad gaanga undañ þeim, med goodu Epterdæme. Hid sama eru Fiaarhallds og Forsvars Meñ skyllduger sijnum Foostur-Børnum.

Hver

Hver er Yfervalldsens Skyllda vid Undersaatana ?

1. Ad Yfervallded ad vanda sitt Embætte med allre Ahyggiu og Kostgiæfne, bæde i þvi, ad hafa Vitsmune a Rettenum, og ødru þvi sem tilheyrer Laudsens Stioornan. 2. Ad giøra Rett hverium Mañi, og straffa hina vondu, eñ forsvara hina goodu. Rom. 13. v.4. 3. Ad læta sier um̃hugad vera, ad Christeleg Trw og Guds Dyrkan obreitt vidhalldest, og fae Fram̃gang, so og ad stunda Landsens Gagn, og Almwgans Velferd med Raad og Dææd. (4.) Ad ganga fyrer ødrum med goodu Epterdæmi.

Hvad eru Prestarner Skyllduger sijnum Sooknar-Børnum ?

Þeir eiga ad keña Guds Ord hreint og klaart, og handtera Sacramenteñ epter Christi eigeñ Iñsetningu. 2. Eiga þeir ad kostgiæfa, ad þeckia Hiartalag siña Tilheyrenda, og haga Kieñinguñe þar epter, bæde utañ Kyrkiu og iñañ; So þeir straffe hiñ Hardsvijrada, amiñe hiñ Hirdulausa, Leidrette hiñ Faafrooda, og hugge hiñ Angrada og Sturlada, og gefe sierhverium einum af Guds Hiwum, þad honum

ber i rettañ Tijma, Luc. 12. v. 42. 3. Ad þeir eingañ Mañ take til Altaresins Sacramentis, vijsvitande, sem þess O-verdugur er, so ei giøre þeir sig seka i hañs Dooms-Afelle. 4. Ad þeir eingañ wte-lyke þar fraa, sem þess er verdugur, Søk-um Haturs, edur nockurs añars eigens Tilgaangs. 5. Ad þeir prijde Keñing-una med Gudrækelegum og Lastvørum Lifnade.

Hvad eru Hwsbændurner Pienurunum Skylduger um?

Þeir eiga 1. Ad veita þeim ærlega Forsorgun til Fata og Matar. 2. Gial-da þeim Afdraattarlaust sijn Laun, Devt. 24. v. 14. 3. Gefa þeim Stunder til ad ydka sig i sijnum Christeñdoome, hall-da þeim þar til, og aaminña þaa til Gud-rækelegs Frañferdes. 4. Eige ad þyng-ia þeim med ofmiklu Erfide, eige helldur ad leifa þeim ad leggiast i Omensku og Ydiuleyse. 5. Ad vera þeirra Fyrermyn-dan i Lifnadenum: Og af þessu, sem nu he-fe eg sagt um Skylldu Yferbodeña og Und ergefeña, er audsært, hvad Boded og Bañ-ad er i þessu Bodorde.

Hvad

Hvad merkia Laanger Lijfdagar, sem Gud heiter þeim, er hallda þetta Bodord?

Laanger Lijfdagar merkia allskonar Fullsælu og Velgeingne.

Hvar af verdur þad synt, ad þetta Ord merke so?

Fyrst þar af, ad þegar Gud heiter Fedrunum i Gamla Testamentenu laungum Lijfdøgum, þa heiter hañ þeim under eins Fride og Rooseme, Gen. 15. v. 15. Devt. 5. v. 16. Eñ þoott hiñ Rettlaate deye sneña, þa er hañ i Roo; Seger hiñ Vijse, Cap. 4. v. 7. J Ødru lage þess vegna, ad St. Paull leggur þad so wt, Eph. 6. v. 3. Er hañ seger: Ad þier vel vegne, og þu siert Laanglijfur aa Jørduñe. Þess er og ad giæta, ad laangt Lijf fyrer utañ Velgeingne er Straff, meir eñ Velgiørningur, og þvi er audvitad, ad nær Gud heiter laungum Lijfdøgum, þa heiter hañ Velgeingneñe med

Nu verda þeir ei aller Laanglijfer, og lijdur eige helldur vel, þoott leinge life, sem heidra Forelldrana edur Yfirbodna.

Þad er fyrst ad athuga, ad eingeñ helldur þetta Bodord ad fullu, og þvi giører Gud eingum Oriett, þo hañ kalle hañ burt aarla Alldur sijns, edur legge hønum Motgaang

gaung uppaa, ef hañ leinge lifer; Eñ laanger Lijfdagar, kallast med Preñu moote. 1. Þegar eiñ hefur lifad so leinge, ad hañ Oskar sier eige leingra Lijfs, og girnest ad leysast hiedañ og vera med Christo, sem er miklu betra, eins og Paulus, Phil. 1. v.23. 2. Þegar Lijferned er heidarlegt, þo eige sic þad margra Ara, og ad þetta Ord, Laanger Lijfdagar, hafe so skiled vered af froodum Moñum i Gamla Testamentenu, kuñum vier ad siaa af Ordum hins Vijsa, Cap. 4. v. 8. Er hañ seger: Elleñ er Heidarleg, ei su sem leinge lifer, edur Ara-Fiølldañ hefur, eñ Vijsdoomureñ er Hærur Mañaña, og Oflecklad Lijferne er saa rette Alldurdoomur. 3. J Pridia Maata, eru þad Laanger Lijfdagar med allskonar Farsælld: Nu þott af þvi bere optlega fyrer Guds Børnum, þa veitest þeim þo hitt, sem aadur er aaminst; Eñ Gud aa friaalst ad wtvelia fyrer sijn Børn hvad hañ vill; Og þad er vijst hañ wtvelur þad, sem þeim er fyrer bestu. Róm. 8. v. 28.

Hvad er athuga verdt i hiuu Fimta Bodordenu?

† Eige skalltu Mañ vega. †

Hier

Hier er eige einasta fyrerboded, ad taka Lijfed af Naunganum, helldur og 1. Ad reidast hønum, og allra hellst ad ala Hatur til hañs i Hiartanu; Pvi so seger Johañes i sijnum fyrsta Pistle, Cap. 3. v. 15. Sierhver saa, sem hatar siñ Broodur, hañ er Mañdraapare. 2. Ad gefa hønum vond Ord af reidum Hug; Edur Smaanaryrde; So og ad leggia nockrum Raad til ad Lijflaata nockurn edur meida. 3. Ad giøra hønum i Nockurn Maata Skada, edur Meidsle aa sijnum Lijkama. 4. Ad sturla edur hryggia hañ i nockurn Maatu. 5. Ad syna aa sier Reidesvip af Alvøru. 6. Ad faa ødrum i Hendur Efne edur Medøl til ad giøra Naunganum Mein aa Saaln edur Lijfe, edur sampyckia pad.

Hvad er skipad i þessu Bodorde?

1. Hugprydeñ; Sem par i er foolgeñ, Ad Madur sie otraudur til ad voga sier, og Lijfe sijnu fyrer Naungans og Fødurlandsens Velferd ef aaliggur; Pvi seger Johañes i sijnum Fyrsta Pistle, Cap. 3. v. 16. Pvi eigum vier ad leggia vort Lijf ut fyrer Brædurnar. 2. Hogværdeñ, ad Madur sie Pijdlyndur, og eige Reidegiarn.

3. Riettviisseñ, ad Madur meide eige siñ Naunga. 4. Myskunsemeñ, ad hañ hiaalpe hønum i øllum hañs Liifs naudsynium med Raad og Daad, med Fiemunum vorum og øllum Atburdum, er hañs Liifs hiaalpa kuña. 5. Mañudlegleike og Good-lynde. 6. Milldeñ, ad Madur væge þeim, sem oss hafa aa mooti broted. 7. Vandlæted i siinu Embætte, ad ei þyrme Madur þeim, sem Gud bydur ad straffa. 8. Astundan Samlyndesins.

Maa einganñ Mañ slaa i Hel?

Deyda maa þaa, sem af Yfervalldenu eru til Dauda dæmder fyrer siin Afbrot; eiñeñ Ovine siina i Bardøgum, til ad forsvara Fødurlanded; So og þañ sem ætlar ad viña aa nockrum, ef hañ fær ecke ødruviise undañkomest (hvad Meñ kalla Naudverin); Þvi ecke er nockur skylldugur ad elska eiñ meira eñ siaalfañ sig: Moisis Løgmaal leifer ad drepa Þioof þañ, er brytst iñ i añars Hws a Noottu, Exod. 22. v. 2.

Er øll Reide oleifeleg?

Reidast maa Yfervallded Løstum og Glæpum, og þeim er þa drygia; So og maa hver Madur reidast af Vandlætingu

vegna

vegna Guds, nær hañs Nafn, Ord, edur Sacramenta eru løstud edur ovirdt: Eñ øll Reide, er fram̃ kemur fyrer þañ Oriett, sem giørdur er vorre eigeñ Persoonu, hun er Synd a moote þessu Bodorde, so sem Lausnareñ seiger, Matth. 5. v. 22. hver hañ reidest Broodur sijnum, hañ er Ra-ds sekur.

Legg mier ut hid Siøtta Bodorded.

† Þu skallt eige Hoordoom drygia. †

J þessu Bodorde er eige einasta fyrerboded holld legt Samræde med añars Mañs Ecktakvïñu, helldur og 1. er giptum Mañe bañad, ad leggiast med nockurre ogiptre. 2. Er ogiptum Persoonum bañad ad fremia Saurlifnad sijn a mille. 3. Eru hier bañ ader sauruger Þankar, Ord og Til-lit, edur añad Lautæde, med hveriu Meñ añad hvert auglysa Þanka Hiartans, edur koma ødrum til saurugrar Girndar; Um̃ þetta talar Christus, Matth. 5. v. 28. Seigiande: Hver hañ lijtur eina Konu til ad girnast hana, hañ hefur allareidu drygt Hoor med heñe i sijnu Hiarta. 4. Øll Orsøk til lausœtes; So sem otierlegur Selskapur og Um̃geingne, Dryckiuskapur; Þvi þar af

kemur lauslautt Lijfernesieger Postulen / Eph. 5.v. 18. So og allur lauslætis Bruningur og Klædaburdur. 5. Og i einu Orde ad seigia; Hier er fyrerboden allur Ohreinleiki, hveriu Nafni sem heiter, hvar med ad Maduren saurgadur verdur.

Syn mier, ad þad sie eins mikel Synd, ad Maduren take fram hia Konune, so sem Konan fram hia Manenum?

Pad er audvitad; Þvi han hefur eins vel lofad heni Tryggd, so sem hun honum; Þvi seiger Paulus, 1. Cor. 7. v. 4. Ad Maduren eige ecke Valld sijns Lijkama, helldur Konan; Og hia Matthæum Cap 5. v. 28. Seiger Endurlausnaren, ad hver sem lijtur eina Konu, til ad girnast hana, han hafe allareidu drygt Hoor med hene i sijnu Hiarta; Hvar þetta Ord, Kona, merker ecke einasta gipta Konu, helldur og ogipta, so sem audsied er af Textanum, og hia Matth. Cap. 19. v. 4. 5. Seger Frelsaren, ad i Upphafe, Gen. 2. v. 24. Hafe so sett vered af Gudi, ad þau tvø (Kallmadur og Kona) skylldu eitt Holld vera; Til hverrar Guds Skickunar han vijsar Phariseunum; En ef þau tvø skulu eitt Holld vera /

þa

þa er audvitad, ad Mañenum eige leifest ad hafa nockra Konu fram̄ hiaa siñe Eckta-kviñu; Þvi take hañ adra, þa verdur hañ og eitt Holld med heñe, og so mørgum, sem hañ tekur fram̄ hia Koñuñe; Þvi Paulus seiger, 1. Cor. 6. v. 16. Vited þier eige, ad hañ er samlagar sig Skiækiuñe, hañ er eitt Holld med heñi; Þar fyrer hefur sa, sem þad giører, eins rofed Guds Skickun (sem aadur var uñgeted) so sem Konañ, sw er samlagar sig ødrum.

Syn mier, ad Lauslætis Ord og Atvik sieu og fyrerbodeñ?

Þad syna þau Ord Endurlausnarans, er eg strax uñgat af Matth. 5. Cap. Hvar bæde Hiartad og Auguñ hafa eige meira Frelse.

Hvad er skipad i þessu Bodorde?

1. Hreinlijfid, bæde i Hioonabandenu, og fyrer utañ þad. 2. Sparsemeñ, Ad Madur hallde sier fra ollu þvi, er hñ kañ ad hvetia til Losta og Lauslætis. 3. Hrein og folskalaus Elska Hioonaña a mille, og ad hvert virde añad, epter þvi sem vera byriar, hvad ef Meñ aastunda kostgiæfelega, þa er sijdur hætt vid, ad þau bregde Trw sijna hvert vid añad.

Lææt mig heyra Uitskyring yfer hid Siounda Bodorded.

† Pu skallt eige stela. †

Pioftnadur er med mørgu moote. 1. Er þad ad taka fraa sijnum Naaunga mz Laununng hañs Eigu hveriu Nafne sem heiter. 2. Er þad ad taka þær fraa hønum med Vallde, aan Dooms og Laga, og þad jafnvel, þott hañ eige oss so mikla Skulld ad giallda, sem þvi svarar, er vier tøkum. 3. Er þad ad svikia añañ i Kaupum og Sølum med falsadre Vøru, Vigt edur Mæler, med hveriu moote sem þad skedur; Edur og ad setia Vøruna ofdyrt, añadhvert þess vegna, ad Kaupandeñ neydest til ad kaupa þad; Edur ad hañ hefur ecke Vit aa hvad hañ kauper; Edur ad hañ girnest þad so mióg; Þad er vondur þiofnadur; Þvi þad er ad selia Naaunganum añadhvert sijna Neyd, Gyrnd, edur Favitsku. 4. Ad taka meire Skatta og Skylldur, helldur eñ Yfervallded hefur boded. 5. Ad laana Fie sitt til Okurs, og taka oriettvijsañ Avoxt þar af; Og ad byggia Lønd sijn med ofmikille Leigu; Og grafast epter Arfe undañ ødrum; Edur locka Giafer af nockrum. 6. Ad hallda iñe vitanlegum Skulldum, og vil-

ia

ia þær eige giallda. 7. Ad sækia einhvern um̃ þa Skulld, sem golldeñ er; Edur um̃ einhvern þañ Hlut, er Madur veit, ad hañ hefur eingañ Rett til, þott hañ kuñe þvi ad naa med einhveriu Yfervarpe. 8. Ad giøra eiñ þurfande a einhvern Haatt, so hañ neydest til ad kaupa af oss; Til dæmes: Eg veit ad eiñ er naudstaddur um̃ eiñ Hlut, og kaupe eg hañ allañ upp, til þess ad selia hønum aptur, so dyrt, sem eg vil. 9. Ad svijkia Pioonustu Foolk um̃ sijn Laun, edur luka þau med Tregdum og Raangsleitne: Item, ad svellta þad og bua illa ad þvi, sier til Abata. 10. Ef nockur svijkur i sijnu Handverke, smijdar otrutt, og tekur þo fullt Verd a, edur falsar Verkefñed aa einhvern Haatt. 11. Ef eiñ Pienare er odyggur i siñe Viñu, eñ tekur þo full Laun. 12. Ef hañ fer illa med þad, sem hønum er i Hendur feinged, og hagar þvi eige, sem best hañ maa, med rettu, Hwsbondanum til Gagns. 14. Ef hañ selur Eigur Hwsbondans sier til Abata, þo Hwsbondeñ hafe eingañ Skada þar af. 14. Ad giøra eige Faatækum gott: edur giefa þeim so lijted, ad þeir sieu litlu nær, ef Madur hefur af ad-

leggia; Þvi ſaa ſtelur af þvi, ſem Gud hefur boded Faatækum ad giefa: Og i einu Orde ad ſegia: Ad giora Naaunganum Skada a Eigum ſijnum, med einhveriu mote, leynelega edur openberlega. 15. Ad ſtela merker hier og allt Ohoof og Onaudſynlega Eydſlu Fiaar ſijns, ſo Meñ eige hafe ad giefa hinum Þurftuga; edur neydeſt ſiaalfer til ad ſtela. 16. Ad giora ſig ad Olmuſu Møñum, ſem þo eige retter Olmuſu Meñ eru. 17. Ohacklæte, i þvi ad vilia eige um̃buna þeim, ſem oſs hafa gott giort. 18. Ad hiaalpa edur ſtyrkia til nockurs af þeſſu; Edur ſamþyckia og hrooſa þeim, er ſlijkt giora. 19. Ad hindra Naaungañ i einhvern Maata ſier til Abata; Edur ſeigia hønum oſatt til ad Fefletta hañ; So ſem ef eiñ ſeger einhvern Hlut eige vera ad faa nema hiaa ſier, til ad ſelia hañ þeſs dyrara.

Hvad er ſkipad i þeſſu Bodorde?

1. Rettvijſe i Kaupum og Sølum, og i allre Vidhøndlan. 2. Orlæte vid þa ſem vidþurfa, og ſierdeilis Faatæka. 3. Sparſemeñ, ſo Meñ þeſs betur kuñe ødrum ad hiaalpa, og giora øñur Kiærleiks Verk,

Christelegri Kyrkiu, og Fodur-Laudenu til Nota. 4. Ad vera packlætur vid þaa, sem oss hafa gott giort. 5. Ad styrkia Naaunganñ, Jafnvel med nockrum Skada vorum, til þess ad hañs Formegan kuñe ad aukast og eflast. 6. Ad læna giarnañ þeim, ed vidþarf, og krefia þess eige aptur, aa medañ Naaungans Lijf edur Naudsyn vidliggur; Þvi seger Gud, Exod. 22. v. 26. 27. Ef þu tekur i Pant þijns Naaunga Klæde, þa skalltu faa hönum þad aptur, aadur eñ Sooleñ nidurgeingur, þvi þad er hañs einasta Skyla; Þad er Fat hañs til ad hylia sijnar Fætur, i hveriu hañ liggia ætte; Aññars muñ eg Bænheyra hañ þegar hañ kallar til mijn, þvi eg em Naadugur.

Er aldeilis Oleifelegt ad stela?

Leifelegt er ad taka Mat sier til Næringar, um̃ Siñ, vegna Hwungurs, þo skal hañ þvi lijsa, er þad giorer, ef hönum er þad Ohætt, og er þad ecke Þioofnadur rett kalladur; So er og hvad añad, ef Lijfs-Naudsyn vidliggur: Allur añar Þioofnadur er Oleifelegur.

Hvad er ad Hugleida i hinu Attunda Bodordenu?

† Þu skallt eige bera Falskañ Vitnisburd, a moote Þijnum Naunga. †

J þessu Bodorde er bañud oll Vanbrwkun Tunguñar og Hiartans, Naungan-um til Vanrycktis edur Skada: Fyrst oll Lyge; Añadhvert vid Naungañ, edur a moote hønum; Hvad ed skiedur, 1. J Laga-Rettenum; Þegar einhver vitnar Lyge a moote Naunganum, edur med hønum, ødrum til Falls; Þegar nockur þeiger yfer Sañleikanum, og vill hañ eige jaata hinum Saklausa til Frelses; Þegar eiñ Doomare feller raungañ Doom yfer einhvern; Spiller Vitnum hañs og Søgnum med Løgleysu: Skytur Maalenu a Frest ad Parflausu, þeim sem vanhalldeñ er til Meins og Ohroodurs, og i hvern Maata, sem hañ tradkar Maalum edur spiller, añadhvert med opeñberum Orette, edur med Yfervarpe Laga og Rettinda. 2. Skedur þad i Kyrkiu-Standenu: Nær Guds Ords Þienarar liwga þad, er þeir keña raunglega: hræsna fyrer ødrum, edur liggia a Sañleikanum: Item nær

þeirra

þeirra Keñingar verda rangfærdar: Edur ad gooder og vandlaater Keñemeñ verda lastader, og kallader Siervitrer og Orooasamer, af þvi þeir straffa Synder og Leste. 3. J Almeñelegu Lijferne og Framferde: Þegar Giørningar, Sætter og Samar eru eige hallduer, edur raunglega wtlagder: Þegar Meñ añadhvert liwga berlega, edur dylia Sañleikañ, þar hañ aa ad segia, aa moote Samvitskuñe, hvert helldur þad skedur af Asetninge, til ad skada Naungañ: Edur af Lausmælge, ad eiñ er hweñ til ad liwga ødrum til Pock nunar: Edur hañ hefur vaned sig aa ad segia Osatt, og hefur sialfur Gaman þar af: Edur og hañ lygur sier til Frægdar: Hvad optlega er ødrum til Nidurdreps: eñ til Spotts sialfum honum, er þad, giører.

J Añañ Maata: Er hier fyrerboded, ad vier ecke opeñberum þad leynt aa ad vera, edur giørum Naungañ uppvijsañ. 1. Ad segia fraa þvi, sem ofs er tiltrwad, og eige þarf ad segia, edur stilla til þess aa einhvern Haatt, ad adrer faae þad ad vita. 1. Ad segia til eins, þeim sem ofsæker hañ,

 edur

edur at añañ Haatt ad gefa Vijsbending edur Vitneskiu um̃ hañ.

J Pridia Lage; Ad Baktala Naaungañ, sem er i þvi tñefaled: Þegar einhver wthroopar þad, sem einhveriumm at verdur, lasta hañ og hæda þar fyrer, og leggia Doom þar a; Sem er, ad falla tñ i Guds og Valldstiettareñar Embætte, hver alleina at ad dæma um̃ Afbrot Mañа.

J Fioordu Grein; Ad Ofrægia Naaungañ: Þad skedur; nær Meñ hallmæla hønum; Leggia hañs Ypersioon wt at hiñ versta Veg; Giøra lijted wr hañs Mañ-Kostum; Edur þeigia þar um̃, nær til verdur talad. Hier at heima hin skadlega Forvitnis Synd, sem þo er fyrer einga Synd hallden̄ af mørgum: Nær Meñ hnysa um̃ añara Hage, til ad bera þad wt aptur: Hafa sijna Ursendara alla vegna þar til: Standa at Hlere (sem Meñ kalla) og brwka adra til þess ad forvitnast um̃ Naaungañ, eru Spuruler, locka upp wr Einfølldum, þad sem leynt at ad vera, laxta siet þykia vænt þar um̃, og villia giarna heyra þvilijkt, og teigia hina þar med til ad liwga. Allar þessar Odygder eru bañad-

at

ar i hinu Attunda Bodordenu; Og eru eige einasta Ordeñ fyrerbodeñ, helldur og ølk Atvik, Bendingar og Laatæde Lijkamans, sem Naunganum horfer til Nidurdreps og Hneysu, og gefa af sier illañ Grun um̃ hañ.

Hvad er skipad i þessu Bodorde?

1. Sañsøglḱñ, bæde fyrer Riettenum, i Riettargaangenum, og i daglegu Fram̃ferde. 2. Hreinlynded, ad Madur tale eige þvert um̃ Hug sin̄, edur drage af ad segja Naunganum til siña Lyta, nær þad skedur i Tijma, og med allre Hoogværd. 3. Ad vera bweñ til ad forsvara Naunganũ, nær hønum verdur Orett tilgiort, edur talad. 4. Ad geima þad vel, sem leynt aa ad vera. 5. Ad vera Faaordur um̃ Onaud synlega Hlute. 6. Ad vera Sidsamur i Ordum sijnum. 7. Ad tala og meina vel um̃ Naungañ: Hvert hid sijdara Paulus seger um̃ Kiærleikañ, ad hañ þeinke ecke Illt. 8. Ad vier hylium hañs Breste, afsokum þaa, og færum alla Hlute til betra Begar, eñ holldum hañs Dygdum og Mañkostum aa Lopt, og vilium ei heyra hønum aalasad, helldur straffa þaa, ed þad giøra. Maa

Mꝛa alldrei dylia Sañleikañ?

Ad viſſu maa þad: So ſem nær Madur dylur þad leynt aa ad vera, Lyte Naaungans, edur ef Madur leyner nockrum, edur misſeiger fyrer þeim ſem offſæker hañ; So ſem þegar Michol Dootter Sauls ſagde ſiñ Egta-Mañ David ſiwkañ, fyrer þeim er ſooktu epter hañs Lijfe, 1. Sam. 19. Edur Jonathan, er hañ ſagde David hefde beded Orlofs ad reiſa til Bethlehem, 1. Sam. 20. v. 25. So og leifeſt ad misſeigia ſier til Fridar, nær eirner offſooktur fyrer Sakleyſe; So ſem David er hañ ſagde Achimelec, ad hañ være ſendur af Konungenum., 1. Sam. 21. Og iødrum ſlijkum Tilfellum.

Maa alldeilis ecke ſeigia oſatt?

Eingañveigeñ; Nema þad ſie til ad frelſa ſitt Lijf edur Velferd, edur og Naaungans, fra Orette og Offoknum vondra Mañna, ſo ſem eg ſtrax ſagde; Þvi nær Madur ſeger ødruviiſe eñ er, fyrer ſoddañ Orſøk, þa heiter þad eige Lyge, med rettu.

Maa ecke liwga ad Gamne ſier, þad ſem Naunganum er eige til Ohroodurs?

Alldeilis ecke; Þvi Sañleikureñ er ſo dyrmætur Hlutur, ad Meñ eiga ecke ad

hafa

hafa t:l Skemtunar þad hønum er gagnstædt; Og saa sem temur sier ad liuga, sier til Gamans, han̄ lærer þar af ad liuga af Alvøru skadlega Lyge; En̄ Madur aa ecke einasta ad varast Syndena, helldur og alla Orsøk til hen̄ar: En̄ Dickter Skalldan̄a og Æfentijr koma hier eige vid; Þad selur eingen̄ fyrer San̄leika.

Er þad Synd, ef Madur lygur Ovitande?

Jo son̄u er þad Synd; Og sierdeilis ef nockrum er sneidt þar i; Nema eirn hafe so vel ran̄sakad ein̄ Hlut, ad han̄ kun̄e þad eige betur ad vita, og trwer þvi sialfur; Þvi Madur aa eckert ad seigia fyrer vijst, þad han̄ eige veit fyrer vijst, hvert satt er edur eige.

Maa eingen̄ Leyndar-Maal open̄bera Syndlaust?

Til eru þau Leyndar-Maal, sem skyllt er ad open̄bera: So sem Drotten̄s Svik, Land-Raad, Mord og Man̄draap, og øn̄ur Oboota Maal; So og ef einhver trwer einum fyrer, ad han̄ hafe aasett ad giora ødrum Skada, þa byriar ad afletia han̄ þvi, i mesta Maata; En̄ skip:st han̄ eige vid eins Fortølur, þa er rettvijst ad koma upp um̃ han̄; Og i ødrum þvilijkum

Til-

Tilfellum maa riufa Leyndarmaal: Pad er og rett, ad vara siñ Vin vid otrwum Pienurum; Po skal Madur dylia Persoonuna, ef pad maa ske hønum ad skadlausu.

Seg mier nockud af þvi Nijunda og Tijunda Bodordenu.

† Eige skalltu girnast Hws Naunga þijns. Pu skallt eige girnast hañs eigeñ Kvinu, eige Pioon nie Pioonustu Kviñu, eige Uxa nie Asna, og eckert pad hañ aa. †

Eru þetta Tvø Bodord, edur eitt?

Þvi spyr þu so?

Pviad i baadum er Girndeñ fyrerbodeñ?

Pau eru tvo; Pvi seiger Moises, Devt. 4. v. 13. Ad Gud hafe skipad Israels Sonum ad vardveita þau Tiju ORD, edur Bodord; Eñ þau verda eige Tiju, nema þesse Bodord sieu Tvø, og eige Eitt.

I hveriu mismuna þau þaa?

Hier byriar fyrst ad athuga, ad Girndeñ, er med tveñu moote: Fyrst sw, sem fraamkemur af Vilia og aasettu Raade; hvere Madur sambycker, elur hana i Hiartanu, og hefur fullañ Asetning til ad framkvæma hana, ef hañ giæte; Pesse Girnd er fyrerbodeñ i øllum hinum Atta Bodordun-

unum; En hun ønur er þö, sem kvíknar ad Ovilia Mañsens i Hiartanu; Vid hverre eingeñ syndugur Madur fær giört, ad hun ecke hreise sier; Jafnvel þott þeir eige sambyckest-heñe, sem leidast af GUDS Anda, og dempa hana, aadur eñ hun naaer ad verda ad eiñe verkande Girnd i Hiartanu.

Syn mier af Guds Orde, ad sw Girnd, sem þu fyrst um̃talader, sie bøñud i þeim Atta Bodordunum?

Pad vottar Moises, fyrst um̃ hina Fyrre Bodorda Tobluna, er hañ seger, Devt. 6. v. 5. Elska skalltu Drotteñ Gud þiñ af øllu Hiarta þijnu, og af øllum Mætte þijnum; Eñ um̃ hina Sijdare seiger hañ, Levit. 19 v. 18. Elska skalltu Naunga þiñ so sem sialfañ þig: Og Endurlausnareñ hia Matthæum seiger, Cap. 22. v. 40. Ad af þessum Tveimur Bodordum haange allt Løgmaaled og Spaameñerner.

Hverneñ kañ eg ad sia af þessum Greinum, ad Girndeñ sie fyrerbodeñ i þessum Atta Bodordum?

Pad skedur med þvi moote: Ad þu veitst, ad saa, sem elskar Gud og Naungañ af Hiarta, hañ girnest eckert pad, sem Gude edur Naunganum er a moote: Og er audsied, ad þesse tvø Bodord gaanga i gieg-

nuun øll hin; J hverium þeir Hluter eru bodner og bañader, sem med Ordunum, Verkunum, og wtvortis Hegduneñe fram̃kvæmder verda. J añañ Maata; Seiger St. Paall Gal. 5. v. 17. 19. Hollded girneſt i moote Andanum, og Andeñ i moote Holldenu: Og ſtrax þar epter upptelur hañ, hver ad ſieu Holldſens Verk, er fram̃koma af Gyrndeñe; Hver øll eru aa moote þeim Atta Bodordum, Sem eru þeſſe: Hoordoomur, Saurlijfe, Ohreinleike, Lauſung, Skwrgoda-dyrkun, Fioлkynge, Fiandſkapur, Prætur, Kappgirne, Reide, Praattaner, Sundurþyckia, Flockadraattur, Øfund, Mañdraap, Ofdryckia, Ofneytſla, og þeſſum lijkt, Og med þeſſum Ordum, þeſſum lijkt, meinar hañ aan efa, hin øñur Bodorda broteñ, sem eige eru hier upptaleñ.

Eige ſie eg eñ nu hverneñ þeſſe Tvø Bodord eru adgreind ſiju aa mille?

Eg ſagde fyrer ſkømu, ad ſw Øñur Girndeñ yrde ad Ovilia Mañſens i Hiartanu; Hun er og Tvøfølld: Hin Fyrre er Uppruna Spillingeñ, þad er ſu Vanart, er oſs fylger af Adam, og kallaſt hiñ

Gamle

Gamle Adam og Holld i Nya Testamenteſins Bookum, um̃ hveria St. Paall talar, Rom. 7. v. 20. Seigiande: Eñ ef eg giøre þad eg eige vil, þa giøre eg þad eige (hañ meinar Nya Mañeñ, ſem epter Gude er ſkapadur) Helldur ſu Synd ſem i mier byr. Hin Siþare eru þær Fyrſtu Hræringar, ſem af Uppruna Syndeñe kvikna i Hiartanu, Jafnvel þott Madureñ eige ſampyckeſt þeim, edur gefe þeim Rum. Um̃ baadar talar Paulus, Gal. 5. v. 17. Segiande: Hollded girneſt i moote Andanum, og Andeñ i moote Holld enu: Hollded er Uppruna Syndeñ, edur Vanarteñ til ad girnaſt hid illa; Eñ þetta Ord, ad girnaſt, utmaalar oſs hinar Fyrſtu Hræringar, ſem af heñe fram̃koma: Vid hverugu þeſſu gietur ſyndugur Madur giørt; Þvi ſeiger Paulus ſtrax hier epter: So ad þier giøred þad þier eige vilied: Og hvortveggia þetta er eige einaſta Jñefaled i þvi, ad laanga i þad Illa, ſo ſem Orded Almeñelega hlioodar, ad girnaſt; Helldur merker þad eiñeñ Vidbiood og Leida aa hinu Gooda: Þvi ſaa ſem girneſt þad eina, hañ hefur Vidbiood aa þvi ødru.

Ei ſie eg eñ nu Mismuniñ ?

Marger af vorrar Kyrkiu Lærefedrum hallda ſo hier um̃, ad i hinu Nijunda Bodordenu ſie boñud hin Fyrſta Hræring Girndareñar, ſem kviknar i Hiartanu, þott hun naae þar eingre Root, edur Stadfeſtu; Eñ ſiaalf Uppruna Syndeñ ſie boñud i þvi Tijunda.

Þu ſagder fyrer ſkom̃u, ad eingeñ Syndugur Madur feinge vid þeſſum Girndum giørt, til hvers gagnar þa ad baña þær ?

Þad gagnar til þeſs, ad vita, ad jafnvel þott vier giørdum allt hvad vier ættum ad giøra, þa værum vier þo Onyter Þioonar; Og þurfum ad bidia Gud um̃ Fyrergefning jafnvel a Uppruna Syndeñe, og hinum Fyrſtu Hræringum, ſem af heñe kvikna: Þvi þær viña til Tijmaṅlegs og eilijfs Dauda, nema Gud þær fyrergiefe: Þad vottar David, Pſ. 143. Gack eige i Doom vid Þræl þiñ, þvi añars er eingeñ lifande Maña fyrer þier Riettlaatur: Og þetta eru þær Girnder er Paulus ſo miøg yfer klagar, Rom. 7. Og Guds Løgmaal (ſem eckert er añad eñ Opeñberan hañs allra Helgaſta Villia og Rettlætes) þad bydur oſs, hverneñ vier eigum ad vera; Eñ

giører

Glører ei Raad fyrer þvi, hverneñ vier getum vered.

Eg skil eñ nu eige fullkomlrga, ad Uppruna Syndeñ sie boñud i þvi Tijunda Bodordenu, og heñar fyrste Avøxtur i þvi Niunda?

Pad jatar þu þo, ad þetta hvertveggia sie Synd: Og so kallar Paulus Uppruna Syndena, Rom. 7. Og vijdar i sama Pistile: Og fyrst þad er Synd, þa verdur hun i einhveriu af Bodordunum ad vera boñud: Eñ nu er þad eige i hinum Atta: Þvi er þad i þessum Tveimur, og eige baadar i baadum: Þvi þad eru Tvø Bodord, sem aadur er synt, helldur sijn i hveriu.

Hvar fyrer er Uppruna Syndeñ sijdarst fyrerbodeñ, þar mier skilst þo ad hun sie Root allra aña rra?

Pad hefur hiñ Alvitre Gud vijslega giört, so sem allt añad, ad hañ hefur laated sitt H. Løgmaal byria aa þeim Hlutum, sem Meñ vel þeckia meiga, ad nockru Leite, af Naatturuñar Liiose Synd ad vera, og fœrer oss þañeñ til þeirrar Þeckingar aa Syndeñe, sem eige er af Naatturuñe opeñber; So sem er þesse Girnd, sem boñud er i þessum Tveimur Sijdurstu Bodordum: Hveria Paulus seigest Rom. 7. v. 7.

7. Eige munde hafa þeckt, hefde Løgmaaled ei sagt: Þu skallt ecke girnast: Og er audvitad, ad hañ, sem var uppfræddur i Løgmaalenu fraa Barndoome, og epter Løgmaalenu Ostraffañlegur, Philip. 3. v. 6. seq. Hañ talar eige þessum Ordum uñ þa Girnd, er Madureñ sampycker, og naad hefur fullum Verte og Proska i Hiartanu (hver jafnvel af Heidingium er fordæmd) helldur uñ þessa, sem fyrer skoñu er uñtalad. Eñ Jacob Postule, þegar hañ Cap. 1. v. 14. 15. talar uñ hverneñ Syndeñ gengur, so sem nockurskonar Trøppugaang, i Mañsens Syndnunspilltre Naatturu, tekur hañ til aa Rooteñe, sem er Uppruna Syndeñ, Segiande: Sier hver Eiñ verdur Freistadur, þegar hañ verdur af siñe eigeñ Girnd (þad er Uppruna Syndeñe) Afvega leiddur, og lockadur; Sijdañ nær Girndeñ er friofsøm ordeñ (þad er nær Syndeñ fyrst lifnar) fæder hun Syndena (þad eru vondar Huxaner, Ord og Giørder) eñ nær Syndeñ er drygd, getur hun Daudañ; Hver ad er Verdlaun Syndareñar, sem Paulus seiger, Rom. 6. v. 23.

Er þa eckert añad fyrerboded i þessum Bodordum, eñ þesse Girnd ?

Eckert þad, sem eige sie aadur Fyrerboded; Þvi um̃ Eigeñ-Kviñu Naaungans talar i hinu Siotta Bodordenu, eñ um̃ Eigur i hinu Siøunda.

Þvi er teked til þessa, helldur eñ hvers añars i þessum Bodordum ?

Þviad Girndeñ fester sig hvad mest aa þessum Hlutum; Eñ under Girndareñar Nafne aa eige einasta ad skiliast Epterlaungun til hins Illa, helldur og Leide og Vidbioodur aa hinu Gooda; Sem aadur er sagt; Bæde Uppruna Syndeñ sialf, og allur Vanmaattur bæde i Skilningenum og Vilianum; So og allar Syndsamlegar Hræringar og raung Iñfóll i Hiartanu: So hier er ecke einasta Fyrerboded: Þu skallt eige þvilijk Iñfóll edur Hræringar hafa, i Nijunda Bodordenu, helldur og, þu skallt eige vera hneigdur til þvilijks, i þvi Tijunda; Hvar af Meñ siaa, ad allur Heimureñ er Sakfalleñ fyrer Gude, sem Paulus Vottar, Rom. 3. v. 19. Og aller Heilager þurfa ad bidia hañ um̃ Kvittun Syndaña: Ps. 32. v. 6.

Og þessa Girnd, Vidbiood edur Vanskilning siñum vier hiaa oss i øllum Bodordunum, sem brytst upp i Hiarta voru, ad þeim naudugum sem Gud Ottast; Til Dæmes ad taka:

J Hiñe Fyrre Tobluñe raung Jñfoll uñ Guds Veru, hañs Stioornan og Rett vijse, er og fundest hafa hiaa Heilogum, sem siaa maa af Jobs Book; Nær Mañe flygur i Hug ad elska eitthvad framar eñ Gud; Vangiætslañ aa hañs Virdingu, og Leide aa Guds Orde uñ Stund: J hiñe Siidare, Vraadræde vid Forelldrana i Hiartanu, þoott eige sie þad af Grædsku; Hiñ Fyrste Neiste Reideñar er Hefndargirneñ, og i Syndunum moote Attunda Bodordenu er Girnd til ad fella edur Ofrægia Naaungañ, og er soddañ Oteliande; Hvert eiñ Gudhræddur Madur kañ miklu betur ad fiña i Samvitsku siñe, nær hañ rañsakar hana Jtarlega, helldur eñ þad verde med Ordum Utmaalad; Eñ ef vier fiñum, ad þetta er Synd; Þa er audvitad, ad Spilling Natturuñar er og Synd, af hverre hitt kviknar; Og verdur þetta (ad søñu) allt dempad fyrer Andans Krapt

Krapt hiaa Guds Bornum, jafnvel þoott Hollded faae aa stundum Yferhønd; Eñ þoott þad faae eige, þa er eingeñ so Heilagur, ad þetta ecke gagne hønum til ad audmykia sig daglega fyrer Gude; Og ad biðia um Kvittun Syndaña; So og ad taka sier vara jafnvel fyrer hinum miñsta Iñblæstre Satans: Og Holldsens Pijlum: Og til ad varast Heimeñ, ad ei giefe hañ hønum Ordsøk ad koma sier til ad girnast hid Illa: So og skulu þeir vita, er optlega laata Holldsens Girnder vid sig raada, ad þad duger þeim ecke, ad þeir hafa noog til ad Idrast fyrer, añad eñ þessar Smaa Synder (er Heimureñ so kallar) nema þeir Idrest þessa med, og aangre þad, ad þeir eru so under Syndena sellder: Þvi þad er alltijd noogu stoort i Guds Auglite, sem forþienar eilijfañ Dauda.

Ad einu maa eg eñ spyria, hver er miñ Naaunge?

Þad eru aller Meñ, vonder og gooder, Viner og Oviner, og a hverium gott ad giøra, epter þvi sem hønum best hagar, Giøred gott hverium Mañe, eiña mest þeim, sem eru af Trwareñar Heimkyñe:

seger St. Paall, Gal. 6. v. 10. Þar er eingeñ undañskileñ.

A þa ad giora Mismun aa þessu ?

Ad soñu: Þeim eiga Meñ mest gott ad giøra, sem oss eru mest Vandabundner, og þeim sem naudstadder eru: Þvi þeir eru oss hvad skylldaster fyrer Guds Saker: Þvi saa ed gefur Faatækum, hañ laanar Drottne, seger hiñ vijse Salomon. Prov. 19. v. 17.

A eg þeim gott ad giøra, sem eg veit ad Gud hatar ?

Ad vijsu aattu, Jøllu þvi sem hønum er ecki a mooti, þvi so giører hañ: Hañ giører øllum allt þad gott, sem ei er aa moote hañs Riettlæti, Eñ hañ vill þu siert Myskunsamur, eins og hañ er Myskunsamur, Luc. 6. 36. Hañ lætur sijna Sool uppreña yfer Riettlaata og Raanglaata, og rigna yfer gooda og vonda, Matth. 5. v. 45. Þad er, jafnvel yfer Ovine sijna, og giører þeim margt fleira gott, so hañ med Rijkdoome siñar Þoleñmæde drage þaa til Idrunar, Rom. 2. v. 4.

Þu sagder, ad marger af vorrar Kyrkiu Lærendum hefdu þeña Skilning um Adgreining þessarra Bodorda, sem þu hefur sagt: Eñ eru þar nockrer, sem ødruvijs meina ?

Til

Til eru þeir sem meina, ad þesse Bodord eige ad skiptast epter þeim Hlutum, sem i þeim eru fyrerbodner, So ad i hinu Niunda Bodordenu sie bañad ad girnast Gotz og Garda, og adra Dauda Hlute, Eñ i þvi Tiunda Eigeñkviñu, Þioonustu Foolk, og Kvikfenad, Hverrar Meining-ar Lutherus synest og vered hafa, Eñ hveru-tvegger eru þo i þvi samþycker, ad bæde Uppruna Syndeñ, og hinar Fyrstu Hræringar, Gyrndareñar, sieu i þessum Bodordum fyrerbodnar, og lender þad i sama Stad.

Seg mier Utskijring yfer þau Ord, er fylgia Bodordunum af Exod. 20. Cap.

† Eg er DRotteñ Gud þiñ, Sterkur Vandlætare, vitiande Raanglætis Fedraña aa Sonunum, i Þridiu og Fioordu Ættkvijsl, þeirra, sem mig hata, eñ giorande Myskunseme i Þusund lidu, þeim sem mig elska, og mijn Bodord vardveita. †

Þesse Hootan Guds og Fyrerheit fylgia i þeim 20. Cap. Exod. hinu Fyrsta Bodordenu, hvert ad er Grundvøllur allra hiña; Þvi saa sem Gud ottast og elskar af øllu Hiarta, honum veiter liett ad hallda hin øñur Bodordeñ; Eñ Lutherus hefur

sett þau allra seinast, til ad syna þar med, ad þau eige ad heimfæraſt til allra Bodordaña; Pvi þau 1. eiga ad aaminña oſs til ad hallda Bodordeñ af fremsta Megne, og ættu ad vera oſs jafnañ fyrer Augum, so sem eitt Miñes-Teikn uñ Guds straanga Riettlæte yfer þeim, sem hañs Bodord forsmaa, og so uñ hañs Giæsku, moote þeim, er hañ ottaſt; 2. Pviad þesse straanga Hootun hlijder øllum þeim til, er brioota Guds Bodord. 3. Pvi Fyrerheited tilheyrer øllum þeim, er Gud elſka, og hañs Bodord vardveita, so sem hier stendur.

Hvad er framar athuga verdt i þessare Grein?

Eg er Jehova þiñ Gud, stendur i Textanum. Þetta Ord Jehova, giører 1. Greinarmun aa mille hins saña Guds og añarra, sem so eru kallader, þott ei sieu þeir Guder, þvi þad er hañs eigeñlegt Nafn, so sem hañ hefur þad i Ritninguñe opeñberad, og maa eingre Skepnu tilleggiaſt. 2. Utskyrer þad hañs Haatign; þvi þad merker þañ sem var, og þañ sem er, og þañ sem vera mun, þad er, hañ sem er aan

Upp-

Upphafs, og Enda, fra eiñe Eilijfd til añ-
arar. 3. Þeſſe Ord, þiñ GUD, eiga ad
miña oſs a, ad hañ ecke einaſta ſie Gud,
þad er eiñ Herra yfer øllum Hlutum, hell-
dur og þar hañ ſeiger þiñ GUD, ad hañ ſie
ſierhvers eins GUD, og hafe allt Valld til
ad Straffa hvern eiñ, ſem honum moote
brytur, og vilie hverium einum Myſkuna,
ſem hañ ottaſt. STERKur VAND-
lætare: Hier brukar Ritningeñ þad Ord,
ſem tijdkaſt um̃ eiñ Mañ, ſem elſkar daatt
ſijna Eigeñ konu; Eñ vandlæter med griñ-
um̃ Hefndar Hug, ef hun ſamlagaſt ød-
rum Mañe, So er þa Meiningeñ i þeſſum
Ordum: Eg kañ ecke ad lijda, ad nockur
ſie tekeñ fram̃ hia mier, og vil þeſs magn-
lega hefna, ef nockur þad giører. Vitian-
de Raunglætis Fedraña a Sonunum i
Pridiu og Fioordu Ættkviſl, þeirra ſem
mig hata: Hier eiga ad ſkiliaſt ecke einung-
is Natturleger Fedur, helldur og þeir ſem
eiga ad vera Fødurlandſens Fedur, Hver-
ra Synder ad Gud optlega ſtraffad hefur
a Epterkomurunum, ſem hafa fylgt þeir-
ra Footſporum, Og vegna þeſs ad Gud
hefur med þerum Ordum vitnad, Ezech.

18. v. 17. Ad Sonureñ skule ei bera Fødurſens Synder, þa aa þetta ad skiliaſt um̃ þaa Nidia, ſem ad breita epter Illsku Forelldraña, Edur ſamſiña heñe, Edur hafa ſtyrkt þa i ogudlegu Athæfe, Edur ei vilia rietta og bæta þad Forelldrarner oriett giørt hafa: Og þoott ad þeir lijde þañeñ fyrer ſijnar Synder, þaa lijda þeir og fyrer Forelldraña Illsku; 1. Þviad fleire Orſaker eñ ein, kuña ad vera til eins Hlutar. 2. Þviad Straffed verdur hardara þar fyrer, nær Mæling Syndaña verdur uppfylld, Matth. 23. v. 35. 36. Ad hata Gud, er ad forſmaa hañs Bodord, og Setninga, treyſta aa ſiaalfañ ſig, edur nockurn Mañlegañ Krapt. Ad vitia, merker hier ad ſtraffa, og er þad hier adgiætande, ad hier er ei meint nema tijmanlegt Straff, Þvi eingeñ verdur fyrer añars Synder til Helvijtis dæmdur, Añars er hier af audſied, hverſu miøg ad Gude mißlijkar Syndeñ, ad hañ vill ecke gleima ad ſtraffa hana aa Børnum og Barna Børnum; Hvad og er ein ſkelfeleg Hootan, og mætte miña oß aa, ad bwa vel i Veg fyrer Børn vor, hver margur elſkar eins og ſiaalfañ

ſig;

sig; So ad Chrysostomus helldur, ad Cham, Syne Noa, hafe þad þyngra falled, ad hañs Syne Chanaan var bølvad, helldur eñ þoott hønum hefde sialfum bølvad vered.

Þu seiger, ad Gud ecke hefne Forelldrana Synda a Børnunum, nema þau gange i þeirra Footspor, edur sambyckest þeim, edur sieu samræda i Syndeñe: hvar fyrer stiedur þad þa, ad Ogudlegra Forelldra Gudhræddum Børnum lijdur optlega illa?

Þegar Gud leggur Gudhræddum Børnum Ogudrækeña Forelldra nockurn Mootgang uppaa, þa er þad ecke Straff fyrer Synder Forelldrana, meir eñ þegar goodra Forelldra Gudhrædd Børn verda ægud af Gude; Helldur er þad Fødurleg Hyrting Guds, sem jafnañ verdur þeim til hins besta sem ad Gud Ottast.

Hvad er þetta: Giørande Myskunseme i Þusund Lidu, þeim sem mig Ottast, og mijn Bodord vardveita? Ef þad eru forþient Laun hiña sem vardveita Guds Bodord, hverneñ er þad þa af Myskunseme?

Þoott ad þetta Fyrerheit fylge Løgmaalenu, og þoott þad syneſt ad vera hier sett i giegn þeim Hootunum, sem þeim tilheyra, er ecke hallda Løgmaaled, þa er þad

þo

þo ecke af Logmaalenu, helldur af Evangelio; Þvi so seiger Paulus, Rom. 4. og Rom. 11. v. 6. Um̃ Riettlæte Abrahams, hver ed var syndugur Madur eins og adrer: Ef þad er af Verkunum, þa er þad eige af Naadeñe; Og aptur seiger hañ, Gal. 3. v. 21. Ad þar sie eige Logmaal til sem ad lijfge: So er þa eingeñ Myskunseme epter Logmaalenu, og þvi er þetta Naadar-Fyrerheit; Eñ være þad af Logmaalenu, þa være þad oss Onytt, þvi eingeñ kañ Logmaaled upp ad fylla. Hootaner Logmaalsens naa alltijd sijnum Framgange og Asetninge aa ollum þeim, sem brioota Guds Bodord, og eige trwa aa Christum, sem Logmaaled hefur vegna allra Maña uppfyllt. Fyrerheited i sama Maata aa þeim, sem aa hañ trwa, þess vegna, ad hañ hefur þad uppfyllt: Eñ Sokum þess, ad Christur er oss gefeñ af Naad Guds og Myskun, þa er þad Fyrerheit og so af Myskun alleina, sem aa honum, og i hañs Forþienustu er grundvallad; Og þad sem hier seiger, Ad Gud villie vera Myskunsamur i Þusund Lidu, þeim sem hañ elska, og hañs Bodord vardveita, þad aa

eigi

eige so ad skiliast, ad Gud vilie Myskuna
þeim fyrer þad, ad þeir vardveita hañs
Bodord, þvi þad giörer eingeñ til fulls:
Helldur þeim sem hañ elska, og vardveita
hañs Bodord, alleina vegna Guds Fyrer-
heita, og eige af Verdskulldan: Þvi elska
kañ Madur Gud af Hiarta, þott ecke gete
hañ fyrer Veikleika Holldsens Lögmaal-
enu Fullnustu giört, eñ vardveiter þo so
miked af Bodordunum, sem hañ frekast
megnar, eñ þad sem aabrestur, þad bætest
fyrer Christi Forþienustu, Þvi þeir sem aa
hañ trwa, eru eige under Lögmaalenu, þad
er under Lögmaalsens Bölvan.

Ef þeir eru ei under Lögmaalenu, sem trwa aa Christ-
um, þurfa þeir þa ad lifa epter Lögmaalenu?

Ad vijsu eiga þeir epter Lögmaalenu ad
lifa, Þvi Christur kom eige i Heimeñ, til
ad uppleysa edur afmaa Lögmaaled, helld-
ur til ad uppfylla þad, Matth. 5. v. 17. Eñ
fyrer þvi ad þeir geta þad eige uppfyllt, þa
ydrast þeir Daglega þess, sem þeim aa verd
ur, nær þeir rañsaka siñ Lifnad, og trwa
þvi stadfastlega, ad þeim verde þad fyrer
Christi Forþienustu fyrergefed, og jafnvel
þott þeir aa Stundum hafe miög so villt

fared

fared, Eñ leggia þo allt Kapp aa, ad leid-
rietta siñ Lifnad framveigis: Og þetta
heiter ad trwa aa Christum, og ad vera i
Christo, Eñ þeir sem i hønum eru, þeir eru
eige under Løgmaalsens Bølvan, Þvi
eingeñ Fordæming er aa þeim, sem i høn-
um eru, Rom. 8. v. 1. Eñ under Løgmaal-
sens Hlydne eru þeir, Þvi seger hañ, þeir
sem ecke epter Holldenu gaanga, helldur
epter Andanum, so sem greinelegar mun
sagt verda i Utskyringu Trwarjaatning-
areñar.

Hvad er þad, sem hier stendur i Þusund Lidu?

Þad merker hier, Æfeñlega, so leinge
sem Epterkomendurner eige med Ogud-
legu Athæfe brioota af sier Forelldrañа
Blessan, sem Gud hefur þeim heited, Eñ
so er stoor Munur Guds Myskunseme, og
hañs Reide, ad hañ hefner eige nema i þrid-
ia og Fioorda Lid, eñ er Myskunsamur i
Þusund Lidu; Hvad Meñ siaa berlega aa
Davids Hwse, hvers Epterkomendur
Gud sparade, (jafnvel þo marger Gud-
lauser væru) frañ epter Olldunum vegna
þeirra Fyrerheita, er hañ hafde gefed høn-
um; Eñ Josiæ Konunge, Sonar-Syne
hins

hins Ogudlega Konungs Manassis synde Gud Myskun, ad hañ sæe eige pad Illa, er hañ villde laata koma yfer Jerusalem, af þvi hañ Ottadest hañ, og audmykte sig fyrer hañs Auglite, 2. Reg. 22. v. 20.

Hvad er þetta Ord, Þeim sem mig elska, Nu kañ eingeñ fullkomlega ad Elska Gud?

Gud heimter eige meir af Syndugum Mañe, epter Falled, eñ hañ fær af Stad komed epter Naadeñe. Pad er og añad, ad elska Gud og vardveita hañs Bodord; Eñ añad, ad uppfylla þau algiørlega: Pad Fyrra, eñ ecke hid Siidara, heimter Gud af siinum Børnum, eige i þeirre Meiningu, ad þau forþiene þar med nockud, helldur ad þau syne þar af siina Packlætis Skylldu, fyrer hañs margføllldu Velgiørninga, og gefe hønum Efne og Tækefære til ad audsyna þeim eñ þa stærre Velgiørder.

Gud hefur heited þeim, sem hañ Ottast, øllu Goodu, hvad vardar þa um̃ þad Fyrerheit, sem Gud hefur gefed Forelldrum þeirra?

Eige er þad Onytt þar fyrer, helldur vill Gud auka siina Myskun vid þa, hvad mest vegna siins Fyrerheittis, og leggia

Blessan til Blessunar; So giørde hañ vid Salomon Konung, að medañ hañ geck að Guds Veige, að hañ efldi hañs Rijke med Fride og Rijkdoome, meir eñ hañs Fodurs Davids. Eñ ef hønum þocknast ad læta good Børn Gudhrædda Forelldra vanta nockud að Velgeingne þeirra, þa hefur hañ siñ Tilgaang þar til, sem vier skilium eige, þo alltijd þeim til gooda, er hañ Ottast.

Munu þeir aller Eilijflega fyrerfarast, sem eige hallda Bodordeñ?

Laangt er fra þvi, þar eingeñ Madur munde þa hoolpeñ verda; Og hefe eg ad nockru Leite aadur sagt, i Jñgaangenum til ockar Samtals, hverneg þessu er hattad, eñ þad maa greinelegar siaa i Trwarjaatninguñe, og rijdur eingu miña að, ad læra þeña Part Christeñdoomsens, eñ hin Fyrra, þvi i Bodordunum verdur oss kieñt, hvad vier eigum ad giøra, af hveriu eingeñ kañ hoolpeñ ad verda; Eñ hier verdur oss kient, hverneñ vier kuñum Bodordeñ upp ad fylla, so vier Saaluhiaalpena erfa kuñum.

Pu hefur ꝍdur synt mier, ad Gud se Eiñ i Veruñe, og Madureñ eige þvi ad trwa, sem um̃ hañ er Opeñberad i Ritninguñe, eñ Syn mier nu af heñe, ad Gudoomsens Personur sieu Priꝍr?

Pad votta fyrst þær Greiner Ritningareñar, i hverium ad Gud, sem i Veruñe er Eiñ, talar um̃ sig, so sem um̃ fleire, so sem Gen. 1. v. 26. Lꝍtum oss giora Mañeñ epter vorre Mynd, Gen. 11. v. 7. Lꝍt. um oss ofañfara og blanda Mꝍle þeirra, so Eiñ skilie eige hiñ Aññañ; Og hiꝍ Esaiam, Cap. 54. v. 5. seger: Þijner Drottnar eru þijner Skaparar, Jehova Zebaoth er hañs Heite: Og eñ aptur, Esa. 6. v. 8. Par epter heyrda eg Raust DRottens, er sagde: Hvern skal eg senda; Edur hver mun fara fyrer oss? J þeim Tveimur Fyrstu Greinum talar Gud um̃ sig, so sem um̃ fleire eñ Eiñ, hvar med eige kañ añad meint ad vera, eñ Personur Guddoomsens, sem er Eiñ; Eñ i þeim Sijdurstu hiꝍ Esajam getur hañ um̃ Eininguna, þar hañ seiger: Jehovah Zebaoth er hañs Heite; Og aptur Cap. 6. Hvern skal eg senda; Og þo um̃ fleire i somu Greinum, segiande: Þijner Drottnar, þijner Skaparar; Item, hver

mun fara fyrer oß, hvar af siaa maa, ad Gud er Eiñ i Veruñe, og þo Preñur i Persoonunum. Her ad auke eru þessar Priaar Persoonur aa Nafn nefndar opt i Gamla Testamentenu, so sem Ps. 33. v. 6. Med Orde DRottens eru Himnarner giørder, og med Anda hañs Muñs allur þeirra Her; I hverium Ordum Prijr eru nefnder, DRotteñ edur Jehova; Orded; sem er Guds Sonur, Joh. 1. Og Andeñ. Sonureñ seger, Es. 61. v. 1. 2. 3. Ande DRotteñs Jehova er yfer mier, þess vegna hefur hañ smurt mig; Hvern Spaadoom DRotteñ uppaa sig þijder, Luc. 4. v. 18. Hvar og Anda DRotteñs verdur til-lagdur nockurskonar Giørningur, sem Eiñe Persoonu tilheyrer, sem er ad smyria; Eins og hiaa Job, Cap. 33. v. 4. Par so seger: Ande DRotteñs hefur giørt mig: Pessu er samhlioodа Esajas Cap. 63. Er hañ v. 7. og 8. nefner Jehova; v. 9. Eingel Andlitesins, sem er Christur, og Anda hañs Helgedooms, v. 10. Hver og kallast Ande DRotteñs Muñs, 2. Thess. 2. v. 8. Og uñ Guddom og Persoonu Sonarens er so liooft i Gamla Testamentenu, ad þar uñ

kañ

kan eingen ad efa: So seger David, Ps. 45. v. 7. Þijn Velldis-Stooll, Gud, varer um Allder Allda, hvad Paulus Hebr. 1. v. 8. og 9. 10. þijder uppa Christum, um hvert Efne og hliodar hid 9. og 10. Vers, sem eru dreigen wt af adur-greindum Psalme, og so af hinum 102. v. 26. En i Nya Testamentenu eru so lioos Rok hier til, ad eingen kan ad efast um; So sem þegar Faderen sagde, Matth. 3. v. 16. i Christi Skijrn: Þesse er minn Elskulegur Sonur; Sonuren steig synelega upp wr Vatnenu: En H. Ande kom yfer han i Dwfu Lijking. Og hiaa Matth. Cap. 28. v. 19. Baud Christur Postulunum ad skijra i Nafne Fodurs, Sonar og H. Anda: Og þott ad miklu fleire Vitne meige faa af Nya Testamentenu um þenna Leyndardoom, þa er þad vijst, ad þær Greiner sem eg hefe fært til Sannenda hier um, þær eiga so ad skiliast, og so hafa Guds Born, sem aa þeim Døgum lifdu, skilid þær; Þvi Petur sagde openberlega, Act. 15. v. 11. Fyrer Naad DRottens vors JEsu Christi trwum vier, ad vier hoolpner verdum med sama Hætte og þeir (han meinar Fedurnar)

na) hvar hañ berlega nefner Guds Son, Hvern eingeñ kañ DRotteñ ad kalla, nema fyrer H. Anda seger Paulus, 1. Cor. 12. v. 3. Og mun eingeñ efast uñ þad, ad Postularner, sem skijrdu i Nafne Heilagrar Preñingar, þeir hafe Preñinguñe trwad; Eñ ef þeir hafa, þa hafa og Fedurner i Gamla Testamentenu, sem med sama Hætte urdu Saaluhoolpner, So sem Petur seger.

Legg mier wt Trwarjaatniguna.

Fyrsta Grein.

† Eg trwe aa Gud Fodur Almaattugañ Skapara Himens og Jardar. †

Hvad er þetta Ord, Eg trwe?

Trweñ er med tveñu Moote: Fyrst elga Meñ stadfastlega ad trwa, þad er: Ad hallda þad Obrygdañlega satt ad vera, sem uñ Gud og hañs Vilia er opeñberad i Ritninguñe, sem er hañs Ord, er hañ sialf ur talad hefur fyrer Muñ siña Spaamaña og Postula, þvi þad er Omøgulegt ad Gud kuñe ad liwga, Ebr. 6. v. 18. Og þessvegna aalyktar Lutherus sierhveria af þeim Þremur Trwargreinum, sem iñ eru færdar i hañs Barna Lærdoom, med þessum

um Ordum: Petta eru viſſuleg Sañende. J ødru lage; Eiga Meñ ad ſetia allt ſitt Trauſt til Guds, bæde i Andlegum og Lijkamlegum Efnum; Og bad heiter ſier i lage ad trwa aa Gud, ad reida ſig fullkomlega, aan alls efa, þar uppaa, ad hañ muñe oſs verda, epter þvi ſem af honum er ſagt i hañs Orde. Hin fyrre trwer øllu þvi, ſem i Ritninguñe um̃ hañ er opeñberad; Hin Siidare trwer aa hañ; Ad hañ verde ſier, ſo ſem hañ i Ritninguñe lofad hefur: Hverugrar maa Chriſteñ Madur aan vera; Og baadar verda kiendar i Trwar-Jaatninguñe.

Þvi er hin Fyrſta Guddoomſens Perſoona køllud Gud Fader?

Gud er þreñur i Einingu, og Eiñ i Þreñingu, ſo ſem aadur er ſagt. Fader, Sonur og Heilagur Ande, er ad ſøñu Fader vor og allra Hluta; Eñ ſier i lage verdur hin fyrſta Guddoomſens Perſona þar fyrer køllud Fader, ad hañ er Bruñur og Uppſpretta Guddoomſens, Þvi Sonureñ er af honum geteñ fyrer allar Allder, Eñ H. Ande fraamgeingur af Fødur og Syne; Þo er bad eige ſo ad ſkilia, ad Fadereñ ſie fyrr

eñ Sonureñ edur H. Ande, Pvi þessar Per-
sonur eru samjafnar og sameilijf-
ar, sem sijdar mun greinelegar sagt verda;
Og þar ad auke kallast hañ Fader; Pvi hø-
num verdur sier i lage tillagt Skøpunar-
verked, til ad greina hañs Persónu fra hin-
um Tveimur, og til ad wtmæla hañs Ve-
rk, hañs Almætte og hañs Giæsku þar med;
Ad so sem lijkamleger Fedur eru hin nærsta
Orsøk til Skapnadar Barna siña; So er
og Gud Fader Skapare allra Hluta bæde
a Himne og Jordu, synelegra og osynileg-
ra, Og þegar eg seige: Eg trwe a Gud
Fodur, þa jatta eg under eins, ad hañ ha-
fe mig skapad i hinum fyrstu Moñum A-
dam og Evu, af hverium aller Meñ komn-
er eru; Pvi eige skopudu mig Fader miñ
nie Mooder, helldur stioornade Gud mij-
nu Skøpunarverke, og þad med einu Al-
mættis Orde, þar hañ sagde, Gen. 1.v.28.
Vaxed og margfalldest og uppfylled Jørd-
ena, og Job seiger, Cap. 10.v.10: Pu hley-
pter mier samañ i Kvide miñar Moodur,
so sem ødrum Oste, og eige einasta jatta eg
þetta, helldur og hitt, ad hañ med Almætte
sijnu, og af siñe Giæsku halldi øllum skop

udum

udum Skepnum vid; So vel þeirre minstu, sem hiñe stærstu; So vel Myfluguñe sem Ulfalldanum; So vel Høfud-Englunum sem Madkenum, sem skrijdur a Jørduñe; Og ad hañ ecke alleina vidhallde þessu øllu, hveriu i siñe Tegund, gefe þvi Krapta og Hræring til ad wtrietta sitt Verk, epter þvi sem hañ i øndverdu baud; Helldur og, ad hañ stiare fyrer sierhveriu einu af þessu, so ad jafnvel ecke eiñ Titlingur fellur a Jørdu aan hañs Vilia, Matth. 10. v. 29. Eñ þo er hønum um Mañeñ allra mest hugad; Þvi seger Paulus, 1. Cor. 9. v. 9. Hirder Gud nockud um Nauteñ, hvad Ambrosius so utleggur: Ad Gud hirde eige um Fienadeñ, fyrer hans Skulld, helldur vor vegna, fyrer hverra Skulld Fenaduren er skapadur: Og fyrer þvi, ad bæde Klæde og Skiæde, Hws og Heimile, og allt añad sem Lutherus upptelur i siñe Utleggingu yfer þessa Grein, þad veitest oss af Gude, og fyrer hañs Forsioon; jafnvel þo vier medtøkum þad af Mañaña Hende, edur wtvegum med vorre Forsioon, þa er hønum þad allt ad þacka, so sem hinum fyrsta Høfunde allrar skap-

adrar Skepnu, sem Mañenum þioonar til Nota og Blessunar; Og þott hañ laate Naatturuna hafa siñ Gang optast epter þvi Løgmaale, sem hañ sette heñe i øndverdu, þaa kañ hañ þvi um̃ ad breita, nær sem hañ vill, sem audsied er af Kraptaverkunum; Fædsluna hefur hañ gefed til ad forsorga og vidhallda Lijkamanum, þo getur hañ forsorgad Lijkamañ aan Fædslu eins og Eliam i Eydemørkuñe, 1. Reg. 10. v. 8. Hañ getur laated Petur ganga þurrum Footum aa Sioonum, Matt. 14. v. 29. Hañ kañ ad sundurskipta Siaafarhafenu nær hañ vill, og laata þad standa, so sem aññ Mwrvegg aa baadar Sijdur, Exod. 14. v. 29. Hañ getur bañad Elldenum ad breña, Dan. 3. v. 27. Og Leonunum ad rijfa Daniel i sundur, Dan. 6. v. 23. Þetta eigum vier ad hyxa, nær vier Skort lijdum, og høfum þad ei fyrer Augunum, sem vier meigum biarga Lijfenu med; Edur þegar vier erum i einhverre Naud edur Haaska stadder; So þott Gud giøre ei so þreifanleg Kraptaverk aa medal vor sem i Fyrndeñe, ad vier þo alldrei vantreystum hønum, sem so er Maattugur og Giæskrijkur

rijkur, helldur trwuum þvi fyllelegá, ad hañ bæde vilie og gete hiaalpad oss, og frelsad aa einhvern Haatt; Og ad eckert sie betra eñ þad, sem hañ lætur vid oss framkoma, sem aa hañ trwuum, þott oss synest þad alldrei so þungt edur ovæulegt, og þesse aa ad vera Kraptur þessarar Jaatningar hiaa oss: Eg trwe aa Gud Fodur Almaattugañ; Hverium Ordum þad fylger, ad þoott vier skiootum oss til hañs Almættis, nær øll Von og Mañleg Hiaalp er wte, þaa samt gefum vier oss under hañs Vilia, og bidium, ad hañ giøre alla Hlute vid oss si jnu Nafne til Dyrdar, so sem hañ sier oss fyrer bestu vera; Þvi ecke einasta veiter hañ oss og gefur alla gooda Hlute, er vier vidþurfum i andlegañ og Lijkamlegañ Mennta; Helldur og verndar hañ oss og vardveiter fraa øllu illu, til Lijfs og Saalar; Og þar ad auke frelsar oss af allre Naud, sem vier kuñum i ad rata, hvert helldur þad kemur af vorum eigeñ sialfskapar Vijtum; Þvi hañ fyrergefur oss fyrst Afbroteñ, nær vier þeckium þau, idrunst þeirra, og trwuum, ad hañs Guddoomleg Myskun mune forlaata oss þau fyrer Christi Sk-

ulld

ulld, og laatum af þvi illa; So hañ lætur jafnvel Syndena verda þeim til gooda, sem hañ elska og aa hañ trwa, so sem hañ giørde vid David, 2. Sam. 12. v. 24. Er hañ gaf hønum Son vid þeirre sømu Kviñu, er hañ hafde hooraſt med, hvern hañs Son hañ sette a hañs Tignar-Stool epter hañs Dag: Hañ fyrergefur oſs fyrſt Syndernar, ſege eg, og ſijdañ hiaalpar oſs af þvi Straffe, ſem vier med Syndunum høfum forþienad; Edur og þad framkemur epter hañs alvijſu Raadſtøfun, jafnvel af Andſkotanum, edur vondum Møñum til ad reyna oſs: Og þetta ſeiger Lutherus, ad hañ giøre aan allrar vorrar Verdſkulldunar, alleina af eintomis Gudlegri Goodgirnd og Myſkun: Af Goodgyrndeñe veiter hañ oſs þaa Hlute, ſem gooder eru, og vier vidþurfum; Af Myſkunſemeñe aumkar hañ ſig yfer Eymder vorar, og fyrergefur oſs Syndernar, og gelldur oſs ecke epter Maklegleikum, ſo ſem David vottar, Pſalm. 103. v. 8. Myſkunſamur og Naadugur er er Drotteñ, Poleñmoodur og harla Goodgiarn. Og þar fyrer trwum vier og jaatum, ad hañ ſie vor Fader; Þvi ſo ſem

sem Fadereñ er Børnunum Myskunsamur, so er Drotteñ þeim Lyknsamur, sem hañ óttast. Af þessare Guds Haatign, hañs Almætte og hañs Myskun, eigum vier ad laata oss vera hugfasta Skylldu vora, i þvi ad lofa hañ, og hønum þacker ad giøra: Hvad ed skedur med þvi, ad vier þeckium hañ fyrer vorn Skapara, fraa hverium alleina kemur allt þad gott, sem vier niotum i Andlegañ og Lijkamlegañ Maata: Og laata hañs yfermaata miklu Elsku til vor Syndugra Maña (sem daglega reitum hañ til Reide) uppvekia i oss eina breñande Elsku til hañs, ad brwka øll vor Skilningarvit, alla Saalar og Lijkamans Krapta, hønum til Þioonustu, Lofs og Dyrdar, epter þvi sem hañ boded hefur i sijnu Løgmaale, og vier frekast megnum; Og þar vier getum þad ecke so sem vera byriar, aa medañ vier berum epter oss þetta syndumspillta Holld, ad vier þaa audmyktum oss daglega, og bidium Fyrergefningar; Þvi vier Syndgum daglega med Hugreñingum, Ordum og Verkum, jaa med øllu þvi hañ hefur gefed oss til Saalar og Lijfs Nota, og til ad dyrka sialfañ sig med, hvert ad ætte ad vera

ra vort mesta Epterlæte, eñ hañs Skyll-dustattur, af oss.

Þesse Fyrsta Grein Trwareñar ætte oss jafnañ i fersku Miñe ad vera, a hverre Stundu; Þvi hvern Tijma medtøkum vier hañs Naadar-Gaafur, og eckert Augnablik lijdur so, ad hañ giøre ecke si erhverium af oss fleire Velgiørninga, eñ øll Verølldeñ kuñe ad fullþacka hønum, uñ alla Wefe; Þar øll Natturañ, sem hañ skapad hefur, þioonar sier hverium af oss, a Aflaats: Vier drøgum Ondena uñ Lijkamañ a hveriu Augnablike, og þar i er vort Lijkamlegt Lijf foolged, fyrer hvert vier niootum alls þessa Gooda, sem hañ veiter oss: Hañ lætur Soolena, Tungled, og allañ Himensins Her, so og Jørdena, Siooeñ, Lopted, og allar sijnar daasamlegu Skepnur þioona oss, jafnvel midt i vorum Syndum; Þvi vier styggium hañ ydluglega; Og jafnvel hiner Bestu og Gudhrædduftu af oss, eru ei so fullkomner, ad vor bestu Verk sieu eige Synd, ef þau ættu ad metast epter Guds Riettlæte: Nema þau yrde gylld fyrer Christi Forþienustu; Og hvad munu þa eige Klæker

og

og Odygder vera, sem marger leika sier ad Ydrunarlaust? Po lætur hañ sijna Sool uppreña yfer Raanglaata, so vel sem Rettlaata, so hañs Poleñmæde drage þar til Ydranar; Eñ ad þessu hyggur ecke Fiöllde Mañs, þar Meñ hafa þessa Trwar-Grein alleina i Muñenum, og ecke i Hiartanu: Pvi ef Meñ giæfu nockurn Gaum þar ad, þa mundum vier ei so drambsamlega framgaanga, og þioota upp af Hofmood og Ofstæke, so sem hefdum vier Aud, Virdingar, Magt, Vitsmune, Hreyste Lijkamans, Atgiorfe, og Otal þvilijkar Gaafur Guds af siaalfum oß; Og eige brwka þær til hiña verstu Glæpa, sem so Heilagañ og Maattugañ, og þo Giæskurijkañ og Poleñmoodañ Gud og Fødur til Reide reita: Til Agyrne, Ofundar, Ofrijkis, Ohoofs, Lauslætes, og hiña verstu Skama og Oknytta, sem hiñ vonde Heimur er fullur af; Eñ þeinkia alldrei til ad þacka Gude fyrer allt þetta; Edur giøra Gott af sier hinum Volada, edur þeim sem Raanginden lijdur, nie syna oñur Kiærleiks-Verk, sem hañ hefur skipad ad dyrka sig med; Peß vegna ættum vier ad hafa

hafa þessa Trwar-Grein jafnañ fyrer Aug um, til ad audmykia Hiarta vort, og ad skielfast fyrer Guds Reide, sem vijs er øllum Ydrunarlausum; Eñ allra hellst ad kveikia i oss eina breñande Elsku til hañs, er oss Overdugum og Opacklætum, aaf Aflaats, so margt Gott giører; Og nær hañ lætur oss vel lijda, edur frelsar oss af nockurre Neyd, ad þacka hønum af øllu Hiarta þar fyrer, lofa prijsa og elska hañ og taka med allre Hoogværd og Poleñmæde aa moote øllu þvi, sem hañ vill læta vid oss framkoma, hverstu sem oss synest þad beiskt og swrt; Þvi hañ er vor Fader, vor og allra Hluta Skapare; So þar er ecke ad efast um hañs Giæsku, ad þad sie oss eige fyrer bestu, sem hañ vid oss giører, og ecke um hañs Vijsdoom nie Almætte, so hañ kuñe oss ecke ad hiaalpa, jafnvel þoott Diøfulleñ, og øll Verøllden med hønum, være oss aa moote. Eñ allra sijdst eigum vier ad þeinkia, ad vier med Oþoleñmæde, edur vorum eigeñ Raadum, sem eru a moote hañs Vilia, kuñum nockud ad wtrietta, nema ad fordæma sialfa oss, og spilla Giæfu vorre, segium þvi med Da-
vid

vid, Ps. 38. v. 10. Eg vard Maallaus, af þvi þu giørder þad. Nu hefur þu nockud heyrt talad um̃ þær Lijkamlegu Velgiørninga þess Almættuga Guds og Himneska Føðurs; En̄ so mikler sem þeir eru (sem þo eru so mikler, ad þad fær eingen̄ syndug Twnga wttalad) þær eru þeir þo Hiegomi ad reikna hia hinuum Andlegu, sem han̄ hefur oss veitt i Sendingu sijns eingetens Sonar JEsu Christi, og Astgiøfum Heilags Anda, sem oss veittar eru fyrer Christi Forþienustu.

Hverier eru þesser Andlegu Velgiørningar?

Um̃ þær er talad i þeim tveimur epterfylgiande Trwargreinum, er hlioода um̃ Guds Son og H. Anda.

Utskijr mier þær eins og þu hefur giørt vid þessa?

Hin̄ on̄ur Trwar-Grein̄en̄ hliodar han̄n̄:

Eg trwe a JEsum Christum, Son han̄s eingeten̄, vorn DRotten̄, hver ed geten̄ var af Heilogum Anda, fæddur af Mariu Meyu, pijndur under Pontio Pilato, krossfestur, deyddur og grafen̄, nidur stie han̄ til Helvijtis, en̄ a þridia Deige reis han̄ upp fra Daudum, uppstie han̄ til Him-

na, situr hañ til hægre Handar Guds Fødur almaattugs, þadañ er hañ komande ad dæma Lifendur og Dauda. †

Hvad jaata Meñ nu i þessare Grein ?

Meñ jaata þad, ad so sem Meñ trwa aa Gud Fødur, sem er hin Fyrsta Persona Guddoomsens, so trwe Meñ og aa JEsum Christum Guds Son, sem er hin öñur Personañ; Þvi jafnvel þoott ad þetta Ord, eg trwe, eige fylge i Upphafenu þessare Grein, þaa heyrer þad þo heñe til; So þad er so miked sem þu segder: Eg trwe og aa JEsum Christum.

Hvilijk er þesse öñur Persona Guddoomsens JEsus Christur ?

Þad seger Lutherus hier best i Utskyringuñe yfer þessa Grein i Frædunum, med þessum Ordum: Eg trwe, ad JEsus Christur, sañur Gud, af Fødurnum geteñ fyrer allar Allder, og hiñ same eiñ sañur Madur, fæddur af Mariu Meyu, sie miñ Drotteñ.

Þu sagder hañ være Guds Sonur, hverneñ kemur þad til ?

Þvi hañ er af Fødurnum geteñ fyrer allar Allder, so sem eg fyrer skömu sagde.

Hvad

Pad er fra Eilijfu; Pviad eins og Gud hefur eckert Upphaf, so hefur og eigē hañs Sonur neitt Upphaf, nie hañs Getnadur, helldur hefur Þesse Getnadur varad fra Eilijfu, varer eñ nu, og mun vara um̃ alla Eilijfd, þad teiknast med þessum Ordum, Ps. 2.v.7. Þar Fadereñ seger: Þu ert miñ Sonur i Dag ol eg þig. Þu mætt eigē þeinkia so um̃ þetta, so sem um̃ Mañlegañ Getnad, þar Madur kenur af Mañe, og Fadereñ er alltijd fyrre eñ Sonureñ; Eñ þeña Getnad, kañ eingeñ wt ad skyra, so sem Spæmadureñ seger, Es. 53. v. 8. Hver vill wtsegia hañs Getnad? Og þetta Ord Alldernar, þad er Tijmeñ i hverium ad heiter bæde fyrr og sijdar, i giær og i Dag, og a Morgun; Þær høfdu sitt Upphaf under eins og Verølldeñ var skøpud, og Himentungleñ sem afmarka Tijmana, og med sijnum Gange syna Møñum hvad fyrr edur sijdar er: Eñ þvilijkt var eckert ædur eñ Verølldeñ var skøpud: Og fyrst ad Guds Sonur er geteñ ædur eñ þetta Veralldareñar Hlaup took til, og ædur eñ þar hiet, fyrr edur sijdar, þa er þad vijst, ad

hañ er Gude Fødur sameilijfur, og ad Gud Fader var alldrei fyrr eñ hañs Sonur var, og Sonureñ eige sijdar eñ Fadereñ var.

Eige skilst mier þetta eñ nu.

Þad veit eg, þvi þu hugleider Guddomlega Hlute epter þijnum Skilninge, og skilur þo ecke siaalfur, hverneñ þu ert myndadur i Moodurlijfe, hverneñ muntu þaa skilia hverneñ Guds Sonur er af Fødurnum geteñ fyrer allar Allder? Eñ þu aatt þvi ad trwa ef þu villt hoolpeñ verda; Þvi ef þu skillder þad, og giæter audsynt med Rokum, hverneñ þessium Leyndardoome være haattad, þa þyrfter þu ecke Trwareñar vid i Þessu; Eñ ef þu trwer, þaa dæmer þu eckert her uñ epter Mañlegum Skilninge, helldur gefur þig og Saal þijna Gude aa Valld, hver ed sig þañeñ hefur Moñnum auglijst, og þijna Skilningu fangna under Hlijdne Trwareñar, 2. Cor. 10. v. 5. Og þeinker med siaalfum þier: Eg er heimskur og faavijs til ad skilia so Haafa og so Guddomlega Hlute; Eñ fyrst Gud hefur þad talad, þaa trwe eg þvi; Og þad er saa einaste Grundvollur þu kant ad hafa til ad trwa þier til Saaluhiaalpar, eñ ecke

ecke þijn holldleg Skynseme.

Hvad er þetta, sem i Frædunum stendur; Og hiñ same eiñ sañur Madur, fæddur af Mariu Meyu. Er hañ þa bæde Gud og Madur?

Þad er hañ ad vijsu. Gud Eilijfur var hañ, er eñ nu, og mun vera um̃ Allder Allda, epter þeirre Guddoomlegu Náttuuruñe; Eñ hañ, sem var Gud fraa eilijfu, og Guds eingieteñ Sonur, hañ took aa sig Mañdoomlega Náatturu i Tijmanum, þegar lideñ voru fraa Skøpun Verallðarenar hier um̃ Fiøgur Þusund Ar, og er fæddur af Mariu Meyu, so sem seger i Lutheri Utleggingu.

Hvad er þad fraa eilijfu, edur hvad er Eilijfdeñ?

Þad verdur eige sagt ødruvijse eñ so; Ad hun hefur eckert Upphaf og eingañ Enda, Seg mier, hvar er Upphafed aa þessum Hrijng O?

Þad er hverge. So er og Eilijfdeñ, hun hefur eckert Upphaf.

Hverneñ took hañ aa sig Mañdoomlega Náatturu af Mariu Meyu?

Hañ var gieteñ i heñar Lijfe, Af H. Anda, aan Karlmañs Tilverknadar; Þvi

sagde hun vid Gabriel Eingel, er bodade heñe Getnadeñ; Luc. 1 v. 34.35. Hverneñ maa þetta skie, þar eg hefe eingañ Mañ kient; Eñ hañ svarade heñe; H. Aude mun koma yfer þig, og Kraptur hins Hædsta mun yfersk yggia þig; Og sijdañ þa heñar Tijmi var komiñ, fæddest JEsus af heñar Lijfe, eins og adrer Meñ hluttakande Hollds og Bloods, eins og Smaa Börneñ, so sem Paulus seiger til Hebræos, Cap. 2. v. 14.

Er þa Guddoomureñ umbreittur i Mañdoom?

Laangt er fra þvi; Þar Gud kañ ecke ad umbreitast; Helldur samteingdest hin önnur Guddoomsens Persona Mañdoomenum, i Lijfe Jomfrwr Mariu, i þvi sama Augnablike, sem Christur var geteñ af H. Anda, so ad sijdañ heiter hun Guddoomleg Naattura, þegar talad er um Christ, so sem Gud og Mañ; Þvi hun og hin Mañdoomlega Naatturañ eru i eiñe Personu samteingdar; Samt er hañ þo epter Guddoomenum samrar Veru med Födurnum, þad er, Eilijfur Almaattugur Gud, so sem Postuleñ seger, Rom. 9. v. 5. Ad Christur sie af Fedrunum epter Holldenu, Gud blessad-

blessadur um̃ Allder, Amen: Hañ leggur hier til þetta Ord, Amen: Þad er, vissulega, sañarlega; Og brwkast i Ritninguñe til ad stadfesta og styrkia þar med, ad þad sie obrygdull Sañleike, sem um̃ er talad.

Hvad er þetta, Hañ er samrar Veru med Fødurnum?

Þad er; Hañ er Gud eins og hañ, so sem hañ sialfur seger: Joh. 10. v. 30. Fad ereñ og eg erum eitt: Þad a ad skiliast, epter Guddoomenum, So sem hñ er samrar Veru med Fødurnum, epter Guddoomenum, þad er, sañur Gud, so er hñ og samrar Veru med oss, epter Mañdoomenum, þad er sañur Madur, Holld af voru Hollde og Bein af vorum Beinum, eins og vor fyrste Fader sagde, Gen. 2. v. 23. Um̃ vora fyrstu Moodur, af þvi þau voru samrar Veru, þad er, Mañeskiur bæde: So ad JEsus Christur i eiñe samsettre Personu af Guddome og Mañdoome, er bæde Skapare og Skiepna: Skapare epter Guddoomenum: Þvi þu DRotteñ Grundvallader Jordena i Upphafe, og Himnarner eru þin Handa Verk seger David: Ps. 102. v. 26. Eñ Skiepna er hañ epter Mañ-

doomenum, Þvi hañ er Skapadur eins og adrer Meñ, so hañ er siaalfum sier meire, og siaalfum sier miñe, siñ Skapare og siin eigeñ Skiepna, so sem hañ liet siaalfur fraa sier siina Saalu, og took hana aptur, Joh. 10. v. 18.

Hefur Christur adra Saal helldur eñ Guddoomeñ?

Ad soñu hefur hañ: Añars være hañ ecke fullkomeñ Madur; Þvi Saaleñ er þad sem giører Mañeñ ad Mañe; Añars være hañ eckert af Kvikindunum. Bæde Saal og Liikama hafde Christur af siñe Moodur, eins og adrer Meñ af siinum Forelldrum. Þad sem syndgad hafde, þad sem Endurleysast ætte, þad hefur hañ uppaa sig teked, og samteingt Guddoomenum i eiñe Persoonu; Eñ Saaleñ hafde hvad mest syndgad, og stoornad Liikamanum til Syndareñar; Þvi þurfte hun og hvad mest Endurlausnar vid, þvi hefur hañ og teked hana i Samfelag Guddoomsens, og lided aa heñe; Og hier ad auke seger Christur, Matth. 26. v. 38. Miin Saal er hrygg allt til Daudans, eñ Guddoomtreñ kañ eige ad hryggiast, Þvi Gud er alleina Sæll. Þvi

Þvi steñdur þetta hier ser i Lage i Lutheri Utleggingu
um̃ Christ, Ad Hañ Sie Miñ DRotteñ,
Er eige Gud Fader og H. Ande og so
miñ DRotteñ?

Ad vijsu er øll Guddoomsens Preñing bæde þiñ og allra Hluta DRotteñ, þad er; allar skapadar Skepnur, jafnvel Diøfulleñ og hañs Einglar, so vel sem Fordæmder Meñ, eru under hañs Vallde; Eñ soddañ Herradæme er eige hier meint, þar þu nefner JEsum Christum þiñ DRotteñ, Helldur soddañ Forræd, so sem þegar eiñ kauper eiñ Hlut, sem eige var ædur hañs, sier til Eigeñdooms: Bæde þu og aller Meñ voru ædur under Diøfulsens Vallde, og under Guds Reide, og ættu eige añars Urkoste, eñ ad kveliast med Andskotanum Eilijflega i Helvijte, og ad vera Þrælar hañs og Syndareñar, wtrekner fraa Gude og hañs Auglite; Fraa þessum Þrældoome, hefur Christur frelsad þig og alla Meñ, og giørt oss ad siñe Eign, eñ teked oss af Andskotans Hende, og af Guds Reide. Vallde: Þvi er hañ sier i Lage vor DRotteñ: Og þvi seger Lutherus i Utlegginguñe yfer þessa Grein, Ad hañ sie miñ DRotteñ, sem mig glatadañ og fyr-

erdæmdañ Mañ hefur afrekad, Endurleyst og fresad, fra Daudanum og Diøfulsins Vallde.

Med hverin hefur Christur Endurleyst mig?

Pad seiger Lutherus med St. Peturs Ordum: 1. Pet. 1. v. 18. Eige med Gulle nie Sylfre, helldur med sijnu Heilaga og Dyrmæta Bloode.

Hefur hañ ecke añad uñed mier til Sælu-hiælpar og Myskunar?

Hañ hefur ad søñu; Eñ Lutherus nefner þetta alleina; Pviad þar i er foolgeñ Endurlausnar-Verksens Fullkomnan, ad hañ wthellte sijnu Bloode a Krossenum, og liet sitt Lijf fyrer oss: Pvi sagde DRotteñ under sitt Andlaat, þa hañs H. Blood var wtruñed, so hañ eige kuñe epter Naatturlegum Hætte leingur ad lifa: Pad er Fullkomnad. Po skalltu vita, ad allt þad, sem hañ hefur giørt sijdañ hañ fyrst var geteñ i Moodur-Lijfe, þad þienar til vorrar Endurlausnar, og þvi er hid sierlegasta upp taled i þessare Trwar-Grein: 1. Hañ er gieteñ af H. Anda, og fæddur af eiñe Jomfrw, Hreiñ og Heilagur, og fraaskileñ Syndurunum, Hebr. 7. v. 26. So ad

þo

þo vier sieum gietner og fæddder i Syndeñe, þa hefur hañs allra helgaste Getnadur og Fæding burtteked Saurugleika vors Getnadar og Fædingar; So ad Sekt Uppruna Syndareñar (sem epter voru syndumspilltu Edle fylger hverium Mañe, sem af Adam er komeñ) hun verdur i burtutekeñ, eñ vier verdum hæfeleger fyrer Christi Dauda i Skijrneñe, til ad þiona Gude, i Endurnyungu Lijfdagaña. 2. Þar hañ er nu so Geteñ og Fæddur eins og öñur Mañeskia, Ebr. 5. v. 2. Þo aan Syndar, þa er vitanlegt, ad hañ er ad allre Hegdan fundeñ sem Madur, Phil. 2. v. 8. Hañ aat og drack, hañ vakte og svaf, hañ sat og stood, hañ talade og þagde eins og adrer Meñ; Hvar med hañ helgad hefur allar vorar Natturlegar Athafner, sem vegna Syndareñar, sem i oss byr, eru Ohreinar og vanhelgar i Guds Auglite. 3. Hañ er pijndur under Pontio Pilato, einum heidnum Lands-Doomara, af Heidingium; So hañ oss Heidingia-Börn, sem vorum aan Guds i Heimenum, og fiarlæger Israels Borgar-Rette, giorde ad Guds Börnum, Eph. 2. v. 12. 4. Hañ

er

er Kroßfestur; So ad vier getum Kroßfest vort Hollid med þess Girndum og Tilhneigingum, Gal. 5.v. 24. Þad er: Ad vier getum dempad Syndsamlegar Girnder Holldsens, sem mootstrijda Andanum. 5. Hañ er Daudur; So ad hiñ Lijkamlege Daude kuñe þa ecke ad skada, sem aa hañ trwa; Þvi hañ hefur frelsad þaa fraa þeim eilijfa Dauda, med sijnum Dauda, so sem aadur er sagt. 6. Hañ er Greptradur og under Jordena komeñ, so sem Lutherus ad Orde kiemst; Þar fyrer mega og allra Christeña Maña Grafer vera eiñ Helgedoomur seger hañ; Ecke Sokum þeirra eigeñ Heilagleika; Helldur þar fyrer, ad þeir hafa daaed i Trwñe aa þañ Heilaga, Kroßfesta, Deydda og Greptrada Son Guds. 7. Hañ er Ofañstijgeñ til Helvijtis, til ad binda Dioful eñ og nidurbriota Port Helvijtaña, ad þau megne eckert aa moote þeim, sem aa hañ trwa, Matth. 16.v. 18. 8. Hañ er Uppriseñ aa Þridia Dege So þeir, sem aa hañ trwa, skylldu til eilijfs Lijfs upprijsa. 9. Hañ er Uppstijgeñ til Himna, So hañ tilbygge oß eilijfa Vist med sier, og

wtvegade ofs H. Anda: Og 10. Situr hañ til Hægre Handar Guds Fodurs Almœttugs, Til ad bidia fyrer ofs, og til ad birtast þar fyrer hañs Auglite, med þvi Offre, er hañ wtlagde a Krossenum, fyrer Mañkyned.

Eg veit, ad Gud hefur ecke Hendur og Fœtur eins og Madur, hvad er þad þa, ad sitia til hañs Hægre Handar?

Ad vijsu hefur hañ eige Hendur nie Fœtur; Þvi hañ er eiñ Ande; Joh. 24. v. 24. Eñ þetta verdur sagt um̃ Christ epter þeirre Mañdoomlegu Nœtturuñe, og er talad epter Plagsid Gydinga, er settu þa sier a hœgre Hønd, er þeir virdtu nærst sier, eins og Salomon, er hañ sette Moodur sijna sier til Hægre Handar; 1. Reg. 2. v. 19. Þvi merker þetta, ad Christur, epter Mañdoomenum, sie nærstur Gude, ad allre Dyrd og Vellde, og eingeñ Munur hiñar Guddoomlegu og Mañdoomlegu Nœttuuruñar; Nema sa, ad þad sem hin Guddoomlega hefur af siælfre sier fyrer alla Eillijfd, þad hefur hin Mañdoomlega ødlast i Tijmanum fyrer Jbwd Guddoomsens.

Hef-

Hefur Guds Sonur alla Meñ Endurleyst fraa Eilijfre Fordæmingu?

Ad sönu hefur hañ; Pvi seger Johañes, Ad hañ sie Forlijkun fyrer allar Veralldareñar Synder, 1. Joh. 2. v. 2.

Verdur þa eingeñ Fordæmdur?

Ad vijsu verda marger Fordæmder, þvi verr.

Hvers vegna?

Pad seger Christur sialfur hiaa Johañem med þessum Ordum: Eñ hver sem ecke trwer, hañ er þegar dæmdur, af þvi hañ trwde ecke aa Nafn Eingetens Sonar Guds, Joh. 3. v. 18. 36.

Er þa Vantrweñ Einasta Orsøk til Fordæmingar Mañsens?

Hun er hin hellsta, eñ þo ecke hin einasta; Pvi ad Søkum þess, ad Synder hiña Vantrwudu verda eige fyrergefnar, fyrer Forþienustu Guds Sonar, aa hvern þeir trwa eige, og ei medtaka þeir hana med Trwñe, þa verda þeir og dæmder, epter sijnum vondum Verkum.

Eñ þeir, sem hoolpner verda, verda þeir hoolpner fyrer sijn Good-Verk, edur eru Good-Verkeñ aasamt Trwñe Orsøk til þeirra Rettlætingar?

Eingañveigeñ: Helldur alleina fyrer

Trw-

Trwna aa Christum, so sem Paulus vottar, Rom.3.v.28. Vier trwum, ad Madureñ verde hoolpeñ fyrer Trwna, aan Verkaña; Þvi eingeñ kañ þau Verk ad giøra fullkomlega, sem i Logmaalenu bodeñ eru; Og vor bestu Verk eru jafnvel Synd i Guds Auglite, vegna sijns Ofullkomlegleika; Nema þau helgud verde fyrer Christi Forþienustu.

Hvar fyrer aa þa Good-Verkeñ ad giøra? Þvi aa epter Logmaalenu ad lifa?

Pad keñer Lutherus þier i Utlegginguñe yfer þessa Adra Grein Trwareñar, þar hañ seger, til hvers ad þiñ DRotteñ Christur hafe Endurleyst þig af øllum Syndum, Daudanum og Diofulsens Vallde, sem er til þess: Ad þu siert hañs Eigeñlegur, edur allur; Eñ ef þu ert hañs Eigeñlegur, þa aattu eige aptur aa ny ad giøraft Satans Þræll, med vijsvitande Syndum; Guds Sonur hefur frelsad þig fraa Syndeñe, eñ ecke til þess, ad þu skuler edur meiger syndga: Hañ hefur Endurleyst þig, so þu lifa skuler, under hønum, i hañs Rijke, og þioona hønum i Heilagleika og Reinleyste, alla þijna Lijf-

Daga

Daga; Hvad skiliast ad fyrst um̃ hans Naadar-Rijke hier a Jørdunẽ; Pad skedur med Goodum Verkum, sem hañ boded hefur i Løgmaalenu, þott þau sieu Ofullkomeñ, og þu geter ecke aldeilis vid Syndeñe giort; Og ef þu giører svo, og trwer a hañ, þa muntu hønum eillijflega þioona i hans Dijrdar-Rijke, i fullkomnu Rettlæte, Sakleyse og Farsælld.

Hvad merkia þesse Ord, sem standa i greindre Utleggingu Lutheri;

Lijka sem hañ er sialfur af Daudanum Upprisen̄, Lifer og Rijker ad Eilijfu?

Pad seger Paall Postule med þessum Ordum: Rom. 6. v. 4. Vier erum jardader med Christo, fyrer Skijrnena, til Daudans, ad lijka so sem Christur er uppvakeñ fra Daudum, fyrer Dyrd Fødursens, so eigum vier ad gaanga i Endurnyungu Lijfdagaña, Pad er: Vier eigum ad lifa Heilaglega, so sem hañ lifde, þo eige getum vier þad so fullkomlega; Eñ þesse Ord: Lifer og Rijker ad Eilijfu, þau miña þig a, ad so sañarlega sem Christur er daeñ fyrer þijnar Synder, og uppriseñ þier til Rettlætis, og iñgeingeñ i sijna Dyrd, so

so muner þu og eilijflega med hønum Lifa og Rijkia: Eg vil og þess geta, ad hver sem trwer rettelega a Guds Son, han̄ aastundar ad giøra þad Gud hefur boded, Og hver sem þad eige aastundar, han̄ maa vera viss um̃, ad han̄ hefur en̄ þa eige hina rettu Trw, Þess vegna aattu ad giøra þad sem Gott er, eige einasta til ad auglijsa Trw þijna fyrer Mønnunum, helldur og ad giøra sialfan̄ þig fullvissan̄ um̃, ad þu siert Rett-trwadur; Þad kallar Postulen̄, 2. Pet. 1. v. 10. Ad giøra sijna Utvalningu vissa, So er þa Meiningen̄ af þessu: Ad Good-Verken̄ kun̄a eingan̄ ad Rettlæta fyrer Gude, þvi þau eru Ofullkomen̄, og Syndernar eru miklu fleire en̄ þau, En̄ þau fylgia jafnan̄ Trwn̄e, hver ed alleina Rettlæter, En̄ þau Vondu eru fullnoog til ad Fordæma, þar sem þeirra Sekt ecke burttteken̄ verdur, Søkum Vantrwaren̄ar.

Kun̄e Gud ecke ad fyrergiefa Man̄enum Syndena, Þo eige hefde Christur pijnst?

Adur en̄ eg svara hier til þessa, þa byrjar hier ad athuga, ad Guds Rettlæte, han̄s Almætte, og han̄s Myskunseme, og

Speke er allt hid sama, Pvi i Gude er eingeñ Adgreining, helldur hefur hañ opeñberad sig oß faafroodum Mañeskium, med þessu Orda Tiltæke i Ritninguñe, ad vier hañ þeckia skylldum epter þeim Vitsmunum, sem hañ oß gefed hefur, ad so miklu Leite, sem oß til Saaluhiaalpar nægia max; Pvi svara eg uppaa þessa þijna Spurningu: Ad Gud kuñe ecke ad forlaata Syndena aan þeß, ad hañs Rett læte yrde fullnægt, þvi þad sama hefde nid urbroted, og ecke uppbygt hañs Almætte, sem er hid sama og Rettlæted, Eñ fyrer þvi ad Giæska hañs og Speke eru og hid sama sem Almætted og Rettlæted, þa took hañ þetta Raad (sem eingeñ Madur kañ ad skynia, nema upplystur af Heilögum Anda) ad laata siñ Eingeteñ Son taka aa sig Mañdoom af Adams Kyne, i hverium aller syndgudu, þvi seger Ritningeñ: Joh. 3. v. 16. So elskade Gud Heimeñ, ad hañ wtgaf siñ Eingeteñ Son, uppaa þad, ad aller þeir, sem aa hañ trwa, fyrerfarest ecke, helldur hafe Eilijft Lijf, og ber þier ad Hugleida þad, ad hefde Gud kuñad med ødru Moote ad forlijka Heimeñ vid sialfañ

añ sig, þa hefde hañ eige lated siñ Einget-eñ Son, i hverium hønum alleina vel þock-nast, lijda so herfelegar Pijsler fyrer sijna Ovine, so sem Christur fyrer oss lided hefur.

Hvørneñ kemur þad til, ad Christi Daude var so dyrmætur i Guds Auglite, ad Lausnar-Gialld Syndugra Maña vard eige med ødru Moote loked?

Hugleid, ad þad sem Syndugt Holld hafde tiluñed, þad vard af Syndlausu Hollde ad Endurgialldast, þo med þvi mote, ad þad være komed af þvi sama Hollde, sem Syndgad hafde; Holld kalla eg hier bæde Saal og Lijkama, eins og Ritningeñ þad optlega kallar, so sem Gen. 6. v. 12. Allt Holld hafde fordiarfad siñ Veg; Þad eru aller Meñ; Nu took Christur uppa sig Adams Holld, af hverium Jomfru Maria var komeñ; Eñ hañs Holld, þad er hañs Mañdoomur, Lijf og Saal, voru Syndlaus, Hrein og Oflecked, og þo doo hañ fyrer alla sijna Brædur, þad er alla Adams Nidia, Saklaus og Heilagur.

Var þad noog til ad fullnægia Guds Rettlæte, ad Eiñ Heilagur Madur skyllde deya fyrer alla Synduga?

Eingañveigeñ: Þvi Guds straanga Rett-

Rettlæte kuñe eingeñ ad fullnægia, nema Gud, og þvi hefur hañs Eingeteñ Sonur, sem er Sañur Gud, Fødurnum og Heiløgum Anda ad øllu samjafn, ꝏ sig teked Mañdoomlega Náatturu, so sem Saal og Lijkame eru ein Persona, og su sama Persona, Christur, hefur lided fyrer allar Veralldareñar Synder, til ad forlijka Mañeñ vid hina Heilogu Guddoomsens Preñingu, Jaa sialfur vid sialfañ sig; Ad eiñ Heilagur Madur af Adam komeñ, hefur vilíuglega lided fyrer Heimsens Synder, þad velldur þvi, ad Lausnar-Gialldeð tilheyrer øllum þeim, sem af Adam komner eru, og koma munu, so sem være þad af þeim golldeð: Eñ fyrer þvi, ad Gud leid i sømu Persónu med Mañdoomenum, þa er þetta Gialldeð so dyrmætt, ad Gud hefur teked þad fyrer fullt i gegn øllum Veralldareñar Syndum, ad eingeñ Mañeskia munde fyrerfarast, ef aller tryðu Rettelega a Christum: Og hier sier þu, medal añara, ad hin Oñur Guddoomsens Persona er samjofn Fødurnum; Þvi nema so være, þa hefde þetta Lausnar-Gialld eige vered Jafnvæge hañs Háatignar.

Hvern-

Hverneñ ødlast Meñ, þessa fullkomnu Trw og Christum, sem þu hefur um̃talad?

Þad mun eg seigia þier i Epterfylgiande Grein.

Þridia Greineñ.

† Eg trwe aa Heilagañ Anda, Heilaga Almeñelega Christne, Samneyte Heilagra, Fyrergefning Syndaña, Holldsens Upprisu, og Eilijft Lijf epter þetta Lijf. †

Þu hefur sagt, ad H. Ande være hin Þridia Guddomsens Persoona; Eru eige Fader og Sonur eins Heilager, og eru þeir eige og Ande?

Gud er Eiñ Ande seger Johañes, Joh. 4. v. 24. Þad aa ad skiliast um̃ alla Guddoomsens Þreñingu: Þad er um̃ eiñ Gud i Þreñingu, og Þreñan i Einingu; Eñ hin Þridia Guddoomsens Persona nefnest þess vegna Ande sier i Lage, ad hañ fyrer alla Eilijfd, (med Orañsakañlegu Moote) framgeingur af Fødur og Syne; Eñ Heilagur Ande kallast hañ eige einasta þar fyrer, ad hañ er i sialfum sier Heilagur, eins og Fadereñ og Sonureñ, helldur vegna sijns Embættes, sem er ad Helga oss: Þvi so sem Fadereñ kallast Skapare, Sonureñ Endurlausnare, So er og H. Ande

HErgare kalladur; Þvi hañ hefur helgad oß, og Daglega helgar alla þaa, sem hañ medteked hafa, og vilia leidast af hønum.

Hvad er þad ad Helga?

Þu hefur heyrt ad Madureñ er Geteñ og Fæddur i Syndeñe, er saurugur og vidurstyggelegur i Guds Auglite, þad er: hañ er, Ohelgur, Barn Reideñar, Eph. 2. v. 3. Og Guds Ovinur, Rom. 5. v. 10. Þegar hañ fædest i Heimeñ Holld af Hollde, Joh. 3. v. 6. Eñ i Skijrneñe Endurgetunst vier fyrer Krapt Heilags Anda, hver ed samteingest Vatnenu, fyrer Orded, med hveriu vier skijrder verdum, og verkar þad, ad Mañeskiañ, daud i Syndeñe, Endurfædest til Andlegs Lijfs, og medtekur Andlegar Gaafur, Sem eru þessar:

1. SKJLNJNGURENN, sem af Naatturuñe ecke kañ ad skilia hvad Guds Anda er, 1. Cor. 2. v. 14. Hañ upplysest, so hañ getur þeckt Gud sier til Saaluhiaalpar. 2. VJLJENN, sem er raangsnwen og Gude fraaleitur, hañ lagfærest, og verdur hæfur til ad hlydnast hon-

honum. 3. Verkar hañ i oss TRUNA a Christum, fyrer hveria Madureñ alleina verdur Rettlætur fyrer Gude, Rom. 3. v. 28. Þetta verkar nu H. Ande i Skijrneñe, hvad vorum Natturlegum Kroptum er Omøgulegt, og þvi seger i Lutheri Utleggingu: Eg trwe, ad eg gete eige, af sialfs mijns eigeñ Kroptum, edur Skilninge, trwad a JEsum Christum, miñ DRotteñ, edur til hañs komest: Helldur hefur Heilagur Ande mig, fyrer Gudspiallaña Keñingu, kallad, Upplyst og Helgad, med sijnum Astgiøfum. Frambeiges, þegar vier so skijrder erum, Endurnyar hañ oss, og uppvekur i oss Krapta Endurgetningareñar, hveria hañ fyrst iñplantade i Skijrneñe: Hier um verdur greinelegar talad i Utleggingañe yfer Skijrnar Sacramented.

Hvar med giører hañ þad?

1. Þegar hañ tilbyr Hiortu vor Syndugra Maña, til sañarlegs Heilagleika, þar hañ verkar i oss Jdranena, med þvi: Adkleña oss ad þeckia Syndena, a miña oss, straffa oss, hræda oss med Hootan Guds Reide, ad dæma oss, so vier þeckium ad

vier høfum til eilijfs Dauda og Fordæm-
ingar uñed: Og i hvert siñ er vier fiñum
til vors Overdugleika, þa er þad hañs Ve-
rkan. 2. Þegar hañ Hughreyster þau
Hiørtuñ, sem eru sundurmareñ af Þeck-
ingu Syndaña, og Tilfiñingu Guds Rei-
de, riettlæter Syndarañ fyrer Guds Do-
ome, med þvi: Ad hañ (Syndareñ) trw-
er, ad sier verde Syndernar tilgiefnar fyr-
er Christi Forþienustu, og huggar hañ þañ
eñ, nær hñ berst vid skielfda og veika Sam
vitsku. 3. Þegar hañ med sijnum Iñ-
blæstre hneiger Viliañ til ad giøra þad siñ
Gud hefur boded, og til ad betra siñ Lifn-
ad; so nær oss flygur eitthvad þvilijkt i
Hug, þa vitum ad slijkt er eige af Natt-
urunar Kreptum alleina, helldur af þess-
um Helgande Krapte Heilags Anda. 4.
Þegar hañ i Krossburdenum stirker oss,
og hiaalpar Mattleyse vorn, so vier tøk-
um med Þoleñmæde moote Guds Hyrt-
ingu. 5. Þegar hañ i Medlætenu dem-
par i oss vondar Girnder, ad vier ei frem-
ium vijsvitande þad, sem Gude er i moote,
og varnar vid þvi, ad vier føllum i holldle-
gt Andvaraleyse. 6. Þegar hañ verkar
þad

Þad i oss, ad vier erum heiter i Bæneñe, og bidium med fullu Trauste, um̃ þaa Hlute, sem oss aarijdur, hellst i Andlegum Efnum; Og hiaalpar oss til ad bidia, sem eige vitum hvers vier bidia eigum; Og þar ad auke bidur hañ fyrer oss med Oumrædelegum Andvorpunum, so sem Paulus vottar. Rom. 8. v. 26. Og i øllu þessu er Helgun Heilags Anda Jñefaleñ; Med hverre hañ leider oss til hiñar sꝛñu Osynelegu Christelegrar Kyrkiu, sem alleina er Samneyte Heilagra, þad er riettrwadra Guds Barna. Gud Fader hefur Skapad oss, Guds Sonur hefur endurleyst oss; Eñ forgefens værum vier skapader, forgefens endurleyster, nema H. Ande hefde helgad oss. J Christi Dauda og Pijnu er oss tilbwed allt þad vier þurftum til Endurlausnareñar; Eñ sa Fiaarsiodur var huleñ, nema H. Ande hefde upplyst oss til ad þeckia hañ, og til ad færa oss hañ i Nyt; Þvi sagde Endurlausnareñ, Joh. 16. v. 7. Vid sijna Læresveina: Þad gagnar ydur, ad eg fare til Fødursins, þvi nema eg fare til Fødursins, þa kemur eige Huggareñ til ydar, eñ nær hañ kiemur

mun hñ leida ydur i allañ Sañleika. Þar af ſier þu, ad Chriſtur hefur ſied, ad vier þyrftum H. Anda med, jafnvel þoott hañ legde wt fyrer oſs Lauſnar Giallded: Þañ eñ er GUDS Raadſtøfun uñ vora Velferd; Hveria vier ſkilium eige fullkomlega, eñ eigum þo ad trwa þvi, ſem oſs er opeñberad þar uñ, i Ritninguñe.

Hvar fyrer verdur þeſſ geted i þeſſare Grein; Eg trwe Chriſtelega Kyrkiu?

Chriſteleg Kyrkia, ſem hier uñ talaſt, er Søfnudur riettt trwadra Guds Barna, er trwa aa Gud Fødur, Son og H. Anda, med ſoddañ Trw, ſem eg hefe þier aadur ſagt; Eñ þeſs vegna nefneſt hun i þeſſare Grein, ad þu ſkuler ſtyrkia Trw þijna þar vid, ad þu ſiert i Guds Chriſtne iñteken, fyrer Heilags Anda Helgan, og ſiert þeſsvegna viſs uñ þijna Saaluhiaalp, nær ſem þu deyr.

Eru þeir þa aller Chriſtner, edur i Chriſtelegre Kyrkiu, ſem eru ſkijrder, kuña Bodorden, og trwa þvi þu hefur ſagt uñ þeſſar þriaar Guddoomſins Perſonur?

Langt er fra þvi. Þar eru marger, ſem nefnaſt chriſtner, af þvi þeir eru ſkijrder, eñ mootſtrijda þo Heiløgum Anda, ſem

sem þeim i Skirneñe veittur er, og laata
hañ ei vid sig raada i þvi, ad ræckia Guds
Ord, og dempa Holldsens Girnder, sem
eru: Skam̃er og Lester, Agyrnd, Ofund,
Drambsemi, Roogur, Lyge og allt þad
sem er aa mooti Guds Vilia, og þu hefur
heyrt i Bodordunum upptaled; Þvi er eige
med þessum Ordum: Christeleg Kyrkia,
meint ein Sookn, eitt Hierad, eitt Land,
sem kallar sig ad trwa aa Christum; Helld-
ur øll Guds Børn, sem aa hañ rettelega
trwa, hvar hellst sem þau eru i Heimenum,
jafnvel þoott hverugt þecke añad edur viti
af ødru. Þetta er su Christelega Kyrkia,
sem i þessare Grein um̃getur, eñ eige allur
sa Almuge, er þu fyrer Augum ser, og sig
Christeñ kallar.

Hvad er þetta; Samneyte Heilagra?

Þad er eckert añad eñ Utlegging yfer
þesse Ord: Christeleg Kyrkia. Samney-
te Heilagra, er Samfelag þeirra sem aa
Gud rettelega trwa, ræckia hañ Bodord,
elska hañ, og trwa aa Christum, epter þvi
sem aadur er sagt. Hid sama Christeleg
Kyrkia, hveria H. Ande kallar, samansafn-
ar, hvar sem hun er i Heimenum, og i rett-
re

re Trw til JEsum Christum vardveiter, so sem Lutherus seiger i Utlegginguñe yfer þessa Grein.

Hverneñ get eg þeckt þa, sem eru i sama Bæ, somu Sookn, og sama Lande, eins og eg, hvert þeir hafa Heilagañ Anda edur ei?

Christur sagde, Matth. 7. v. 16. Af þeirra Avøxtum skulud þier þeckia þaa, þad er: Af þvi sem þeir giøra og tala, þvi ecke kañ ein Mañeskia leingra ad komast; Eñ skiptu þier eige so miked af ødrum, siaadu helldur til þess, ad þu siert siaalfur i Christelegre Kyrkiu, og þeirra Samneyte sem eg hefe aadur wtmaalad; Pad kañtu alltijd ad þeckia.

Hverneñ a eg ad vita þad, ad eg sie i Christelegre Kyrkiu, edur Samneite Heilagra?

Pesse eru Teikn þess. 1. Ef þu elskar Gud og hañs Ord, og hefur Girnd til ad heyra þad. 2. Ef þu hefur Glede af þvi, ad þijnar Synder sieu straffadar, af hverium, sem þad er; Ef þu hefur Epterlaungun til ad lifa betur, eñ þu hefur hingad til lifad. 3. Ef þu reiknar þier eckert til Verdskulldunar, hvad sem þu þykest hafa gott giørt, og forsmaaer øll þijn Verk, hversu good sem þau kuña halldeñ ad vera af Møñ-

um. 4. Ef þu reiknar þad eige fyrer smæ-ar Synder, sem almeñelega eru halldnar, og berLijferni þitt daglega samañ vid Guds Bodord, og kostar Kapps um̃ ad leidrietta þad, sem aafaatt er. 5. Ef þu forlæter Ovinum þijnum af Hiarta, og geimer einga Neide hiaa þier, til þess ad þu vilier hefna aa þeim, jafnvel þoott þu giæter.

Eg trwe Fyrergefning Syndaña, hvad er þad?

Þad er: Ad fyrst Christur hefur pijnst fyrer þig, og H. Ande hefur so upplyst þig, ad þu þecker Syndernar, og ydrast þeirra, þa veitst þu og, ad þijnar Synder eru kvittar, nær þu trwer aa Christum; Eñ under eins aattu ad fyrergefa þijnum Naaunga allt þad hañ hefur þier moote giört, ef þu villt hafa þijnar Synder kvittar hia Gude.

þetta er þungt.

Þad verdur þu þo ad giöra, ef þu villt eignast eilijft Lijf; Þvi Fyrergefning Syndaña verdur undañ ad ganga; Og þvi seger i þessare Grein: Eg trwe Fyrergefning Syndaña, og Eilijft Lijf.

Getur þa Madureñ eige eignast Eilijft Lijf, nema hañ forlaate þeim, sem allt illt hafa moote hönum giört?

Eingañveigeñ. Slijn

Syn mier þad af þvi Guds Orde, sem þu ert ad tala so tijdt um̃.

## Þad skal eg giøra i Utlegginguñe yfer þa fimtu Bæn i Fader Vor.

Legg mier wt þesse Ord: Og trwe Upprisu Holldsens.

Hollds ens Upprisa skedur aa sijdarsta Dege, þegar DRottenñ JEsus kemur i Skyum Himensens, til ad dæma lifendur og dauda: Þaa munu Saalernar aptur samteingiast Lijkømum þeirra daudu; Eñ þeir sem þaa eru lifande aa Jordu, munu snarlega um̃skipteleger verda, so sem Paulus vottar, 1. Cor. 15. v. 51. Eñ aller Meñ, lifande og dauder, munu uppricker verda i Lopted, til moots vid Doomara alls Hollds, JEsum Christum, 1. Teß. 4. v. 17. Hver ad, epter Mañdoomenum, hefur Valld þeged, af Gude til ad dæma allt Holld, Joh. 5. v. 17. Þad er allar Mañeskiur: Þa munu þeir, sem trwad hafa a Guds Son, fyrer Krapt JEsu Christi Forþienustu upprijsa til eilijfrar Glede, og sijdañ um̃ Allder Allda med Gude vera; Eñ hiner Ogudlegu og Vantrwudu til eilijfrar Fordæmingar, og pijnast eilijflega med

med Dioflenum, og øllum hans Arum, Joh. 5. v. 29.

Munu hiner ſømu Lijkamer, ſem doou, Uppriiſa?

Ad viiſu hiner ſømu; Pvi vier ſkulum aller byrtaſt fyrer Doomſtoole DRottens, ſeger Poſtulenn, Rom. 14. v. 10. Og pad er rettviiſt fyrer Gude, ad hinn ſame Lijkame, ſem Madurenn dooi, og ſama Saal, ſem ſyndgad hefur, edur og gott giørt, ſkule par epter dæmaſt, 2. Cor. 5. v. 17.

Nu ſeger þu, ad eingenn verde Saaluhoolpenn fyrer pad, hann gott giører?

Pad er ſatt; Enn fyrer Guds Doome reiknaſt peir ad hafa allt gott giørt, ſem trwad hafa a Chriſtum, og i peirre Trw eru burt dauder af Heimenum: Pvi peirra Synder eru fyrergefnar fyrer hans Forpienuſtu; Og hafe peir nockud gott giørt, po pad ſie ofullkomed, pa verdur pad fullkomnad fyrer hina ſømu Chriſti Forpienuſtu.

Nu heyre eg po, ad Madur ſkal ſtanda Reikning Af hverin onytiu Orde i Doomenum, hver mun pa hoolpenn verda?

Pad er ſatt; Enn pegar eg a ad ſtanda Reikning af Ordum og Verkum i Doomenum og verd adſpurdur: Hefur pu ottaſt

og elſkad Gud, ſem bored hefur? Hefur þu eige lagt hañs Nafn vid Hiegooma? Hefur þu helgad hñs Hvijldardaga? Og ſo framveiges; Þaa ma eg ſvara: Eckert hefe eg giort af þvi ſem Gud boded hefur, ſo ſem ber, eñ þraalega þad hañ bañad hefur; Eñ eg hefi trwad a hañ, ſem Løgmaaled hefur uppfyllt, og med ſiñe Forþienuſtu riettlætt mig raanglaataň. Og nun ſw Afbotun ad fullu gillda fyrer Guds Doome.

Hverneñ er þad møgulegt, ad þeir Lijkamer Daudra Mañа, ſem verda Fiſkunum (hverier aptur verda af Moñum etner) og Villudyrum Ad Fædu; Edur þegar Madur Mañ etur, ad þeir ſømu, ſege eg, kuñe upp aptur ad rijſa?

Þad ſem omøgulegt er fyrer Moñum, þad er møgulegt fyrer Gude, Matth. 19. v.26. Hverneñ var þad møgulegt, ad Gud kyñe ad ſkapa alla Hlute af eingu, og þu trwer þo þvi, fyrſt Gud hefur þad talad i Ritninguñe; Þvi ſkyllder þu ecke hinu trwa, ſem Gud hefur og openberad i ſømu Ritningu. Og ef nockrum þyker þad omøgulegt, ad Lijkamer Framlideña upprijſe, þa horfe hañ a ſiaalfa Naatturuna, hvørneñ DRottеñ uñbreiter þeim ſynelegu

gu og þreifanlegu Hlutum, so ad sumer
verda ad aungvu fyrer vorum Augum, og
þo varer og vidhellst þad Efne, sem þeir
voru giørder af; Añars yrde Verølldeñ
toom, ef þad forgeinge og yrde ad eingu,
sem þeir Hluter voru giørder af, er vier
siaaum eydast: So sem Vatned, nær þad
þornar; Jørdeñ, er hun blæs og eydest; Eñ
hvar þad lender, edur hvad af þvi verdur,
veit sa eiñ, sem Naatturuna skapad hefur;
Þvi skyllde hañ þa vanta Vijsdoom til ad
þeckia, hvad af Mañsens Lijkama verdur,
edur Maatt til ad safna hønum samañ apt-
ur, og ad skilia sierhvers eins Lijkama fraa
ødrum Hlutum, i hverium hañ bued hefur
allt til Uppristu Tijmans. Paulus hefur
eitt aagiætt Dæme her um̃, 1. Cor. 15. v.
36. Er hañ seger: Þu Vitfirringur, þad
þu saaer, lifnar eige, neina þad deye, i hver-
ium Ordum ad hañ ei meinar, ad Upprisa
frañlideña sie ad øllu lijk Saadverkenu:
Helldur syner hañ ad nockud þvilijkt sie i
Naatturu Hlutaña; Og er þetta Dæme
miøg aagiætt, þar alleina Korned verdur
nidursaad, og þad fwnar i Jørduñi, þar
til, ad þess Rotnan verdur ad añars Upp-

risu, med laangtum meira Avexte, eñ þeg-
ar þad sood var; Og saa sem þad alldrei he-
yrt hefde, hañ munde eige sijdur undrast
þar yfer, helldur eñ yfer Upprisu Framlid-
eña, og er margt þvilijkt i Naatturuñe;
Eñ fyrer þvi, ad þad skedur daglega fyrer
vorum Augum, þa finst oss eige þar til, so
sem nockurskonar Furduverks, jafnvel þo
vier eige skilium, hverneñ þad tilkemur;
Eñ vier høfum eingañ sied upprijsa, þvi
syneft þad sumum furdanlegt; Eñ eg vil
seigia: Þad er eingu meira Kraptaverk ad
uppvekia Dauda, eñ ad laata Mañ fædast
af Mañe. Ad sijdurstu er þad stoor Fa-
vitska fyrer christna Meñ, ad efast um upp-
risuna, þar þeir trwa ad Christur sie upp-
riseñ, og hafe uppvaked hina Daudu a sijn-
um Hiervistar døgum: Eñ um þañ, er þvi
eige trwer, um hañ vil eg segia med Paulo,
1. Cor. 15. v. 17. Ad hañ sie eñ þa i sijn-
um Syndum.

Hvers vegna verdur Eilijfs Lijfs geted i þessare
Grein Trwareñar?

Þviad vor Saaluhiaalp fullkomnast
fyrer Krapt og Verkaner H. Anda. For-
gefens værum vier skapader, nema vier væ-
rum

runn Endurleyster, so sem ædur er sagt, og forgefens endurleyster, neina vier og værum Helgader fyrer Anda Drottens, hvern Christur hefur sendt oss af sijnum Fodur, til ad leida oss i allañ Sañleika: Pad er, ad kieña oss ad þeckia Gud vorn Skapara, JEsum Christum vorn Frelsara, og siaalfañ sig, sem er vor Helgare og Huggare, og vor Talsmadur hiaa Fodurnum. Pessa Fullkomnan vors Saaluhiaalparverks útretter H. Ande, þar med, ad hañ endurfæder oss i Skijrneñe; Hvar vier verdum medtekner i Guds Saattmaala, upplyser oss, verkar i oss Ydranena, Trwna, og Astundun til Goodra Verka, og þañeñ leider hñ oss til Samneytis Heilagra hier i Lijfe, sem er hin saña Christelega Kyrkia; Og nær vier hiedañ forum, safnar hañ oss til hiñar Sigrehroosande Guds Kyrkiu a Himnum, hvad ad er hid eilijfa Lijf, sem um er geted i þessare Grein; Hveriu aller Meñ eiga ad trwa, og epter þvi ad vænta, hversu illt sem þeir lijda meiga i þessum Heime; og fordast ad hryggia Heilagañ Anda, med Vantrw, Hyrdulense edur vondum Verkum; So þeir misse eige þetta

 Lijf,

Lijf, sem þeim afrekad er med Guds Sonar Bloode, og uñ hvert Guds Ande gioret alla þa vissa, sem ecke mootstanda hønum.

Hvilijkt er þetta Eilijft Lijf?

Þad er so Ogrijpañleg Sæla og Ounrædelega mikel, ad þar fær eingeñ Syndug Twnga Ordum ad komed, og eckert Hugskot so ímyndad sier, ad þad kome i nockurn Samjøfnud vid heñar Yferburde; Þvi seger Paulus: 1. Cor. 2. v. 9. Ad þad hafe ecke Auga sied, og ecke Eyra heyrt, og ei hafe þad i nockurs Mañs Hug edur Hiarta komed, hvad Gud hafe þeim tilbwed, sem hañ elska. Og hañ sem var Uppnumeñ i Þridia Himen, hañ segest 2. Cor. 12. v. 4. Hafa heyrt þar Outsegiañleg Ord, sem eingeñ Madur fære wttalad; Og Petur kallar þad Ounrædelegañ Fognud. Og i einu Orde ad segia: Uñ þessa Dyrdar-Vist verdur ei talad med ødru Moote, eñ med þeim Ordum, sem H. Ande sialfur hefur lagt Spamoñunum og Postulunum i Muñ, sem er: Ad vier muunum sia Gud Auglite til Auglites; 1. Cor. 13. v. 12. Vier munum verda Einglunum jafner; Matth. 22. v. 30.

Og samlijker JEsu Chrsti Dyrdlegum Lijkama ; Phil. 3. v. 21. Vier munum skijna sem Sool i Rijke vors Fødurs ; Matth. 13. v. 43. Par mun eingeñ V i lla verda i Skilningenum, helldur munum vier peckia, so sem vier peckter erum ; Eñ Villieñ mun aldeilis Heilagur verda, og ecke añad girnast, eñ ad gledia sig i Gude; Og dæst ad hañs Vegsemd: Pvi Paulus seger um̃ JEsu Brwde, sem er hañs Sigrehroosande Christne æ Himnum, ad hun sie Dyrdleg, hafande hverke Fleck nie Hrucku, edur nockurt pvilijkt. Eph. 5. v. 27. J einu Orde ad segia: Po allt veralldlegt Medlæte mætte hladast æ eiñ, og hañ mætte breita til hvern Dag, epter pvi sem hañ villde fyrermæla, pa være pad Mootlæte ad reikna, hiaa pessare eillijfu Dyngd Dyrdareñar, 2. Cor. 4. v. 17. Hvad audsied er af peim, sem hafa yfergefed allañ tijmanlegañ Munad, og polad hersekgustu Pijsler, i peirre Von, ad ødlast hana; Pvi ef Fæangelsed er pañeñ, Hvilijkt mun pa Rijked vera ?

Hverneñ get eg orded hluttakande pessarar Sælu ?

Med pvi moote sem ædur er sagt, ad pu

trwer a Gud, og hañ, hañ sende, JEsum Christum, Joh. 17. v. 3. Og laater stiorna þier af Heiløgum Anda, til ad giora þad sem Gud hefur skipad i Løgmaalenu, epter þvi sem þier er møgulegt.

Hverneñ fæ eg þad giørt, þar eg er hneigdur til alls ills?

Þad fær þu giørt med sijfelldre Astundan, og alvarlegre og heitre Bæn til Guds, þvi aan hañs megnar þu eckert, Joh. 15. v. 5.

Hverneñ aa eg þa ad bidia?

Þad keñer eingeñ so vel, sem JEsus, þiñ Endurlausnare, med þeirre Bæn, er hañ kiende sijnum Læresveinum ad bidia med, Luc. 11. v. 2. Hveria þu kant, og heiter Drotteñleg Bæn, i hverre allt þad er iñefaled, sem vier þurfum ad bidia Gud um, bæde Saalar og Likamans vegna.

Eg skil eige þessa Bæn, legg mier hana wt?

Þad skal eg giora, epter þvi sem eg rettast veit af Guds Orde.

les hana þa?

† Fader vor, þu sem ert a Himnum, helgest þitt Nafn; Tilkome þitt Rijke; Verde þiñ Vilie, svo a Jørdu sem a Himne; Gief oss i Dag vort daglegt Braud; Og fyrer-

fyrergef oss vorar Skullder, so sem vier fyr ergefum vorum Skulldunautum ; Og eigeleid þu oss i Freistne ; Helldur frelsa oss fra Illu. †

Þu hefur i Tveimur fyrerfarande Pørtum Christelegs Lærdooms heyrt hvad þu skyllder giøra af Bodordunum, og hvad þu skuler trwa af þeim þremur Trwargreinum. En fyrer þvi, ad eingen kan Bodorden ad hallda fullkomlega, søkum Veikleika Holldsens; En Diøfullen æstu ndar Dag og Natt ad stela Ordenu ur vorum Hiørtum, so ad eige skulum vier trwa og verda hoolpner, Luc. 8. v. 12. Og þar ad auke er Heimuren, hver ad er Satans Pienare og Eyrendesreke, i þvi, ad spilla vorre Sææluhiaalp a allar Lunder, med illum Dæmum, sijnum Fortølum, og Underferle; En vor Syndumspillta Nattura er hneigd til alls hins illa ; Þa er þad vijst, ad vier a eingan Hatt faaum Mootstødu veitt þessum so sterkum og slægum Ovinum ; Nema vier niootum Kraptar af Hædum, fyrer hans Skulld, sem Heimen hefur sigradog dæmt, og wtkastad Heimsens Høfdingia, JEsu Christi; Þvi er oss einsætt og omissande, ad þreita ydugleg a vid Gud med

Bæneñe, ad hañ vilie vera Krøptugur i vorum Breiskleika, so vier faaum Mootstødu veitt, og Sigrenum halldeð; Eñ fyrer þvi, ad þad athugar eige hver Madur, hverfu omissande ad Bæneñ sie, þa vil eg med faam Ordum syna, hvad osß eige ad hvetia til ad ydka hana kostgiæfelega.

Seg mier, Hvad er þa þad helsta?

1. Eitt hefe eg sagt allareidu i næsst fyrerfarande Grein, sem er: Ad Omøgulegt er Dioflenum, Holldenu og Heimenum ad mootstanda, aan Bænareñar. 2. Añad er þad, ad Gud hefur sialfur skipad, ad bidia sig, so sem allvijda maa i Ritninguñe lesa; Þvi ad bidia, þad er, ad aakalla Guds Nafn; Og þvi er Bæneñ ein Grein af þeirre Guds Nafns Dyrkun, sem osß bodeñ verdur i hiñe Fyrre Bodorda Tobluñe; so ad hañ sem hana forsoomar, hañ syndgar stoorlega þar aa moote, og þad i Strijd vid sialfañ sig; Þvi hañ ræner sig þeim Astgiøfum, sem Gud munde hønum añars veita: Þar fyrer skalltu eige laata nockurn Hlut hindra þig fraa ad bidia; Og eige þijnar eigeñ Synder, hverfu stoorar sem þær eru; Þvi hañ hefur skipad øllum sig

ad

ad bidia, og sagt Joh. 6. v. 37. Fortaks-
laust, ad hvern sem til sijn kiæme, vilie hañ
eige fraa sier reka: Eñ þu kañt ecke ødru-
vijse til hañs ad koma, eñ i eiñe audmiwkre
og ydrande Bæn; Og þess syndugre sem
þu fiñur þig ad vera, þess meire Þørf hefur
þu ad bidia: Þvi hiaa hønum Einum er
Fyrergefning Syndaña, Um̃ hveria jafn-
vel aller Heilager þurfa hañ ad bidia, Ps.
32. v. 6. Ad señu voru Petur og Paull
miklu heilagre eñ þu; Eñ Guds Bodord
er eins Heilagt fyrer þig, sem þaa; Og Gud
lijtur ecke i Bæneñe til Mañseus Heilag-
leika, helldur til sijns Bodords, og til Chr-
isti Forþienustu, i hvers Nafne bæde Rett-
læter og Synduger bidia hlioota, ef þeir
skulu Bænheyrder verda: Þar fyrer skall-
tu og eige Bæn þijna lijtels virda, nær hun
frañkemur af trwudu Hiarta, og gloo-
ande Anda; Eige vegna nockurrar þiñar
Forþienustu; Þvi hun er eingeñ i þessu,
helldureñ i Ølmusugiørdunum, edur ød-
rum Goodum Verkum, sem Gud hefur
boded; Helldur þess vegna, ad Gud hefur
skipad þier ad bidia, og ad dyrka sig med
Bæneñe, So sem þesse Davids Ord lioos-

lega votta: Ps. 50. v. 15. Akalla þu mig i Neydeñe, Eg skal Bænheyra þig, eñ þu skallt vegsama mig. Vit þvi fyrer vijst, ad Gud hefur þier eckert boded, sem eige verde þier ad Synd, ef þu þad forsmæer, eñ til Rettlætes reiknad, ef þu þad giører i Trwñe, og af Hlydneñe vid Gud; Og þo Trweñ sie veik, og Andeñ eige so heitur, sem þu villder, þa lææt þier nægiast hañs Naad, hañs Kraptur er i breiskum maattugur, 2. Cor. 12. v. 9. Og þar ad auke seger Paulus oss; Rom. 8. v. 26. AdAndeñ, (þad er Heilagur Ande) hiaalpe Maattleyse voru, og bidie fyrer oss med Ouñrædelegum Andvørpunum: Þar fyrer maattu i Krapte þessa Bodords, Ohræddur framkoma fyrer Gud i Christi Forþienustu Nafne, til ad bidia um̃ hvern Hlut, sem þier aarijdur, og eige er Guds Vilia aa moote, Efande um̃ eckert, Jac. 1. v. 6. Þvi hefde hañ ei viliad þig Bænheyra, munde hañ alldrei hafa skipad þier ad bidia. 3. Þad Þridia, sem oss aa ad knya til ad bidia, eru Guds Fyrerheit, þar hañ seger: Ps. 50. v. 15. Akalla mig aa Degenaydareñar, og skal eg frelsa þig, eñ Dagur Neyd-

Neydareñar, er hvern Dag; Þvi alldrei erum vier Ohulter fyrer Ovinum vorum; Og Christur seger: Matth. 7. v. 7. Bidied og munud þier ødlast. Þvilijk Fyrerheit eru Oprjootande i Heilagre Ritningu: Skyllda eg þa hata so sialfañ mig og Saalu mijna, ad eg eige legde allt Kapp ad ad bidia hañ um̃ þad mig naudsyniar, bæde i Andlegañ og Lijkamlegañ Maata, sem eg veit, ad so er Maattugur, ad hañ getur veitt mier alla Hlute; So vijs, ad hañ veit hvad mier er fyrer Bestu; So Halldeñordur, ad fyrr meiga Himen og Jørd forgaan ga, eñ ad Eitt hañs Ord bregdest: Þvi hañ er Trwr, sialfum sier kañ hañ eige ad afneita; Og so er hañ Giæskurijkur, ad hañ hefur lofad, Ad hvers eg bid, vilie hañ þad Bænheyra. Joh. 16. v. 23. Trwer þu nu eige þessum Guds Fyrerheitum, þa haf þad fyrer satt, ad so sem þu giører stoora Synd i þvi, ad bidia ecke, so giører þu høñum eñ þa stærre Oriett, i þvi, ad trwa ecke þvi, hañ lofad hefur; Þar hañ segest vilia Bænheyra þig, og þu væner hañ Lyge, med slijku Vantrauste.

Nu veit eg ecke, hvørneñ eg aa ad bidia, So sem eg hefe hier aadur sagt?

Eg hefe sagt hier og aadur, ad þad keñer eingeñ so vel sem Christur, i Drottenlegre Bæn; Og þad maa hvad meſt ſtyrkia þig i Trwñe uñ Bænheyrſluna, ad hañ hefur ad fyrra Bragde lagt hier Ord i Muñ, hverneñ þu ſkyllder bidia; So nær þu les þeſſa Bæn, med goodum Skilnínge, og med Trwudu Hiarta, og Hlydne vid Gud, þa kañ þijn Samvitſka alldrei ad efaſt uñ, ad þu hafer Rettelega beded. Sa ſem vill bidia, hañ ſkal vita hvern hañ bidur; Þad er hier tilteked med þeſſum Ordum: Fader vor, þu ſem ert aa Himnum. Hañ ſkal þeckia ſijna Neyd og Angiſt, og Þørf ſijna aa þvi, ſem hañ bidur uñ, ſo hañ verde heitur i Bæneñe; Þvi eingeñ bidur af Alvøru, ſem ei þecker hvad miked hønum rijdur aa þvi, ſem hañ bidur uñ; Eñ aa allt þad miñer þig Drotteñleg Bæn: Og þarftu eige aňañ Læremeiſtara til ad kieña þier ad bidia audmiwklega, eñ hana, ef þu hana rett yfervegar. Sa ſem vill bidia einhvers, hañ aa ad nefna þañ Hlut, er hañ bidur uñ; Þvi þott Gud

vite beſt hvers vier vidþurfum, þa vill hañ láta dyrka ſig med þvi, ad vier þeckium vora Naud, Añars þeckium vier hañ eige fyrer vorn Naudhiálpara, og ad vier nefnum þad ſem oſs áliggur, añars gefum vier eige vora Þørf til Vitundar.

Eg þarf þa ad ſkilia vel þeſſa Bæn, Þvi bid eg þig ad leggia mier hana wt?

Eg vil fyrſt tala um̄ Formáláñ, er ſo hlioodar:

† Fader vor, Þu ſem ert á Himnum. †

Hvad er i þeſſum Ordum ad athuga?

Fyrſt er þad, ad þetta Ord, FADER, merker alla Heilaga Guddoomſens Þreñingu, Fødur, Son og H. Anda, So ſem þad merker, Devt. 32. v. 6. Þar ed Moiſes ſeger um̄ alla Guddoomlega Háttign: Er hañ eige þiñ Fader, ſem hefur afrekad þig, ſá ed giørde og tilbioo þig, Og Eſajas ſeger Cap. 63. v. 16. Þu DRotteñ ert vor Fader og vor Frelſare. Þetta Nafn tilheyrer og med rettu hverre eiñe Guddoomſens Perſonu ſier i Lage: Um̄ Gud Fødur er ſiálfſagt, þar DRotteñ JEſus kallar hañ ſiñ Fødur, og vorn Fødur: Eñ Chriſtum nefner Eſajas Cap. 9. v. 6. Eilijfañ

lijfañ Fødur og Fridar-Hofdingia, og Cap. 8. v. 18. Seger hañ under Personu Christi: Siaa mig, og þau Børn, Er DRotteñ hefur gefed mier; Hver Ord Paulus Hebr. 2. v. 13. þijder uppáa Christum; Eñ ef vier erum hañs Børn, þa er augliooſt, ad hañ er vor Fader. Heilagur Ande er og vor Fader, þvi fyrſt hañ hefur Endurgeted oſs i Skijrneñe, þa er audvitad, ad hañ er vor Fader. Þeſſe Uñþeinking gagnar til þeſs, ad þegar vier komum fram fyrer Gud, i voru Bæna-Stad, þa ſkulum vier hugleida, ad vier ſtondum i Auglite hiñar Dyrdarfullu og Skelfelegu Guddoomſens Haatignar, ſem þo er ſo Giæſkurijk, ad hun vill kallaſt vor Fader, og vill vera oſs Lijknſamur, ſo ſem Fadereñ er Børnunum Myſkunſamur; Pſ. 103. v. 13. Hvad med ødru ſtirker oſs uñ Bænheyrſluna: Þvi ef vier, ſem Vonder erum, kuñum ad gefa Børnum vorum goodar Gaafur, þvi mun ecke ſaa Himneſke Fadereñ gefa þeim Heilagañ Anda, ſem hañ þar uñ bidia: Og vilie hañ gefa oſs H. Anda, af þvi hañ er vor Fader, þvi mun hañ þa ecke gefa oſs alla

Hlute

Hlute med hönum. J einu Orde ad segia: Fyrst hañ hefur skipad oss ad kalla Gud FODur i Bæneñe, þa er þad vijst, ad hañ vill oss bæde Andlega og Lijkamlega Forsorgun veita, so leinge vier erum hañs Börn, og eige med Ohlijdne og Yverwd af oss brioo tum þeña Barna-Rett, eins og eiñ Fader forsorgar þañ Son, er hañ kañast vid. Og þott vier med þessu Hugganarsamlega Fodur-Nafne, alleina avorpudum hina Fyrstu Guddoom sens Persoonu, þa lender þad allt i sama Stad; Þvi Faderen og Sonureñ er Eitt, Joh. 10. v. 30. Og Heilagur Ande framgeingur af þeim bádum, og þesser Þrijr eru Eitt, so sem Johañes vottar; 1. Joh. 5. v. 7. So ad sa sem tilbidur Födureñ, hañ tilbidur Son og Heilagañ Anda: Þo skalltu ætijd, nær þu bidur med þessare Bæn, reña Hug þijnum til þessarra Þriggia; Þu kant og eige añars, þvi hverneñ villtu fram̃ koma fyrer Gud, nema i JEsu Nafne, sem sagt hefur: Joh. 16. v. 23. Hvers þier bidied Födureñ i mijnu Nafne, þad mun hañ veita ydur; Og hverneñ vilitu bidia verduglega, nema Heilagur Ande stirke Maatt

leyse

leyse þitt, og biðie fyrer þier með Ommræde legum Andvørpunum, So sem Paulus aðkveður, Rom. 8. v. 26. Þar eingeñ kañ JEsum DRotteñ að kalla, nema fyrer H. Anda, 1. Cor. 12. v. 3. Það er: Að þeck-ia hañ fyrer siñ DRotteñ, sem hañ hafe af-rekað, Endurleyst og Frelsað, so hañ i hañs Nafne gete fyrer Krapt Arfleifðareñar, það er Guðs Sonar Anda, kallað Abba, Rom. 8. v. 15. Það er FADER. Vill-du Meñ þetta Hugleiða, þa munde ecke so margur hraparlega og gáálaust lesa Drott-eñlega Bæn, og giøra hina bestu Guðs Pioonustu, sem er Bæneñ, að hræðelegre Synd, vegna Gáleysesins og Hiegoom-legra Páánka:

Þvi kveður so að i þessare Grein: FADER Vor?

Þetta litla Orð, VOR, er hier eige for-gefens sett; Þvi 1. miñer það oss á Christelegañ Kiærleika, sem eige sijdst, i þvi auglyseſt, að þegar eg bið fyrer mier, þa bið eg fyrer øllum øðrum, eige einasta Vinum og Náungum, helldur og fyrer Ovinum mijnum; Og er þesse Amiñing nauðsyn-leg, þvi eg má vita, að eg verð ecke Bæn-heyrður, nema eg uñe øllum Møñum af

Hiarta

Hiarta alls þess, er eg bid siaalfum mier i þessare Bæn; Og þess vegna stendur sijdar i Bæneñe:

Gief oss i Dag vort Daglegt Braud.
Fyrergief oss vorar Skullder.
Eige leid þu oss i Freistne.
Helldur frelsa oss fraa Illu.

Og fyrer þvi, ad Gud vill, ad oll Christneñ, Pad er: Allt Samneyte Heilagra, skule bidia i einum Anda, þa er Bæneñ skickud þar epter med þessu Orde, VOR; Þvi ef Gud vill Bænheyra Tvo edur Þriaa, Matth. 18. v. 19. 20. Þvi mun haññ eige miklu helldur heyra Bæner alls Christelegs Safnadar. 2. Þessa Bæn lesa bæde þeir, sem Gude hafa vel þioonad, og hiner, sem hafa honum hvad mest at moote giort, eñ ydrast þo Illgiordaña; Eñ þetta Ord, VOR, syner, ad Bæneñ sie giord fyrer alla: Fyrer þa Heilogu, er so heita hiaa hinum, til þess, ad eige stære þeir sig: Eñ fyrer þa Stoor-Syndugu, til þess, ad þeir eige orvænte sier Guds Naadar; Þvi Bæneñ er giord fyrer alla, þar aller þurfa Guds Naadar eins med, og aller verda heñar nioottande, sem ydrast

og vilia læta af Syndunum; Eñ þegar eg bid fyrer øllum, þa bid eg fyrer siælfum mier; Eñ hafe eg nockud sier i Lage fyrer siælfañ mig ad bidia, hvert helldur þad er Andlegt edur Lijkamlegt; Þa má eg þad sier i Lage fyrer Gud framberа, Jafnvel þoott þad sie i þessare Grein iñefaled.

Hvad merkia þesse Ord;
Þu sem ert a Himnum?

Þau miña oss a, ad giora Adgreining a mille Guds, Sem er Fader yfer allt þad, sem Born kallast bæde a Himne og Jordu Eph. 3. v. 15. Og Jardneskra Fedra; Hvar til Christur hefur siælfur gefed oss Orsøk, þar hañ seger: Matth. 23. v. 9. conf. Malach. 1. v. 6. Þier skulud ecke kalla Fedur ydar a Jorduñe, þvi Eiñ er ydar Fader a Himnum. Eñ þetta Ord, Himen, merker eige þañ Synelega Himen, er vier Augum lijtum, helldur merker þad Guds Hættignar-Stool. Hañ er eige iñeluktur i neinum Stad, eins og skapader Hluter, helldur er hañ allstadar; Hañ er eins vel allur i hinu minsta Sand-Korne, so sem ad hañ uppfyller Himen og Jo-

rð. Hañ er jafnvel fyrer utañ Helmeñ, ſo að hañ kañ, ef hañ vill, að giøra Otal Puſund Heima, fyrer utañ þeña Heim. Hañ er eige laangt fraa ſierhverium Einum af oſs; Pvi i honum Lifum vier, Hrærumſt og erum vier, Act. 17. v. 27. 28. Þar fyrer merker þetta: Að ſaa vor Fader, er vier biðium, hañ ſie Almaattugur, Alviſs, og allſtaðar naalægur, og raaðe øllum Hlutum, bæðe aa Himne og Jorðu, ſo ſem David ſeger, Pſ. 115. v. 3. Vor Guð er aa Himnum, og giører hvað hañ vill: Og ſo ſem þetta Orð, FADER, það miñer oſs aa hañs Fødurlega Giæſku, að hañ vilie hiaalpa oſs, nær vier hañ biðium; So aamiña og þeſſe Orð: Pu ſem ert aa Himnum, alla þa, ſem biðia þeſſare Bæn, aa hañs Almætte, og Guddoomlega Forſioon, að hañ kuñe oſs að hiaalpa, um̃ allt það, er vier viðþurfum: Pvi fyrer honum er eingeñ Hlutur Omaattugur; So og jaatum vier hier með, að eingeñ vite ſo vel hvað oſs gagnar, Eður ſiaae ſo vel fyrer Raade voru, ſem hañ.

Hefur Chriſtur þa allt iñefaleð i þeſſare Bæn, ſem vier þurfum að biðia um̃, ſo að eige

 þarf

þarf fleire Bæna med ?

Allt er þad þar tiñefaled, þo eige sie þad allt a Nafn nefnt. Drotteñ seger Matth. 6. v. 7. Adur eñ hañ kende Læresveinunum þessa Bæn; Pier skulud eige stagsamer vera nær þier bidied, eins og Heidingiar, hverier ad meina, ad þeir fyrer Mælge sijna bænheyrder verde; Hvar Lausnareñ ecke meinar langar Bæner; Þvi bæde hañ og hañs Læresveinar, voru opt leinge a Bænum; Og hañ sagde þeim Epterlijkinguna um Eckiuna, og hiñ rangláta Doomara, til þess ad þeir skylldu ydugleg a bidia, so sem Lucas adkvedur, Cap. 18. v. 1. Helldur meinte hañ oþarf Fiølyrde, og Muñflapur, um þa Hlute, sem oss gagna ecke, og eige eru Gude til Dyrdar; Hvad jafnvel raadvander Heidingiar hafa athugad; Þar um talar Jacob, Cap. 4. v. 3. Segiande: Pier bidied og ødlest ecke, af þvi þier bidied illa, sem er þar til, þad þier sooed þvi i ydru Bijlijfe. Og þess vegna seger Christur, Matth. 6. v. 9. Helldur skulud þier þañeñ bidia, Þad er: Med þessum Hætte, og um þa Hlute, sem kuña ad heimfærast til þessarar Bænar; J hverre ad nefndar eru Hofudgreiner alls þess/

er hier meiged umbidia; Þo skulum vier eingañveigeñ forsmaa þau Bænarform, sem añadhvert i Ritninguñe standa; Þvi Frelsareñ took sialfur sijna sijdurstu Bæn af hinum 31. Davids Psalme: Eige helldur þær sem af Vijsum og Gudhræddum Moñum eru samantekuar, til ad bidia Kvølld og Morgna, og i adskillanlegum Tilfellum; Þvi Johañes kiende og sijnum Læresveinum ad bidia, Luc. 11. v. 1. So eru og þær Bæner Gude hvad þeckastar, sem vor Neyd og Angist þvingar wt af Hiarta voru, nær þær eru bygdar a Guds Orde.

So hliodar hin fyrsta Bæn.

† Helgest þitt Nafn. †

Hvad merker nu þetta Ord, þitt Nafn, i hiñe fyrstu Bæneñe?

Guds Nafn er bæde hañs Ord; So og allt þad, sem i þvi kent verdur: Um Guddomlega Veru og Guddoomsens Persoonur; um hañs Verk; Hañs Hattu, sem almeñelega kallast Eigeñlegleikar, so sem er: Hañs Almætte, hañs oransakanlegur Vijsdoomur, hañs Rettlæti, hañs Giæska, hañs Naadægd i øllum Stodum, hañs Myskunseme, hañs Þoleñmæde og

allt þad, sem Gud hefur um̃ sig openberad i Ritninguñe, og viliad Mañeskiuna skyn ia laata, sier til Dyrdar, eñ heñe til tijman legrar og eilijfrar Velferdar. Allt þetta skilst undir þvi Orde, GUDS NAFN.

Er ecke Guds Nafn heilagt i siaalfu sier? Þvi skulu Meñ þa bidia, ad þad helgest?

Ad söñu er Guds Nafn i siaalfu sier heilagt so sem Lutherus seger, so eingeñ kañ þar aa ad bæta, edur fraa ad taka: Þoott öll Veröllldeñ lastade Gud, þa er hañ eins Heilagur, eins Sæll, og eins Dyrdlegur; Eñ vier bidium i þessare Bæn; Ad þad Helgest medal vor, og verde af oss Helgad.

Hvad er þad ad Helga?

Þad er ad giöra og hallda vegsamlegañ: Þvi byriar þier ad athuga, ad vier bidium i þessare Bæn, ad Guds Nafn helgest med tveñu moote, medal vor.: Fyrst ad hañ vilie giöra sig siaalfañ vegsamlegañ i oss og medal vor; Og i añañ Maata, ad vier mættum hallda hañ vegsamlegañ, þad er: Heidra, lofa og prijsa hañ, med Hiartanu, Muñenum og Verkunum.

Hvernin̄ helg ar edur vegsamar Gud siaalfañ sig i oss, og medal vor?

1. Þad giörer hañ, eige einasta þegar hañ

lætur sitt Ord predikast hreint og klaart; I hveriu vier meigum þeckia, hversu Dyrdlegur, Riettlaatur, Almaattugur og Giæskuriskur han̄ er, og han̄s Nafn; Og styter oss eige þessum dyra Fiesiood, sem er hid hrædelegasta Guds Reide teikn, so sem han̄ sialfur vottar fyrer Spaaman̄sens Mun̄, Amos 8. v. 11. Er han̄ segest vilia sendá Hungur i Landed, ecke Hungur Viins og Brauds, helldur sin̄a Orda; Helldur og ein̄en̄ þegar han̄ audsyner sig þvilijkan̄, ad vera, sem han̄ sig openberad hefur i sijnu H. Orde; Þvi so tekur Ritningen̄ til Ords, ad Gud helge sig og sitt Nafn, þegar han̄ berlega auglyser, an̄adhvert Riettlæte, Makt, edur Goodgirne sijna: Þegar DRotten̄ straffade Aarons Sonu, Nadab og Abihu; Þa seger han̄, Lev. 10. v. 3. Eg skal helgast i þeim, sem mier eru nærster. Og hiaa Esajas, Cap. 5. v. 16. Epter þad han̄ hefur hootad Gydingum Reide sin̄e, tekur han̄ so til Ords: Drotten̄ mun uppheffiast i Doomenum, og hin̄ Heilage mun helgast i Retllætenu. Og hiaa Ezech. Cap. 36. v. 22. 23. Seger han̄ um̃ sijna Goodgirne vid Juda: Eige vegna

na ydar, helldur vegna mijns Heilaga Nafns, vil eg þad giøra. Eg skal helga mitt mikla Nafn, so ad Pioodernar vite, ad eg er Drotteñ, þegar eg verd helgadur i ydur, fyr er þeim. I Pridia Maata; Helgar Gud sig sialfañ i oss: Þegar hañ verkar i oss Heilagleikañ, eige alleinasta med þvi, ad til reikna oss Christi Forþienustu, fyrer hveria vier alleina reiknunst Heilager, nær vier trwum, ad oss verde fyrer heñar Skulld Syndernar fyrergefnar; Helldur og verkar hañ i oss heilagt Lijferne, Gudrækelega Þanka, og Hræringar i Hiartanu, af hveriuin frameñkoma Ord og Verk, sem Gude lijka, af þeim, sem eru i hñs Vingan, þott þau sieu ofullkomeñ; Og þad verkar hañ fyrer H. Anda, sem oss verdur veittur i Skijrneñe; Og so vidhelldur og efter þetta daglega, so ad hañs Nafn ei verde saurgad, og vanhelgad i oss edur medal vor.

Hverneñ kuñum vier Mañeskiurnar ad helga Guds Nafn?

Þad skedur med tveñu moote: Fyrst þegar vier tøkum a moote og samsiñum hiñe soñu og hreinu Guds Orda Keñingu, so sem hun er openberud i Ritninguñe, og af

af heñerettelega utdreigeñ, og oss fyrersett, wtmaalud af Guds Ords Pienurum, sem oss eiga ad undervijsa i Ordenu; Og eige eirnasta medtøkum hana og trwum øllu þvi, sem af Gude sagt verdur þar iñe, Helldur og geimum þad i goodu og sidsømu Hiarta, elskum og virdum þad um̃fram̃ alla Hlute og huxum þar um̃ yduglega, og aastundum ad fara daglega varande i Guds Kyñingu, og þad heiter ad helga Gud i sijnum Hiørtum, so sem Petur bydur oss i sijnum fyrra Pistle, Cap. 3. v 15. Og þar ad auke løgum vorn Lifnad epter þvi, sem vier heyrum og trwum, þad er: Ad vier aastundum þad, sem Gud hefur skipad i Bødordunum, af fremsta Megne, fordunst þad hañ bañad hefur: Og þad kallar Paulus ad vegsama Gud i sijnum Lijkama, og i sijnum Anda, sem er hid sama, og ad helga hañ; So ad vier, med christelegu Fram̃ferde, leidum adra til ad prijsa Gud, epter Bode Frelsarans, er hañ seger, Matth. 5. v. 16. So lyse ydar Lioos fyrer Moñunum, ad þeir siaae ydar Goodverk, og dyrke ydvarn Fødur, sem a Himnum er.

Hvernek kunnum vier ad vanhelaa Guds Nafn, sem ad er so heilagt i sialfu sier ?

Pad er audsied af þvi, sem adur er sagt um Helgunena, þvi hitt er þvi rettlijnis gagnstædt. Guds Nafn vanhelgast: 1. Nær hans Nafn er vanbrwkad med Eidum, Formælingum, Fiølkinge, edur a einhvern Hautt lagt vid Hiegooma, so sem þu framar sia kant i Utskyringunne yfer hid Annad Bodord. 2. Þegar þeir, sem Christner kallast, og eiga ad heita Guds Foolk, lifa þvert a moote Guds Bode, verr enn Heidingiar; Forsmaa hans Ord og Predikun; Eru Foreldrunum, Kennendunum og Yfervalldenu ohlyduger, Heiptræker, Lostasamer, Agiarner, Bakmaaluger, og leika sier ad slijkum Syndum: Þviad wt af þessu Ogudlegu Athæfe taka þeir vantrwndu sier Orsøk til ad lasta Guds Nafn, og meina, ad hann sie ei vandur ad sijns Fooks Lijfernis hatttum; Þvi seger Paulus vid Gydingana i Rom, Rom. 2. v. 23. (Þeir ed hroosudu sier af Løgmalenu, og kendu ødrum þar epter ad lifa, enn sialfer vanvirdtu þeir Gud med Løgmalsins Yfertrodslu) hann seger: Ad fyrer þeirra

Skulld

Skulld verde Guds Nafn lastad medal Heidingiaña; Þar fyrer skipar hañ og Þrælum þeim, sem vid Christne teked hofdu, eñ voru þo under Oke Heidingiaña, ad þeir skule hallda sijna Drottna alls Heidurs verda, so ad Guds Nafn og Lærdoomureñ ei lostud verde, Tit. 2. v. 9. 10. 3. Verdur Guds Nafn Vanhelgad, þegar Meñ hafa rangar Meinigar um̃ Gud, og hañs Nafns Dyrkun, þvert a moote þvi sem hañ hefur oss þad openberad i Ritninguñe, og giora þad i hañs Nafne, rangfærande hañs Ord þar til; Hvad ad er hiñ stærste Oriettur, og hin herfelegasta Smaan, i gegn Gude. Þetta giora aller Villumeñ, og þeir sem fara med rangar Keñingar.

Þu sagder i Utskijringuñe yfer Formaalañ, ad Drotteñleg Bæn miñte oss a allt þad vier bidia þyrstum; Hverneñ miñer nu þesse Grein mig þar a?

Þad skedur med þessu Moote: Ad nær þu Hugleider med þier, ad þu Daglega vanhelger Guds Nafn med Hiartanu, Tunguñe og Verkunum; Þvi hver kañ ad segia: Mitt Hiarta er hreint, Prov. 20. v. 9. Edur hver er hañ, sem ad eige rase med Tungu

Tüngu siñe, eda vandyrke Guds Nafn med øllu þvi hañ adhefst; Þa fiñur þu under eins, ad þu hefur Gud stygt, og forþienad Helvijtis Pijsler, ef Gud vill tilreikna þier Syndena; Eñ hañ tilreiknar hana øllum þeim, sem ecke ydrast heñar, og eige ætetia sier ad bæta siñ Lifnad. Seg mier: Muntu þa eige þykiast hafa fulla Þørf æ ad bidia, ad Guds Nafn Helgest i þier framvegis, epter þvi sem ædur er mællt; Þvi aan hañs kañtu eckert i þijnu Ydrunar, edur Endurnyungar-Verke ad framkvæma: Þar fyrer seger Lutherus i einum Stad, ad sæ sem bidur, ad Guds Nafn Helgest, hañ jæte med þad sama, ad Guds Nafn eñ þa ad nockru Leite vanhelgest i sier, sem satt er; Þvi eingeñ getur þad Helgad af Daudlegum Meñum, so sem byriar: Þar fyrer seger og Cyprianus, sem var Eiñ af þeim Heiløgustu Lærefedrum Christneñar: Vier þurfum Daglegrar Helgunar vid, so ad vier, sem Daglega Syndgunst, hreinsum Synder vorar med Daglegre Helgan. Þesse Helgan skiedur med Ydran og sañre Trw, um hver iar vier bidium i þessare Bæn; Og sier þu

þier,

hier, hverneñ þesse Grein miñer þig aa Þo-
rf þijna. J Ødru Lage, ef þu ert Christ-
eñ Madur, og villt ødlast nockud med
Bæn af Gude, þa aattu under eins ad bid-
ia hañ af Hiarta fyrer øllum Moñum,
Vinum og Ovinum, Gudhræddum so vel
sem Gudlausum; Þvi þu veitst ecke Gu-
ds Raad, og ei nema hañ gefe þeim Ydran
til Apturhvarfs, sem þier þykia þar til hv-
ad Olijkaster; Og þott hañ Einsamall
vite, hvad hañ vill giøra, samt elskar hañ
þiñ Kiærleika, i þvi, ad þu bidur fyrer øll-
um, og mikid maa Bæn hins Rettlaata,
nær hun er heit, seger Jacob, Cap. 5. v. 16.
Gud giæfe Meñ villdu þar epter vera Al-
varleger, Astundunarsamer, og Sam-
huga i Bæneñe; J einu Orde ad segia,
Christur hefur dæed fyrer alla, þvi skylld
er þu þa ecke bidia fyrer øllum. Nu vita
Meñ, hversu ad Verølldeñ er full, eige ein-
asta af følskum Keñingum, helldur og af
Ogudlegum Moñum, sem einganveigeñ
lifa epter þvi, sem þeir trwa, og eru þo hi-
ner fleire, sem bæde eru Vantrwader, og
framfara i øllum Odaadum, so sem Tyrk-
lar og Heidingiar; Hafer þu nu nockra
Med

Medaumkan med þessare Blindne Mañaña (sem eru sömu Naatturu og þu) þa mun þesse Bæn miña þig aa, ad bidia fyrer þeim, ad Guds Nafn mætte i þeim Helgast, med þvi Moote, sem aadur er sagt.

A eg ad bidia fyrer Ovinum Guds Nafns og Christelegrar Kyrkiu?

Pu aatt ad sömu ad bidia aa mote þeim, ad ei takest þeim siñ illur Asetningur, i þvi, ad kefia Guds Christne, og hiñ saña Lærdoom; Eñ fyrer þeim aattu ad bidia, ad Gud vilie uñsnwa þeim til Sañleikans Vidurkeñingar, og gefa þeim Jdran til Apturhvarfs; Þvi þad hefur skied, fyrer Raad DRottens, ad Ofsooknarar Guds Safnada hafa geinged Christo til Handa; So sem Keñemeñerner, er hañ Ofsooktu, eñ trwdu þo aa hañ sijdañ, Act. 6. v. 7. Hvar uñ Paulus er hid lioosasta Dæme, hver ed i Fyrstuñe Ofsookte Guds Søfnud, eñ sijdañ vard Christi Postule, Act. 9. v. 20. Þvi skipar hañ og ad bidia fyrer Nerone Keisara, sem var hiñ grimaste Ovin þeirra, sem aa Christum trwdu.

Legg mier wt þa Adra Bænena.

† Tilkome þitt Rijke. †

Hvad er Guds Rijke?

Guds Rijke kuña Meñ med Preñu mote ad Hugleida: Fyrst er hañs Almættis-Rijke, Pad er Valld þad, er hañ stioornar og rædur med, øllum Hlutum, bæde aa Himne og Jordu, um̄ hvert David talar: Ps. 103. v. 19. DRotteñ hefur stadfest sitt Sæte i Himnenum, og hañs Rijke rædur fyrer øllu, og i ødrum Stad, Ps. 145. v. 13. Þitt Rijke er eitt Æfeñlegt Rijke. Þetta Rijke er eige so meint i þessare Bæn, Þvi Guds Maktar-Rijke er so rijkt og øflugt Valld yfer øllum Skepnum, ad þvi fær eingeñ Mættur aa moote staded, og hañ Drottnar hvert sem þar um̄ er beded edur ei: Þo bidium vier þar um̄, ad vier med stærstu Audmykt meigum þeckia hañs Guddoomlega Forsioon og Almætte, sem øllu rædur, til þess ad vier eckert treystum aa siaalfa oss, edur tileinkum vorum Mætte, edur Fram̄syne nockurn Hlut; So og, ad hañ vilie audsyna Makt sijna aa sijnum Ovinum, er Kappkosta ad nidurbriota hañs Naadar-Rijke i Christelegre Kyrkiu. J Añañ Maata, er hañs Naadar-Rijke, hvert ad er sier

i Lage

i Lage i þeim Rett-trwundu, þad er: J hinne sönu Christelegu Kyrkiu; Hverre hann stioornar med sijnum H. Anda, sem byr i Ordenu og Sacramentunum, Umm hvert Frelsarenn talar, Luc. 17. v. 20. 21. Er hann svarade þeim, er spurdu hann ad, nær Guds Rijke kiæme, med þessum Ordum: Guds Rijke kemur eige, so þad adglætt verde, þvi siaa, Guds Rijke er inne hiaa ydur; Þad er: Guds Rijke kemur ecke med Harke og Yferlæte, eins og Veralldleg Rijke; Helldur er þad i Mannanna Hiortum tilbwed fyrer Innblaastur og Verkaner H. Anda, og so seger Paulus: Rom. 14. v. 17. Guds Rijke er eige Matur nie Dryckur, helldur Rettlæte, Fridur og Fognudur i Heilogum Anda. J Pridia Lage er Guds Dyrdar-Rijke; Hvers alleina adniotande verda hiner Rett-trwundu, og Utvolldu, þar þeir rijkia med Christo, og eru med honum Eilijflega. Umm þetta sijdarsta Tvent bidium vier sierdeilis i þessare Grein af Drottennlegri Bæn.

Hvernenn kemur Guds Naadar-Rijke til vor?

Þad skedur; Þegar Gud gefur oss sinn H. Anda, saa ed tilbyr so Hiortu vor, ad vier

vier medtøkum Guds Ord, og trwum þvi,
og frambydur oss i Ordenu allt þad, sem
Christur, so sem Konungur Rettlætesins
hefur oss afrekad. J Añañ Maata, Þegar
H. Ande verkar i Hiarta voru, so þad sem
Christur hefur oss afrekad verdur kroptugt
i oss, so vier laatum oss stiorna af honum,
og ecke alleinasta med Trwñe hondlum
þad Rettlæte, sem fyrer Gude gyllder, og
verdum þess vegna kvitter, og frijer af all-
re Sekt, helldur og verdum Endurnyader
i Hugskotum vorum, til ad þiona Rett-
lætenu, So ad ecke Drottne Syndeñ i vor-
um Daudlegum Lijkama. Rom. 6. v. 12.
J Pridia Lage: Nær þesse H. Anda Ver-
kañ wtbreitest til añarra sem eñ þa eige
eru i Guds Naadar-Rijke, þad eru aller
þeir, sem ecke Ottast Gud, og eige trwa
Rettelega a hañ, og lifa i Syndum og
Glæpum. J Fioorda Maata: Þegar
þessar Astgiafer og Verkaner H. Anda vid
halldast og eflast med oss, og i oss Dag-
lega; So ad Guds Rijke eykst og styrkest
hiaa oss; Eñ Diofulsens Rijke, (sem er
foolged i Vantrw og vondum Lifnade)
þad verdur nidurbroted, so hañ eige hafe

neina Yferhønd yfer oß, helldur ad vier, eige alleina ſieum Borgar-Meñ Heilag-ra, og Guds Heimilis-Meñ, Eph.2.v.19. Helldur og blijfum, þad er, ſtøduger ſtøndum i hañs Pioonuſtu; Þvi ſeger Cyprianus, ad vier þurfum ſijfelldlega ad bidia, ſo ad eige miſſum vier Himnarijke. Eñ hvad Guds Dyrdar-Rijke vidvijkur; Þa bidium vier i þeſſare Bæn, ad Gud vilie burttaka allar Hindraner, ſem oß bægia þar fraa; Og um Daglegañ Underbwning til farſælleg Dauda, og hins Sijdarſta Dags, ſo vier meigum Guds Rijkis verduger vera, 2.Theſſ.1.v.5. Og jafnañ vidbwner, Luc.13.v.40. Og bijdum ſo med glødu Gede epter Tijma vors Uñſkiptis, So vier meigum Eilijflega med Chriſto rijkia.

Hvørneñ miñer þeſſe Bæn mig aa Þørf mijna?

Hun miñer þig ecke einaſta aa þijna, helldur og allra þeirra Þørf, er þu aatt fyr er ad bidia; Eñ hvad ſiaalfañ þig aahrærer, þa er þad vijſt, ad neina þu fiñer Guds Rijke iñe hiaa þier, þad er, Hræringar H. Anda, ſem verkar i þier Trwna, og heñar Averke, Þad er, Chriſtelegt Lijferne, þa ertu

ertu ecke Guds Barn, helldur Diøfulsens; Eñ þu veitst ecke nær Daudeñ svipter þier i burtu: Siertu þa i Guds Rijke, þa er þier Vist ætlud med honum i hañs Dyrdar-Rijke; Eñ siertu i Diøfulsens Rijke, þa muntu Hlutskipte ødlast med honum, og øllum hañs Arum, i eilijfu Helvijtis Bæle. Hugleid þetta vel, og muntu ei framar spyria ad, hverneñ þesse Bæn miñe þig a Þørf þijna.

Eg bid þu vilier wtskijra mier hina
Pridiu Bæn.

† Verde þiñ Vilie, So a Jordu, sem a Himne. †

Pier byriar Fyrst ad athuga, ad þetta Ord, VERDE, merker hier eige alleina nockurskonar Osk, So sem þegar Madur bidur Mañe Goods; Helldur audmiwka Bæn, og Andvørpun til Guds, med stærstu Undergefne, So sem þegar Frelsareñ sagde: Matth. 26. v. 39. conf. Act. 21. v. 14. Po eige miñ, Helldur verde þiñ Vilie; Med hverre Bæn og Andvarpan Gud verdur Einfalldlega og Audmiwklega bedeñ, ad þar vier erum ordner Hluttakendur Evangelii, høfum medteked Heilagañ An-

da, hver oss meddeiler þañ Fesiood, sem oss er i Evangelio frambodeñ, ad fyrer hañs Verkan mætte þad og verda, og þad fram-kvæmest i oss, sem Gud hefur tilætlad; So og þad, sem vier af vorre Alfu eigum til ad leggia.

Hvilijkur er þesse Guds Vilie, sem hier verdur umgeted i þessare Grein?

Guds Vilie er ad sönu i siaalfu sier eige nema Eiñ; Þviad i Gude er eingeñ Adgreining, eige helldur Umbreiting edur Umbreitingar Skugge seger Jacob, Cap. 1. v. 17. Samt verdum vier ad Innynda oss Guds Vilia med Tveñu Moote, Sökum þess vor Mañlegur Skilningur fær þad ei ödruvijs griped, Þvi segium vier: Ad Eiñ sie Guds Vilie sa, þegar hañ siaalfur vill eitthvad giora; Añar sa, þegar hañ vill, ad eitthvad af oss giort sie, edur Ogiort læted. Hiñ Fyrre er og med Tveñu Moote: Fyrst, þegar Gud vill eiñ Hlut Fortakslaust, og endelega, hverium Madureñ er aldeilis ecke samverkande. Þessum Guds Vilia fær eingeñ Kraptur aa moote staded, so sem David vottar, Ps. 115. v. 3. Hañ giörer hvad hañ vill aa Himne

Himne og aa Jordu, og Paulus seger: Rom. 9. v. 19. Hver mun mootstanda hañs Vilia. Og hiaa Esajam, Cap. 46. v. 11. Mitt Raad skal standa, og állur miñ Vilie skal verda. Og i Odru Lage, þegar Gud vill Eiñ Hlut med Fororde og Skilmaala, hver, ef ad hañ geingur undañ einhveriu þvi, sem skiedur, þa fylger þad eige alltijd aa epter, ad þad fram̃kome sem Gud vill; Til Dæmes ad taka: Gud vill, ad aller Meñ verde Saaluhoolpner, Ef þeir trwa; Eñ þeña Guds Vilia getur Madureñ hindrad med Vantrwñe, so ad margur fyrerferst: Eñ ef hañ epterfylger, þad er ad skilia, nær Skilmaaleñ er halldeñ, þa skedur þad allt, sem hañ þañeñ vill. Til Dæmes: Ad saa sem trwer og stødugur stendur, allt til Enda, hañ verdur Efalaust hoolpeñ. Matth. 10. v. 22 Hiñ sijdare Guds Vilie, sem i ondverdre þessare Grein er um̃geted, er iñefaleñ i þvi, sem Gud hefur boded, og bañad, ad vier giøra skylldum, añadhvert i Løgmaalenu, edur Evangelio; Þetta kallar Paulus Guds goodañ, þægelegañ og fullkomeñ Vilia: Rom. 12. v. 2. So bidium vier hier, ad

Gud med sijnum Anda stioorne oss til ad giøra sin Vilia, En hindre Diøfulsens, Holldsens og Heimsens Vilia.

Hvad gagnar mier, ad vita þessa Adgreining Guds Vilia?

Pad gagnar þier til þess, ad þu viter hver Guds Vilie þad sie, er þu umbidur, ad verda skule; Þvi þu ætt ad skynia hvar um þu bidur.

Hvar um bidia Mest þa i þessare Bæn?

Eige þar um, ad verda skule Guds Fortakslaus Vilie, hverium han endelega vill framhallda, hvad sem hver seger, edur bidur; Þvi er onaudsynlegt þar um ad bidia, En i øllu ødru bidium vier, ad Guds Vilie verde, og seger Ritningen oss med faum Ordum, hver ad sie Guds Vilie, sem oss er naudsynlegast um ad bidia; So seger Drotten hiaa Ezech. Cap. 33. v. 11. Eg vil ad Syndaren snwe sier; Þvi bidium vier i þessare Bæn, ad Gud fyrer sin H. Anda vilie verka i oss sanna Ydran, kena oss ad þeckia Syndena, og af Þeckingu hennar, og Guds Giæsku ad faa sannarlegt Angur og Trega. Framar seger Ritningen, Joh. 6. v. 4. Þesse er Vilie hans, sem sende

mig,

mig, ad sierhver sa ed sier Soneñ (þad merker hier, þecker hañ) og trwer a hañ, eignest eilijft Lijf. Þvi bidium vier i þessare Bæn, ad Gud fyrer sijns Anda Krapt vilie verka i oss Trwna a Christum, ad vier eige einasta þeckium hañ, helldur og trwum þvi stadfastlega, ad oss verde fyrer hañs Skulld Syndernar fyrergefnar, nær vier þeirra ydrunst af Hiarta. J Pridia Maata seger Paulus, 1. Tess. 4. v. 3. Ad Guds Vilie sie vor Helgan, þad er: Ad vier lifum heilaglega, og løgum vorn Vilia i Hugreñingum Ordum og Verkum, þad mesta mogulegt er, epter Guds Vilia; Þvi bidium vier hier, ad Gud gefe oss Helgunareñar og Endurnyungareñar Anda, og skape hreint Hiarta i oss, fyrer Andañ; Og deyde i oss Þvermoodsku Holldsens; So vier megium þad hura, girnast, tala, og giora, sem Gude er þægelegt, og hañ vill; Eñ hafna og aldeilis burtkasta Andskotans, Heimsens og Holldsens Vilia, sem eru Synder og Glæper: So ad hañs blessadur Vilie, sem er: Ad aller Meñ verde Saaluhoolpner, 1. Tim. 2. v. 4. Ecke hindrest vorrar Vantrwar

vegna. So þeckium vier nu og medkeñ-
um i þessare Bæn, ad vor Vilie sie nærsta
vanmaattugur til ad framkvæma þetta,
og þvi bidium vier, ad Guds Vilie styrke
oss til ad framkvæma siñ Vilia. Eñ sier
i lage bidium vier i þessare Grein, ad Guds
Vilie verde aa oss, i sierhverin þvi, sem
hønum þocknast aa oss ad leggia, hverin
Nafne sem heiter; So seger Tertullianus:
Med þessum Ordum aaminñum vier oss til
Þoleñmædeñar; Og so brwkade Frelsar-
eñ þau, Matth. 26. v. 39. Verde þiñ, og
eige miñ Vilie. Sama er ad seg'a um
vora Astvine; Þvi brwkudu og þeña For-
maala St. Paals viner, þegar hañ foor
upp til Jerusalem, til ad sitia þar i Fiøt-
rum, og þola margt illt, og þeir villdu hind-
ra hañ þar fraa, eñ hañ villde eige sam-
siña þeim, þaa sogdu þeir: Verde Guds
Vilie, Act. 21. v. 14. Og fyrst vier bid-
ium Gud um, ad hañs Vilie verde, þa er
þad stoort Raanglæte fyrer oss, ad vier sko-
rum oss undañ þvi, sem hañ vill vera laa-
ta; Þvi eigum vier alldrei ad meina, ne-
ma v'rduglega um hañs Vilia, hvad sem
hañ lætur oss þola, og hversu sem hañ læt-
ur

ur goodum illa, og vondum vel lijda, hell ur segia med David 2. Sam. 15. v. 25. Hañ er Jehova, giøre hañ vid mig hvad gott er i hañs Augum, eñ bidia alleina um H. Velþoknan, og segia, verde þiñ Vilie, eñ ecke leita oleifelegra Medala, sem eru moote hañs Vilia.

Svo a Jordu sem a Himne. Hvad er þad?

Himeneñ merker hier Guds Dyrdar-rijke, hvar ed Heilager Einglar, og Utvalider Meñ giøra Guds Vilia fullkomlega.

Er þad møgulegt, ad nockur kuñe ad giøra hañ eins fullkomlega hier a Jordune?

Laangt er fra þvi, ad hañ verde so fullkomlega af vorre Alfu, so sem i Himnenum, giørdur; Vier bidium og þess ecke, þvi þad være stoor Ofdyrfd; Þar vier vitum, ad Kraptar Endurgetningarenar eru ofullkomner i þessu Lijfe; Þvi eru og vorer Kraptar, til ad uppfylla Løgmaaled, ofullkomner, og Gud vill ecke i þessu Lijfe reisa þa vid til fulls, so ad þar af sie mest Stærd manlegrar Sektar, og Yferburder Christi Forþienustu. Eñ þetta Ord, SO, merker hier ecke, so fullkomlega, helldur lijkt þvi;

Og ad hin strijdande Guds Christne hier a Jørduñe verde lijk hiñe, sem þar uppe er, i þvi ad giøra Guds Vilia: Sama Ord stendur hier sijdar i Bæneñe: Fyrergef oss vorar Skullder, so sem vier fyrergefum vorum Skulldunautum, og er þo audvitad, ad Madureñ kañ alldrei so fullkomlega ad fyrergefa, sem Gud, eñ lijkiast kañ hañ hønum i þvi; So og seger Christur, Luc. 6. v. 36. Vered Myskunsamer, lijka sem ydar Fader er Myskunsamur; Og erum vier synduger Meñ langt fra þvi, ad geta eins myskunad og Gud; Þvi merker þetta Lijking, og eige Jøfnud.

Hverneñ sie eg Þørf mijna i þessare Bæn?

Eige nema af þvi ad ef Gud ei villde þu yrder hoolpeñ, og ef H. Ande ei verkade i þier Viliañ til ad trwa, og giøra þad Gud vill, þa yrder þu þad alldrei, helldur eilijflega fordæmdur: Þvi nema Heimsens Holldsens og Diøfulsins Vilie verde fyrer hañs Vilia hindradur, þa yrde hverke Guds Nafn helgad medal vor, ei helldur kiæme til vor hañs Rijke. Þar af sier þu, hvilijka Naudsyn þu hefur, til ad bidia, ad Guds Vilie verde.

Seg mier nockud af hiñe
Fioordu Bæn.

† Gef oss i Dag vort Daglegt Braud.

Hvad merker BRAUD hier?

Pad merker eige einasta allañ Mat og Dryck, sem Gud foostrar Lijkamañ med, so sem allvijda maa siaa i Ritninguñe, og medal añara hiaa Jeremia, Cap. 52. v. 33. Hvar ed seger: Ad Joachim Kongungur hafe eted Braud aavallt vid Bord Evil Merodachs Konungs; Hvar ed vered hafa fleire Vister, eñ Braud eitt; Helldur merker pad, so sem Lutherus seger: Allt pad sem naudsynlegt er, til þessarar Lijfs Biargar, pad er: Allt pad sem til þess gagnar og duger, ad vier meigum med Fride og glodu Gede njoota þessa Lijfs, aan hvers vier høfum þess lijtel Not, sem Gud oss gefur, og vort Braud verdur ad harma Braude; So sem David ad Orde kemst, Ps. 127. v. 2. Og vier ætum, eñ yrdum þo ei metter. Allt þetta hefur Lutherus upptaled, i siñe utleggingu yfer þessa Bæn; a medal hvorra eige er hid sijdsta þetta, sem epterfylger: Good eigeñ Kviña, hlijdeñ Børn, dygt þioonustu Foolk, trwer og

froomer

froomer Yfermeñ, good Almwgans Stiorn; Þvi hver sem hefur otrwtt, og oroolegt Hyske, hañ kañ alldrei ad eta sitt Braud med Glede: Item gooder og froomer Yfermeñ, hvar af fylger Landsens Velferd, þvi hvar sem ad er athugalaust Yfervalld, þar meiga Meñ alldrei ohulter vera fyrer ohlutvondum Moñum, og eta so sitt Braud med Otta; Og þar sem eru ræsælner raangleæter Yfermeñ, þar vita Meñ ecke a hverre Stundu Brauded verdur teked fra þeirra Muñe, og eta þad so alldrei med Fride. Eñ þo þad oveniulegt þykie, ad kalla soddañ daglegt Braud, þa eru slijker Ordshætter almeñeleger i Ritninguñe, sem so seger, Num. 14. v. 9. Ottunst ecke Lands-Foolked, þeir munu verda vort Braud. Hier af siæ Meñ, ad allt þvilijkt er faled under Daglegs Brauds Nafne, so þad kallast hier allt Daglegt Braud, sem styrker oss til ad wtvega vora Atviñu, og niota heñar med Gladvære.

Hvad merker þetta Ord, VORT, fyrst þad er vort, þvi bidium vier þa ad gefa oss þad?

Þad kallast VOrt þess vegna, ad Gud hefur oss þad wthlutad, eñ eige þess vegna,

ad

ad vier med vorre Kostgiæfne og Astundun
hofum þad alleina wtvegad, Jafnvel þott
vier eigum hana og til ad leggia epter hinu
Gamla Logmaale: J Sveita þijns And-
litis skalltu þijns Brauds neyta. Gen. 3.
v. 19. Og so sem eiñ Purfamadur bindur
sialfur þañ Bagga, er honum er gefeñ af
sier rijkare Mañe, so eigum vier ad brwka
vort Erfide og Astundan til ad taka vid Gu-
ds Blessan, sem upplijkur siñe milldu Ho-
nd, og sedur allar lifande Skepnur: Og
medtaka so miked, sem oss verdur wthlut-
ad, þad er: so miked sem vier med ærlegu
Erfide faa kuñum, epter þvi, sem hverium
einum er hættad, og hañs Kostum er var-
ed. Jødrulage; Miñer oss þetta Ord,
VORT, þar a, ad þad sie vort eiged Br-
aud, er vier etum, þad er: Øll vor Faung
sieu vel feingeñ, og eige tekeñ fra Næaung-
anum, añadhvert med Ofbellde, edur Sv-
ikum og Underferle, so sem hellst skedur i
Kaupum og Solum; Edur og med Sv-
alle, og Yduleyse, þegar eiñ fyrer Ohoofs,
edur Lete saker giører sig ad Purfa Mañe,
so hañ hlytur ad fara aa Bonarvol, og etur
so sitt Braud i añarra Andlitis Sveita;
Hvar

hvar um̃ Paulus talar, 2. Tess. 3. v. 11. 12. seigande: Vier heyrum, ad þar sieu nockrer aa medal ydar, sem ganga oskickanlega, giørande eckert, helldur vinna oþarfa. Þessum, sem þvilijker eru, bioodum vier og aaminnum, fyrer Drotteñ vorn JEsum Christum, ad þeir erfide med Spekt, og ete sitt eiged Braud. Hier talar Postuleñ um̃ heilbrygdan̄ Hwsgang og Landhlaupara. Ad sijdurstu min̄er oss þetta Ord, VORT, a Guds Skipan, ad meddeila hinum naudþurftugu, þad sem oss er afgangs, þvi so stendur hier, VORT, og eige mitt; Þvi þad sem Gud hefur þier i Hendur fenged, er eige þitt einasta, helldur þeirra, sem aa þurfa ad hallda; Ertu þvi skylldugur, ad meddeila þeim þad, sem þu, aan þin̄ar Þorfnunar, missa maatt; So seiger Johan̄es Skijrare, Luc. 3. v. 11. Saa sem hefur tvo Kyrtla, han̄ gefe þeim sem eingan̄ aa og saa sem Mat hefur giøre slijkt hid sama

Hvad er þetta, I DAG? Maa ei bidia Gud um̃, ad Sorga fyrer mier fram̃veges?

Christur seger ad son̄u, þu skuler eige fyrer Morgun-Degenum Ahyggiu bera, þo er þad rett, ad bidia Gud ad bera Ahyggiu

byggiu fyrer sier, So leinge Madur lifer; Eñ þetta Ord, J DAG, merker ecke so i þessum Stad, þañ Dag, sem nu yferstendur, helldur merker þad hvern Dag, so sem Lucas hefur þad wtlagt, Cap. 11. v. 3. Þegar hañ skrifar þessa Bæn: Añars miñer þetta Ord oß aa Guds Giæsku, sem vidhelldur oß aa hverium Dege og hverre Stundu, þvi nema hañ þad giørde, kyñum vier eige Eitt Augnablik ad lifa. J Oddru Lage, aa vora Eymd, og fallvalltañ Hag, þvi þoott vier hofum full Hws Nægta, þa er þad forgefens, nema Gud blesse vor Faung; Og þoott Eiñ segia villde: Et og dreck Saala mijn og vert glod: Þa getur Gud braadlega til hañs sagt: Þu Daare, aa þessare Noott skulu þeir þiñar Saalar krefia af þier, og hver skal þa eignast þetta sem þu hefur tilbwed, Luc. 12. v. 19. 20. Þvi mun hañ þa ei geta laated þig verda Faatækañ ad Morgne, sem ert Fullrijkur ad Kvollde. J Þridia Maata, aa þetta ad miña oß aa, ad vier ei sieum Hugsiwker fyrer, hvad vier skulum Eta edur Drecka, þar vier bidium ei, nema um̃ hvers Dags Verd, so sem Agur bad. Pro.

30. v. 8. Fatækt og Audlegd gef þu mier eige, Eñ al mig med mijnu Daglegu Braude.

Hvad er þetta Ord, DAGLEGT?

Þad er, þad sem oß næger hvern Dag, so leinge vier lifum; So þeße Bæn merk- er: Gief oß þad vier vidþurfum aunæg- tanlega hvern Dag.

Ef Gud gefur oß vort Brauð Daglega, Þvi þarf ha ad Erfida?

Þu ætt eige ad taka so þeße Ord, ad Christur hafe þar med leift þier Ydiuleys- ed; Helldur miña þau oß aa, ad vier er- um Þurfameñ Guds, jafnvel þegar vier hvad mest høfum, og hvad mest Erfidum; Jaa miklu meir, eñ Eiñ nakeñ Gongu- Madur er vor Þurfe; Og i Ødru Lage, ad vier eckert eigum under sialfum oß, og ecke Valld aa einum Matar-Mola, nema vier þiggium hañ af Guds Ørlætis-Hen- de. So og miñer þad oß aa Þacklæted vid hañ, er so miked gott veiter oß Daglega aldeilis Oforskulldad, jafnvel þott vier hañ Daglega styggium og til Reide reitum. Eñ þetta Ord, OSS, miñer oß aa, ad vier eigum og fyrer ødrum ad bidia, og get- ur

ur þad þa eige vel stadest, ad vier skulum hripsa þad Braud wt af Naunganß Muñe, sem Gud hønum gefur, nema vier villum bidia Gud, ad gefa hønum til þess, ad vier høfum þess meir til ad Stela og Ræna.

Nu lijda Guds Viner opplega Skort oc ollu þvi sem þu kallar DAGLEGT BRAUD, hvornneñ oc eg þad ad skilia?

Giæt ad þeirre Bæn, sem hier stendur fyrer framañ, Verde Piñ VJlie: Laate Gud þig lijda nockurn Skort, þa vit, ad þad er hañs Vilie, og þier fyrer Bestu, og Madureñ lifer ecke af Einusamañ Braude, helldur af sierhveriu Orde, sem framgeingur af Guds Muñe, Matth. 4. v. 4. Og maa eg kalla þad Eitt med þeim, ad Hañ er Trwr og freistar Einkis yfer Megn fram: 1. Cor. 10. v. 13. Þar fyrer nær þig vantar Lijkamans Atvinnu, þa ber þig ad vera so lyndur, sem þiñ Frelsare var, ad hiñ Matur og Dryckur sie ad giora Vilia þijns Fodur. Joh. 4. v. 34.

Nu gefur Gud þo Daglegt Braud, Jafnvel Vondum Moñum, og þeim, sem hañ alldrei þar um̃ bidia, edur þacka hønum þar fyrer. Hvad oc þar til ad segia?

Þad giorer hañ þess vegna. 1. Ad hañ

eige rafka vill þvi Logmaale, er hañ Einu-
stiñe sett hefur Naatturuñe, Ad eige skule
Saad nie Uppskieru vanta, so leinge Jord-
eñ varer. Gen. 8. v. 22. 2. Til ad keña
sijnum Børnum, ad giøra þeim gott sem
vid oss misgiøra, þar hañ lætur sijna Sool
uppreña yfer Rettlaata og Ranglaata,
og Rigna eins yfer Vonda og Gooda.
Matth. 5. v. 45. 3. Til ad leida þaa til
Ydranar, sem þañeñ eru, Rom. 2. v. 4.
Med Rijkdoome siñar Poleñmæde, og
Langlundar-Geds, so ad eige sie Skulld-
eñ hiaa honum; Eñ þeir sem ecke vilia skip-
ast vid þessa Giæsku Guds, þeir verda alder
til Helvijtis Ellds, So sem añad Slaat-
ur-Fe.

Maa eige bidia um̃ Rijkdoom?

Ad vijsu maa Madur bidia Gud um̃ ad
blessa sitt Erfide, sijn Faung, og sijnar Ut-
rettingar; Eñ hverge veit eg boded edur
leift ad bidia um̃ mikeñ Aud, helldur seger
Agur: Prov. 30. v. 8. Faatækt og Rijk-
doom gef þu mier eige, Al mig aa mijnu
Daglegu Fæde. Og Jacob seger: Cap. 4.
v. 3. Pier bidied og faaed ecke, af þvi þier
bidied illa, til ad kosta uppaa Sælgiæte
ydar.

ydar. En̄ til þeſſa edur an̄ars verra brw̃ka Men̄ Audlegdena meſt i Heimenum.

Eg þarf ecke ad ſpyria ad, Hvernen̄ þeſſe Bæn miñe mig aa Þørf mijna, þvi aller vilia ſijna Atvin̄u hafa?

Þad er ſatt. Gud giæfe, ad Møn̄um være ſo miøg um̃hugad Guds Ord, og Velferd Saalar ſin̄ar, ſo ſem um̃ Lijkaman̄; Þo maattu vita, ad þu hefur eckert þier til Atvin̄u, nema þu þigger þad af han̄s Hende, ſem er alleina rijkur; Þu veitſt, ad þijn Faung verda þier ad eingum goodum Notum aan Guds Bleſſunar; Mun þa eige Þorf ad bidia han̄ þar um̃? Þu veitſt, hvad miked er in̄efaled i þeſſu Orde, DAGlegt BRAUD, ſo ſem froomer og gooder Yfermen̄, Landſens Velferd, Fridur, Heilbrygde; Mun þier eige þykia ſtoor Þørf aa ad bidia um̃ þad? Eckert af þeſſu kemur ad Hendingu, edur fyrer vora Forſioon, helldur af Raadſtøfun hins Almaatt uga Guds; Þar fyrer hefur han̄ ſkipad ſig þar um̃ ad bidia: Hvad ſijneſt þier þa? Mun eige þurfa ad leggia alla Alwd til ad bidia Gud hier um̃?

Seg mier Utskijringuna yfer þa
Fimtu Bæn.

† Fyrergief oss vorar Skullder, So
sem vier fyrergiefum vorum Skulldu-
nautum. †

Hvad merker þetta Ord, FYRERGEF?

Pad merker, ad gleyma aldeilis, hiar
Jerem. Cap. 31. v. 34. Par DRotten
segest eige framar vilia minnast Synda sij-
ns Foolks; Og hiar Matth. Cap. 18. v.
27. Merker þad ad gefa upp Skulld, þar
so stendur: Og Herrann hrærdest Myskun-
ar yfer þeim Pioon, og gaf hønum upp
alla Skulldena; Hver Pyding best kem-
ur samann vid þad, sem vier umbidium i
þessare Bæn.

Hvad er þad þa, sem hier kallast
SKULLDER?

Pad eru Synder vorar, er vier Dagle-
ga Gude aa moote giørum; Pvi þad sem
Matthæus kallar Skullder, þad kallar Lu-
cas Cap. 11. v. 4. SYNDER, og eru
þær Rett-kalladar SKULLDER: 1.
Pess vegna, ad Løgmaaled er eige einasta
Regla, sinn vier eigum ad lifa epter, og hægt
er ad bæta, þo lijted sie afbrugded; Helldur
soddann

soddañ ein Regla, sem Skulldbindur oss til ad lifa fullkomlega, epter þvi sem þar i er boded og bañad, under elliijft Helviijtis Straff, ef i hinu minsta wt af ber; Þvi sæ sem uppleyser, þad er, sæ sem brytur Eitt af þessum minstu Bodordum, hañ skal minstur kallast i Himnariijke, Matth. 5. v. 19. Þad er: Hañ skal sekur verda fyrer Guds Doome; Og so sem Einum Skullda-Prioot verdur i Myrkvastofu kastad, So seger DRotteñ, i Epterliijking-uñe um̃ hiñ Onyta Þioon, er groof sitt Pund i Jordu, Matth. 25. v. 30. Bind-ed hañs Hendur og Fætur, og kasted hon-um i hin ytstu Myrkur, þar ed vera mun Op og Taña-Gnystran; Hvad skiliast æ um̃ þañ, sem eingrar Endurlausnar Von æ; Þvi Omøgnlegt er oss ad giallda Gu-de af siaalfum oss til, fyrer hina minstu Synd, auk helldur fyrer soddañ Fiøllda, sem meire er eñ Sandur æ Siaafar-Bot ne. 2. Vegna þeirrar Skulldar, sem vier hleipum oss i, þegar vier añadhvert giørum þad, sem bañad er; Edur giørum eige þad, sem oss er boded; Edur þad fætt og liijted sem vier giørum, þad giørum vier
 ecke

ecke hreinlega, eige rett, og eige fullkom-
lega, ef þad æ ad bera samañ vid Guds
Løgmaal; Og hlytur þetta ad verda ein
skelfeleg Suma, þar vier, med soddañ mo-
te, lifum ecke Eitt Augnablik aan Synd-
ar. 3. Søkum Skulldalwkningareñ-
ar: Þvi so sem þad, ad Skulldunautureñ
ei kañ ad umflya Sektena og Straffed,
nema hañ lwke Skulldena, edur einhver
hañs vegna; So kuñum vier og eige helld
ur kvitter ad verda, nema Christur giallde
fyrer oss; Þar vier hofum þad ecke siaalf-
er til, er vier skulum gialda. Eñ þar hi-
er stendur i Bæneñe þetta Ord, VOR-
AR, þa miñer þad oss æ, hveriar ad sieu
vorar Synder, sem er eige einasta þær vier
siaalfer drygium, med Hugreñingunum,
Orde og Verke; Helldur og su, er vier
Adam drygt høfum, sem er Uppruna Syn
deñ; Og þar ad auke añarlegar Synder,
sem vier añadhvert erum Orsøk i, edur og i
hveriun vier æ einhvern Haatt erum
Hluttakande. J Fioorda Maata, æ
þetta Ord ad miña oss æ, ad bidia fyrer
ødrum, Jafnvel Ovinum vorum, ad Gud
vilie fyrergefa þeim sijnar Synder.

Seg mier meira af þessu, hverneñ kuña
Meñ ad verda hluttakande i añar
legum Syndum ?

A marga Vegu. Med þvi ad locka eiñ til Syndareñar, þo ei giøre Madur hana siálfur; Og leggia Raad þar til, so sem: Raada Bana Raad, leggia Raad til ad stela, og añad þvilijkt. J ødru lage, med vondu Epterdæme, þegar Meñ syndga ødrum til Hneixlis, jafnvel þott þeir lyte þad og straffe aa ødrum; So og nær Meñ ecke hafa þad, sem gott er fyrer þeim, sem oss er tiltrwad bæde med Orde og Verke. J þridia Maata; Nær Meñ hroosa þvi, sem illa er giørt; Edur lasta þad ecke, og þegar vier, med Stioornleyse, gefum þeim Orsøk til ad syndga, sem vier erum yferbodner. Ad sijdurstu, þegar Meñ, med Um̃ bondunarleyse, sia i gegnum Fijngur vid þaa, sem illt adhafast, og ecke ad vara, edur aaminña siñ Broodur, nær hañ syndgar. J øllu þessu giørum vier añarlegar Synder ad vorum Syndum, Lev. 19. v. 17. Og høfum Hlut i ofrioffsømum Verkum Myrkraña, so sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 5. v. 11.

Bidium vier þa eige um̃ meira i þessare Bæn?

Þetta er noog; Þvi nær vorar Synder eru kvittar, þa erum vier Guds Viner og hañs Oſka-Børn, og þurfum eingu ad kvijda; Helldur meigum ſegia med Paulo, Rom. 8. v. 33. Hver er ſa ſem aaklagar Guds Utvallda; Gud er ſaa ſem rettlæter; Eñ þeß er ad giæta, ad vier erum, af Naatturuñe til, nærſta birdulauſer, i þvi, ad ydraſt Syndaña; Vier ſkygnunſt og ecke epter, hvad margar, hvad ſtoorar, ad þær ſieu, jafnvel þott vier kyñum margar ad þeckia, og margar ad muna, ef vier hvern Dag gengium i Rett vid ſiaalfa oß; Vier ſleppum þeim þar til þær gleimdar eru, og ydrunſt þvi ecke þeirra af Hiarta, ſem vier gleimt høfum; Vier høfum ecke Leida a Syndunum, hellдur þyker vænt um̃ þær, og glediunſt af þvi, ad miñaſt þar a; Vier hrooſum þeim eins og Sodoma, Eſa. 5. v. 9. Vier høfum eige Gud fyrer Augum, edur fiñum til hañs Neide yfer Syndeñe; Eñ Syndeñ verdur eige fyrer gefeñ, nema Meñ ydreſt af Hiarta, og Ydraneñ ad nockruleite ſambiode heñe; Þeſſvegna bidium vier og Gud i þeſſare Bæn, ad

ad hañ vilie taka fraa oss Hirduleisesins Anda, ad Syndeñ eige sofe i oss, helldur verde uppvakeñ med Løgmaalsens Vasunu, ad hañ burttake fra oss Stein-Hiartad, og gefe oss Kiøtlegt Hiarta, er þeckie Synder sijnar, graate þær, og hafe Leida a þeim; Ogunder eins bidium vier, ad hañ styrke oss aptur med Trwñe, so vier ecke ørvæntum (þvi fyrer Trwna ødlunst vier Fyrergefning Syndaña) og þad med soddañ eiñe Trw, sem bere hina søñu Yddranar Avexte; Og eige leife oss, ad hverfa aptur til sømu Synda, Eins og Hundureñ tll Spijuñar; Añars er øll þeirra Syndakvittun onyt, sem undañ er fareñ, ef vier af Overmoodsku og aasettu Raade drygium Syndernar; liggium i hiñe sømu Illsku, Edur laatum oss þykia vænt um̃ þær Synder, sem vier einusiñe hofum kvittar feinged. Og þar vier bidium nu so mikels i þessare Bæn; þa er audvitad, med hvad miklum Hita og Alvørugefne hana lesa byriar.

Hier stendur;

So sem vier fyrergesum vorum Skulldunautum.
Er þad Mañeuum mogulegt ad fyrergefa
so sem Gud fyrergefur?

Einganveigen: Hellldur avor Fyrergefning hans Fyrergefningu lijk ad vera, ad þvi frateknu, ad Gud er eige skylldugur ad fyrergefa oss, nema vier ydrunst, Þvi han hefur eige ødru lofad: En vier erum skylldugir ad fyrergefa þeim sem oss a mote briota, jafnvel þott þeir ecke ydrest þess, og eige leite þeir Fyrergefningar af oss: Þad syner oss Christur, Matth. 5. v. 25. Vertu snarlega sambyckur þijnum Mootstødu Manne, a medan þu ert en a Vege med honum, ad eige ofurselie þig þin Motstødu Madur Doomaranum, og Doomaren ofurselie þig Kvalaranum, og þu verder so i Dyblissu kastadur: Anars hefur Drotten JEsus, epter sine Guddoomlegre Speke, tillagt þetta Atridis Ord i þessare Bæn; Þvi han visse hversu baagt oss veiter ad tilgefa Misgiørdernar; Og ad vier sialfer kunnum þo eige þeirra Kvittun ad ødlast, nema vier fyrergefum ødrum; Þvi itrekar han þessa Grein alleina, en einga adra, strax epter Drottenlega Bæn, i þeim sama Capitula er hun stendur, Matth. 6. v. 14. Segiande: Þvi ef þier fyrergefed Mønnunum sijn Afbrot, þa mun minn Himneske

neſke Fader og fyrergefa ydur; Eñ ef þier fyrergefed eige Moñunum þeirra Afbrot, þa mun miñ Himneſke Fader ei helldur fyrergefa ydur ydar Mootgiørder. Og þvi miñer þeſſe Bæn oſs a: 1. Ad ſo ſem vier kuñum ecke aan Syndar ad lifa fyrer Gudi, ſo kuñum vier eige helldur ad lifa aan Mootgiørda hver vid aňaň; Eñ haň á Rett a oſs ollum, ſo ad a ollu þvi, ſem oſs er á moote giørt, er þeſs meire Søk vid haň, helldur eñ vid oſs, ſem haň er ſijnum Skepnum ædre. Eñ ef haň vill fyrergefa hverlum, ſem haň biþur af Hiarta, þa er Skoʼm fyrer oſs, ad forlaata ecke obedner, þvi þad veit eg, ad ſo mikill er Munur Guds og Maña. 2. Ad kenna vort oſtyrelaatt Hollð, er ſo treglega vill fyrergefa, þar þetta ſyner oſs vorn eigeñ Haaſka; Þvi oſs verda eige Syndernar tilgefnar, nema vier tilgefum ødrum. 3. Ad eyda þeim Røkum og Aſtædum, ſem Hollð og Blood hafa þykeſt, til þeſs, ad reidaſt og ala Hatrid, med þvi, ad bera samaň vorar Mootgiørder i gegn Gude, og ſo Naungañs Afbrot á moote oſs. 4. Er þetta ein obrigdull Pantur, ſem ſiaalfur Guds Sonur

nur hefur ofs i Hendur feinged, uppa vorra Synda Fyrergefning; Þvi þeim sem fyrergefur sijnum Naunga, þeim lofar hañ, ad siñ Fader vilie Syndernar tilgefa: Og maa þeim lijted fiñast til Synda siña og Guds Reide yfer þeim, og til Helvijtis Pijsla, er þær hafa tiluñed, sem ecke vill til þess viña, ad forlaata sijnum Naunga, so hañ faae þeirra Kvittun hia Gude; Þo er þetta ei so ad skilia, ad vor Fyrergefning vid Naungañ, sie Orsøk til Guds Fyrergefningar vid ofs; Þvi þo vier giørdum, allt hvad vier eigum ad giøra, þa erum vier skyllduger ad jaata, ad vier sieum onyter Pioonar, Luc. 17. v. 10. Helldur skedur þad alleina fyrer hañs Fyrerheit, hver ei kuña ad bregdast, þoott Himen og Jørd forgange, Luc. 21. v. 33.

A eg þa allt ad fyrergefa, sem mier er aa moote giørt, eins þeim, sem mier i mesta Maata tilgiører, og hønum, er lijted afbregdur?

Allt eins aattu þeim hverutveggium ad fyrergefa; Þvi Fyrergefningu þiñe aa eins haattad ad vera vid Naungañ, eins og Guds vid þig, sem i Fyrstuñe varst Reidennar Barn, þegar Gud took þig i Saatt, og

og sijdan hefur optlega broted af þier hans Vinaattu; Þvi stendur hier þad Ord, er þu spurder um; So sem vier fyrergefum vorum Skulldunautum; Enn Gud fyrergefur þier eins stoorar Synder og smaaar; eins fyrergefur hann Stoor-Brota Monnunum, so sem þeim, er Heilager kallast, og i Einu Orde ad segia: Øllum þijnum Skulldunautum, øllum þeim, sem þu hefur nockra Akiæru aa moote, hveriu Nafne sem heiter, þeim aattu øllum ad fyrergefa af Hiarta; Þvi seger DRottenn: Matth. 18. v. 33. Byriade þier eige Myskunsamur ad vera þijnum Sam-Þioon, so sem eg var þier Myskunsamur; Fyrer þvi stendur og i þessare Bæn hiaa Lucam: Cap. 11. v. 4. Þvi vier fyrergefum og øllum þeim, sem oss skyllduger eru. Þar er einginn undantekenn, hvert hann er Volldugur edur Vesæll, hvert hann hefur aadur af oss nockud gott forskulldad edur ei; Hvert hann er vor Jafninge edur minne Madur. Øllum eigum vier ad fyrergefa, hver Fyrergefning i þvi er innefalenn: 1. Ad reidast eige þeim, sem oss aa moote briota. 2. Enn fyrer þvi, ad þad er valla mogulegt nock-

rum syndugum Mañe, ad hafa so rijkt Valld yfer Lund siñe, ad ecke reñe honum i Skap, þegar honum er moote broted ad Saklausu, þa er þad nærsta Raad, ad ala eige Reidena leinge, helldur sleppa heñe strax sem Madur kemur til sialfs sijns, og þeinkia alldrei til, ad hefna þess, er honum var tilgiørt, og eñ þa sijdur, ad Óska, ad Gud hefne a þeim; Miklu helldur bidia, ad hañ fyrergefe þeim, og Leidrette þa, hvert helldur honum þocknast ad leida þa til Ydrunar, med siñe Giædsku, edur Fødurlegre Hirtingu.

Leifest mier þa eige ad klaga miñ Náunga fyrer Rettenum, nær hañ giører mier Óriett?

Ad vijsu leifest þier þad. Fyrer því er Retturiñ og Yfervallded af Gude tilsett; eñ þad a ad ske fyrer utañ Reide og Hatur, Ef þu villt Guds Vinur vera; Eñ Søkum þess, ad miøg so er hætt vid, ad þu syndger i þessu, og taper þiña Synda Fyrergefningu hia Gude, þa er Raadlegt, ad þu hlauper eige til Doomarans fyrer Smaa-Mune: Eñ ef þu neydest til þess, þa attu ad bidia Gud iñelega miñ, ad eckert giører þu af Heipt nie Illgirne.

Eru nockud Fiaar-Skullder meintar
i þessare Grein?

Eige eru þær hier meintar eigeñlega, hvi leifest hveriunn ad krefia Fiaar siins; Eñ þo ber þess ad giæta, ad fyrst Gud hefur Poleñmæde yfer þijnum Syndum, þa skalltu og vera Poleñmoodur vid þiñ Skulldunaut, ef þu villt Rett-Christeñ heita, og ecke af honum heimta, þad hañ eige getur ætlaaated, aan siins stoors Skada og Eydeleggingar; Hvar uñ þu kañt framar ad skoda þad, eg sagt hefe i Utleggingunñe yfer hid Siounda Bodord.

Verd eg þa aldeilis eige Bænheyrdur af Gude, nema eg fyrergefe, so sem þu hefur nu sagt?

Oll dungis eige. Ad þvi maattu vijsu gaanga. Pier gagnar ecke ad bidia uñ nockurn Hlut; Og ecke þad Heilaga Holld og Blood DRottens ad medtaka, nema þu fyrergefer øllum þeim, er þier hafa aa moote broted, Pad er: Ad þu aler eckert Hatur til þeirra i Hiartanu; Pvi so seger Frelsareñ hiaa Marc. Cap. 11. v. 25. Og þegar þier standed og bidiest fyrer, þa fyrergefed, ef þier hafed nockud aa moote einhveriunn, so ad ydar Fader, sem er aa Himnum,

nuun, fyrergefe ydur ydar Misgiørder; Og aptur seger hañ: Matth. 5. v. 23. 24. Ef þu ber þijna Gaafu fyrer Alltared, og þier kiemur þar i Hug, ad þiñ Brooder hafe nockud aa moote þier, þa legg þar þijna Gaafu fyrer Alltarenn, og far aadur ad sætta þig vid Broodur þiñ; Hvar af auds̃ært er, ad Gud vill eige þiggia þad Offur, sem med reidum Hug er frambored: Eñ þad sem Offureñ voru aa Gamla Testamentesins Døgum, þad eru nu Bæner Christeña Maña og Olmusu-Giørder; Þvi maattu sama ætla uñ hvertveggia. Og er þad illt, ad Madureñ skule spilla so goodum Hlut, sem ad er Bæneñ og Olmusañ, Søkum Metnadar og Haturs vid siñ Naunga.

Hier sendur hiaa Matthæum:

Ef þiñ Brooder hefur nockud aa moote þier.

Þad skil eg so; Ef þiñ Brooder hefur nockra Akiæru til þijn. A eg þa ad leita Sætta vid hañ, sem aa moote mier hefur giørt?

Ad vijsu aatt þu; Þvi hiñ same DRottiñ seger hiaa Marcum: Ef þier hafed nockud aa moote Einhverium, so sem strax var umgeted; So þad er Meiningeñ: Ad hafer þu giørt ødrum aa mote, þa skuler þu

ydrast þess, og bæta það, so þinn Broder sie Fridstilltur ; Enn hafe hann giört þier at moote, þa skuler þu eige rækia það. Þetta Lögmaal er eins gott fyrer Einn, sem fyrer Annann, fyrer Guds Doome, jafnvel, þott það þyke Ofgar fyrer Doome hinnar stolltu og Heiptræku Veralldar.

Mier skilst allt þetta ; Enn maa eg þa giöra allt annad hvad eg vil, ef eg alleina fyrergef mijnum Naunga ?

Langt er fraa þvi : Og laat þier það eige i Hug koma, að þu vilier hafa þetta, til að bæta med adrar Synder ; Þvi, so sem aadur er sagt, þa er eige þijn Fyrergefning Orsök til þess, að Gud fyrergefe þier, helldur hanns Fyrerheit. Þu hefur heyrt, að saa sem vill hafa Not þeirrar Kvittunar, sem hann hiaa Gude feinged hefur fyrer undannfarnar Synder, hann skule frammveges lifa i Endurnyungu Lijfdaganna, það er : Að hann life epter Guds Bodordum, það mesta honum mögulegt er ; Þo kanntu alldrei Bodordenn upp að fylla, so þu þarft daglegrar Idranar vid : Nu ef þu tilgefur þijnum Broodur sijnar Synder, þa heiter Frelsarenn þier, að sinn Hinneske Fader vilie fyrergefa þier þijnar Misgiörder, og

jafnvel þott þig kuñe Stoorglæper ad hen-
da. Samt er þo eige þesse Guds Naad
nockurskonar Leife til ad syndga, helldur
Huggun fyrer þañ, sem syndgast hefur;
Eñ hversu vel sem þu lifer (eñ þu lifer þo all-
drei so sem vera ꜳ) þa vill Gud eige fyrer,
gefa þier, þad sem ꜳ brestur, nema þu
ad fullu, tilgefer þijnum Naunga: Þvi
hin minsta Synd a moote Gude er þesssstæ-
rre, eñ allt þad illt, sem þiñ Brooder kañ ad
giøra a moote þier, sem Gud er Moñum
meire; Hura þvi eige med þier: Eg vil
Stela, Eg vil liwga, Eg vil Hoordoom
drygia; Eñ fyrergefa þeim sem vidlijkt
giøra vid mig, þa mun eg kvittur verda miñ
Synder mijnar epter Lausnarans Fyrer-
heite; Helldur so: Hafe eg Stoled, ha-
fe eg Loged, og Hoordoom drygt, og ydrast
þess af Hiarta, og vil aflꜳta þessum Syn-
dum, og fremia þær alldrei optar, þa mun
Gud fyrergefa mier þær, ef eg fyrergef
mijnum Broodur, eñ añars eige. So ge-
fa nu þesse Ord eckert Leife til ad syndga,
helldur skulldbinda ydrande Syndara til
ad fyrergefa þeim, sem hønum hafa moote
giørt.

Þad

Pad er audsied, hverneñ þesse Bœn miñe mig a
þad, sem eg þarf ad bidia?

Pad mun þier virdast nær þu hugleider, hvad miked þu ert Gude skylldugur, og hvad þu med Syndeñi hafer forþienad; Og þar ad auke, hversu tregt þier veite ad fyrergefa þijnum Naunga, og hvad miked þu misser, nema þu þad giorer, sem er: Guds Naad og þiña Synda Fyrergefning; Eñ veitst þo ecke, nær Daudeñ kallar þig fyrer Guds Doom; Og hvllijkur Haaske sie ad deya i illu Skape, mar sia a hinum vonda Þioon, er Herrañ hafde uppgefed alla Skulldena, Matth. 18. v. 28. 34. Eñ er hañ geck burt, greip hañ fyrer Kverkar aa sijnum Samþioon, þar fyrer var hönum kastad i hin ytstu Myrkur, þad merker, eylijfar Kvaler.

Nu er adkomed hiñe SJOTTU BÆN.

† Eige leid þu oss i Freistne. †

Legg mier hana wt, eins og hinar. Hvad er þetta? Leider Gud nockurn Mañ i Freistne, edur med hveriu Mooti?

Freistneñ er med Tveñu Moote: Ein til Goods, Oñur til Jlls. Gud freistar ad sõñu einkis Mañs til Jlls, seger Jacob, Cap. 1. v. 13. Þo freistar hañ Mañsens,

num til gooda, þad er: 1. Þegar hañ lætur hañ rata i einhvern Mootgang, til ad reyna hañ; Edur og hañ dregur undañ sijna Hiaalp i Mootgaangenum, ad hañ þar med æfe sig, og leikist i Þoleñmædeñe; Og ad þar med reyneſt hañs Framfør, at Guds Vegi, hañs Trw, Von og Elſkañ til Guds, Hlydneñ og Stødugleikeñ: Eige þeſs vegna, ad Gud þurfe ad vita hvad med Mañenum byr; Þvi aller Hluter eru berer og opner fyrer hønum, Ebr. 4. v. 13. Helldur til þeſs, ad Madureñ lære ad þeckia GUD, og ſiaalfañ ſig: Gud i þvi, ad hañ ſie trwr, og freiſte einkis yfer Megn frañ; 1. Cor. 10. v. 13. Siaalfañ ſig i þvi, ad hañ megne eckert aan Guds: Uñ þeſſa Freiſtingu talar St. Jacob Cap. 1. v. 2. 12. Segiande: Hallded þad fyrer allañ Fegnud, Brædur mijner, þegar þier falled i nockurskonar Freiſtingar. Og ſkømu ſijdar: Sæll er ſaa Madur, ſem Freiſtingana þoler, þvi nær hañ er dugandes fundeñ, mun hañ ødlaſt Lijfſens Coronu, hverre Gud hefur lofad þeim er hañ elſka. 2. Freiſtar Gud Mañſens, nær hañ lijdur, ad hañ freiſtiſt til hins illa, uñ ſtundarſaker, af

af sijnum Andlegum Ovínum, og þad fyrer sama Tilgang og aadur er sagt um̃ Mañrauner og Mootlæte: Og þar ad auke til ad kieña honum Audmyktena og Lijtelæted, ad hañ ei þykest upp yfer ødrum, sem þeiker erū, þoott hañ sie sialfur betre Kostum bueñ eñ þeir, edur treyste ei of miøg a sialfañ sig: Um̃ þessa Freistne talar Paulus, 2. Cor. 12. v. 7. Segiande: Og ad eg ecki upphrokist af Mikileik Openberanaña, þa er mier gefeñ Fleiñ i Hollded, Eingill Satans, ad hañ slaae mig Kiñhestum. Stundum yferviña Meñ þessa Freistingu, fyrer Guds Krapt, sem ad fullkomnast i Breiskleikanum; Stundum fær hun yferhønd, þad fram̃kemur giarnañ vid þaa, sem miøg freista sijnum eigeñ Mætte, jafnvel þoott Guds Børn sieu: Dæme hier til eru a David, er Satan freistade hañs til ad telia Foolked, 2. Sam. 24. v. 1. Og a Petri, er hañ vogade sier ad ganga i Dauldañ med Christo, eñ afneitade honum þo skøm̃u sijdar, Matth. 26. v. 35. 70. Þetta skedur, nær Gud tekur sijna Hønd af Mañenum, og lætur hañ sialfraadañ; Þo hefur þesse Freisting ætijd goodañ Enda hiaa

Guds Børnum, so sem af Davids og Pet-
urs Dæmunn siaa maa.

Af hverium verda Menn freistader til Ills?

Af Andskotanum, Holldenu og Heim-
enum.

Hvørnenn freistar Andskotenn Mannsens?

Hann er vor skiædarste Ovinur; Þvi
hann eige einasta freistar vor, med sijnum
Innblæstre, helldur og brwkar vort eiged
Holld, þad er spillta Naatturu vora, sem
er hanns Verk; Og so Heimenn, i hverium
hann drottnar, aa moote oss: Þar fyrer
kallast hann Freistare, 1. Thess. 3. v. 5. Umm
hann talar Frelsarenn, er hann sagde Luc. 22.
v. 31. vid Petur: Andskotenn hefur girnst
ad sigta ydur sem Hveite, enn eg hefe fyrer
þier beded, ad þijn Trwa þrotnade ecke.
Hanns Brøgd er Omøgulegt upp ad telia.
Þvi hann er Þusund Viela Smidur, þo er
þetta Epterfylgiande hid hellsta: 1.
Þegar Gud leggur sinn Krøss aa oss, þa
eggiar hann Hollded aa Oþolenmæde, og
Orvæntingu. 2. Lætur hann oss synast
Guds Alag a Stundum Obærelegt, Ofor
skulldad, Sierlegt, og ødruvijse enn annarra
Manna; Sierdeilis ef þad er margvijs-
legt,

legt, og i þyngra Lage, eins og Jobs. 3. Þegar hañ lætur oß synast eiñ Hlut goodañ, sem þo er oß um̃ Megn, og ecke tilheyr. er vorre Kallan, eñ kemur oß þo til ad takast hñ a Hendur. 4. Þegar hañ hylur Glæpena under Skinï Dygdaña, so sem; Agirndena under Yferhylningu Framsyneñar, Hardydgena under Skine Vandlætesins, eins og þegar hañ kom Paulo til ad Of-sækia Guds Christne, Act. 22. v. 4. Þegar hañ kallar Drambseinena Hugprydе; Framvitskuna Heilagañ Einfalldleika, Ohoofed og Eydslusemena Orlæte, Hyrduleysed og Toomlæted nefner hañ Spekt og Rooseme. 5. Þegar hañ stelur Ordenu wr Hiörtum Mañaña. 6. Þegar hañ kemur heim til ad utrysnwa Guds Orde, og keña raangañ Lærdoom, og villa Saalernar, añadhvert af Sierviskn, Käppe, edur Metnade. 7. Þegar hañ giörer Syndena of-smaa i vorum Augum, eñ fegrar þad of-miög fyrer oß, er vier laatumst Gott giöra. 8. Þegar hañ giörer hana so stoora, ad Meñ örvæntast sier Guds Naadar.

Pu hefur ek nu eige sagt mier hvad pad sie: Inleid oss eige i Freistne?

Pad merker eckert anad, En pad, ad Gud laate oss eige falla i Freistne. Pena Skilning hefur haft Tertullianus og Cyprianus Lærefedur; Og er þvilijkt Orda Tiltæke Almeñt i Ritninguñe, ad hun seger, ad Gud giøre Eiñ Hlut, þegar hañ lijdur edur lofar, ad hañ sie giørdur; So seger i Exodi Book, Cap. 9. v. 12. og Cap. 10. v. 1. Cap. 8. v. 15. og Cap. 9. v. 34. Ad Gud hafe forherdt Hiarta Pharaonis, þar þo skoñu ædur stendur, ad Pharao siælfur hafe forherdt sitt Hiarta.

Hverneñ verdum vier af Hollde og Bloode freistader?

Pad seger eingeñ betur eñ Jacob Postule Cap. 1. v. 14. 15. A þeña Hatt: Sierhver Eiñ verdur freistadur, þegar hañ af siñe eigeñ Girnd verdur afvega leiddur, og tilegndur; Par epter nær Girndeñ er friooffsom ordeñ, þa fæder hun Syndena; Eñ Syndeñ, nær hun frameñ er, getur hun Daudañ. Añars freistar Holldet vor a marga Vegu: Med Hrædslu fyrer Meñunum, nær Guds Eyrende a ad

re:

teka; Med Undan̄drætte og Toomlæte i
born Sæluhiælpar-Verke; Med Hug-
leyse og Vantrauste i Mootgængenum;
Ohoofe og Metnade, þegar ad Ofkum
geingur; Med Prældoomsfullre Hræs-
ne fyrer þeim, sem vier ætlum ofs nockud
gott af, en̄ Dramblæte vid þaa, sem eru
min̄e Mættar. En̄ Diofullen̄, sem best
þecker þen̄a sin̄ Smijdis-Grip hiaa hver-
lum einum, han̄ forsoomar eige ad bera
þad hverium einum i Augu, sem han̄ er
hellst geften̄ fyrer, eins og þegar Agn er la-
gt fyrer skynlaus Kvikinde.

Hvad merker þetta Ord, HEIMUREN, edur
hvernen̄ freistar han̄ vor?

Heimur þijder eige hier þad dæsamle-
ga Forvyrke Himens og Jardar, er vier
siaaum, Helldur merker þad Søfnud O-
gudlegra, sem ecke leidast af Guds Anda,
helldur eru þeir Satans Vørn, og lifa
epter Girndum sijnum, Um̃ þaa talar so
Johan̄es: 1. Joh. 5. v. 19. Ad Heimur-
en̄ ligge i þvi Vonda. Han̄ er aa marga
Vegu Guds Vørnum til Asteitingar:
Fyrst ofsæker han̄ þaa, sem Guds eru, so
þeir meiga vel ætbuner vera, ef þeir eige

skulu leidast i Freistne. J Aűaň Maata lijdur þeim giarnaň vel i Heimenum, og þeim luckast hvad þeir uppbyrta, jafnvel i Fiandans Nafne: Pad er eige lijtil Freisting fyrer Guds Born, þar þeim af Nattúrlegum Breiskleika hætter til ad dæma undarlega uň Guds Raadstofun af þessu. Par uň talar so David Ps. 73. v. 12. og 13. v. 16. 17. 18. Siaa, ad hiner Ogudlegu lifa Roolega, og efla siň Maatt, þar fyrer hreinsa eg forgefens mitt Hiarta, og þvæ mijnar Hendur i Sakleysenu. Og litlu sijdar: Ef eg huxade med mier, ad skilia þad, þa syndest þad torvelldt i mijnum Augum, allt þar til eg geck in i Helgedoom hins sterka Guds, og giætte ad þeirra Endalykt, þvi þu setur þaa uppaa hid haala, og kastar þeim nidur i Eydelegginguna. Hier ad auke freistar Heimurenň Guds Barna med vondum Dæmum, Aeggiunum, og Raadleggingum, hvad allt Satan færer sier i Nyt, til ad raada Guds Þegna undaň hømum.

Fyrst Gud freistar Maňsens til Goods, og lijdur ad vier aa Stundum verdum freistader til Jlls, hvers bidium vier þa i þessare Bæn?

Eingaňveigeň bidium vier, ad Gud

vilie

vilie ecke freista vor med Krossburde og Mootgaunge; Þviad i gegnum margar Hormungar, byriar oss in̄ ad gaunga i Guds Rijke, Act. 14. v. 22. En̄ um̃ Heilaga Polen̄mæde i Mootlætenu bidium vier, ad vier jafnan̄ segium: Verde þin̄ Vilie, eige helldur afbidium vier aldeilis, ad Gud laate oss eige freistast af Andskotanum, Hollden̄u og Heimenum, þvi vor Hagur i þessu Lijfe er þan̄en̄, ad vier kun̄um eige aan Freistinga ad vera: Af Dioflenum; Þvi han̄ geingur i kriing sem gren̄jande Leon, leitande ad þeim sem han̄ faae uppsvelgt, 1. Pet. 5. v. 9. Edur af Holldenu, þvi þegar vier vilium giora þad Gooda, þa loder hid Vonda vid oss, Rom. 7. v. 21. Og um̃ Heimen̄ seger Endurlausnaren̄, ad þar hlioote ad koma Hneixlaner, Matth. 18. v. 7. Þad er Guds Vilie, ad þan̄en̄ vera skule, wr þvi sem raada var, sijd an̄ Maduren̄ fiell fraa honum; Þvi hvar sem eingen̄ Baraatta er, þar er eingen̄ Sigur; Og han̄ syner hvad mest sijna Makt aa Dioflenum, og han̄s Verkfærum, þegar han̄ tredur han̄ under sijn̄a Barna Fætur; Þvi sagde Frelsaren̄ i Bæn-

eñe til sijns Fodur: Joh.17.v.15. Eg bid
þig Fader, ecke ad þu taker þær burt wr
Heimenum, helldur ad þu vardveiter þær
fra hinum Vonda; Hver Ord Frelsar-
ans ad vel wtskyra þessar Tvær Bæner,
þessa, og hina epterkomande; Þvi biðium
vier nu i þessare Bæn, ad Gud laate oss
ecke sigrast af Freistinguñe, þad er: Ad
hañ ei lijde, ad vier iñleidunst edur verdum
iñborner i Freistingu, þad er hid sama og
iñgaanga i Freistne, so sem Frelsareñ ad
Orde kemst hiaa Lucam, Cap.22.v.40.46.
Og ad falla i Freistne, hvad Paulus grein-
uglega wtmaalar 1. Tim.6.v.9. Seg-
iande: Þeir sem Rijker vilia verda, falla
i Freistne, og i Snoru Diøfulsens, og i
margar Girnder vitlausar, og skadsamleg-
ar, hveriar ad steypa Mañenum i Top-
un og Fordiørfun: Amoote þessu bidium
vier, eñ eige hinu, ad vier ei siñum til Freist
ingaña, aa medañ vier berum epter oss
Lijkama þessa Dauda, jafnvel þoott vier
giarnañ villdum aan þeirra vera. So
er þa Meiningeñ i þessare Bæn, su sama
sem Lutherus seger, ad vier bidium: Ad ei
hrøpum vier i neinar Stoor-Synder ed-

ur

ur Løstu; Eñ hier um̃ Bœnheyrer Gud oss: 1. Þegar hañ Daglega Endurnyar og eykur i oss Trwna, og heñar Averkte, so ad vier Endurnyunst i Anda vors Hugskots, og Iklœdunst nyum Mañe, sem epter Gude er skapadur i Rettlæte og Heilagleika; Þvi Freistingeñ kañ ei ad viña mieg aa þañ, sem Gud veiter þa Naad. 2. Þegar hañ vekur i oss þessa Krapta, so ad vier brwkum þaa aa Freistingar-Tijmanum, þad er: Þegar Dioflulleñ, Heimureñ og Hollded vilia locka oss til nockurrar Syndar; Þvi aan hañs getum vier þad ecke, Hañ er þad, sem verkar i oss bæde ad vilia og fram̃kvæma. Philip. 2. v. 13. 3. Þegar hañ hindrar Diøfuleñ, Holdded og Heimeñ, og setur þeim Skamt, ad ei nææ þau ad sigta Guds Børn, so þau falle i Freistinguna, edur flækt verde i Diøfulsens Snøru. 4. Þegar hñ verkar i oss Þol eñnædena og Vonena, og lætur oss nægiast med sijna Naad, 2. Cor. 12. v. 9. 5. Ef hañ epter sijnum Rettferdugum Doome, lijdur, ad vier føllum i Freistne, añadhvert vegna undañfareña Synda; Edur þess vegna, ad vier treystum oss ofmieg, so

sem

sem David og Petur hendte; Ad hañ þa kallar oß aptur til Ydranar, og lijdur eige, ad vier yfergefunst i frækleitt Siñe; Edur verdum Tilfiñingarlauser, og gaungum so epter Girndum vors Hiarta: Og fyrer þvi, ad vier eckert af þessu megnum af sialfum oß til, Jæ, ef vier þad leidum i Hug vorn, þa erum vier hvad nærster Fall enu, þa sier þu, hvad stoora Þørf vier høfum æ ad bidia Gud um̃, ad hañ eige læte oß falla i Freistne, þar vier erum so veiker, eñ vorer Oviner so skiæder og mæattuger.

Gef mier Utskijring yfer þa Siøundu Bæn.

† Helldur frelsa oß fra Jllu. †

Þad Ord, sem hier stendur i Textanum, merker eige einasta, ad Frelsa þañ, sem allareidu er i Naud edur Hæska staddur, helldur og ad vardveita eiñ fyrer Olucku ñe og Hæskanum; Eñ þetta Ord, Fræ Jllu, leggia sumer wt: Fra þeim Vonda. Þad er: Fra Dioflenum; Þvi so kallast hañ añarstadar i Nya Testamentenu, hvad ed lender i sama Stad; Þvi Satan er alls ills Orsøk og Høfundur, so þegar vier erum fra hønum frelsader, þa erum vier frelsader fra ollu Jllu; Og þegar vier erum fræ

ollu

ollu Illu frelsader, þa erum vier fra hønum frelsader: Par fyrer stendur þesse Grein seinast af Bœnunum. Þvi hun er so sem Alycktun allra hiña: J hinum bidium vier Gud vorn Fødur um̃, ad veita oss þad gooda, og ad søñn afbidium þad illa med þad sama, þo eige so wtþryckelega; Eñ hier bidium vier ALLS J EJNU, so sem Lutherus seger i Frœdunum, og gengur hun i gegñum allar hinar Bœnernar; Þvi forgefens Helgast Guds Nafn, siñ i sialfu sier Heilagt er, nema Gud hindre Dioful eñ og vardveite oss, bæde fyrer hønum, Heimenum og voru eigeñ Hollde, ad þad ei verde af oss vanhelgad; Og ei mæ hañs Rijke til vor koma, edur i oss vera; Ei helldur kañ hañs Vilie ad vera medal vor, edur af oss fram̃kvæmast, nema Andskotans Rijke, sem er folged i allra Skam̃a Ydkan, sie nidurbroted, og hñs Vilia, sem er ad mootþægia Gude, og draga Mañeñ fra hønum, sie moote staded; Og sama er ad segia um̃ hinar epterfylgiande Bœnernar, so bidium vier nu: 1. Ad Gud vardveite oss fyrer Andskotans Vielum, og Ofbellde. 2. Hafe hañ allareidu flækt oss i sijnu Ne-

te, þad er, komed oß til Syndareñar, edur tamed aa einhvern syndsamlegañ Vana, þa bidium vier, ad Gud vilie frelsa oß þar fra. 3. Bidium vier Gud uñ, ad hañ vardveite oß fra tijmanlegre Olucku, hvert helldur þad snerter vort Lijf, edur Limu, Eigner vorar, Æru, edur Heidur, þvi a ollu þessu kappkostar Satan ad giora oß Hindrun og Skada. Eñ þessa Bæn bidium vier med þvi Skilyrde, ad honum synest þad illt fyrer oß, sem vier afbidium, eñ ecke framar: Þvi vier vitum eige sialfer hvad osser fyrer bestu; Og ef vier hofum i eitthvad þvilijkt ratad, hvert helldur þad er af Satans og Vondra Mañа Tilstille, edur og af vorum eigeñ Vijtum, Forsoomun edur Yfersioon, þa bidium vier, ad Gud vilie þad lina, bæta, edur olldungis burttaka, edur og lagfæra epter sijnum þægelegum Vilia. 4. Søkum þess ad Verndeñ og Frelsed fra þvi Vonda, kañ eige i þessum Eymdadal ad vara leinge i señ, þar vier hverke kuñum aan Syndar, edur Mootlætis ad lifa, a medañ vier bwum i Holldenu; Þa bidium vier, ad vier meigum, uñ sijder, leyster verda af ollu Andstreyme, og Araasum Diofulsens,

Heim-

Heimsens og Holldsens fyrer tijmanlegan Dauda. 5. Og fyrer þvi, ad Dauden giører ecke Enda a Eymdum allra Mana, helldur er han Upphaf Kvalana, þeim sem tapast, en Guds Børnum Jngangur til Lijfsens; Þa bidium vier nu umfram alla Hlute, ad Gud vilie so stioorna Trw vorre, ad hun sie aavaxtarsøm, og alldrei siüunst vier i þvi Hættalage, sem vier þurfum ad ottast fyrer ad deya i, og meigum jafnan med Paulo segia, i fullu Trauste, DRottenn mun frelsa mig af øllu Jllu og mig hoolpin giøra, og vardveita mig til siins Himneska Rijkes, hverium sie Lof og Dyrd um Allder Allda Amen, 2. Tim. 4. v. 18. J hverium Ordum ad Postulen synest ad hafa lited til þessarar Bænar: Og ef vier af manlegum Veikleika, edur fyrer slæ gdarfulla Dioful sens Aeggian, kunum ad rata i þad Hættalag, ad oss sie eige ohætt ad deya i þvi, ad han þa vardveite oss fra bradum og ovijsum Dauda, og gefe oss Ydran til Apturhvarfs, ad vier mættum deya Riettlætra Mana Dauda.

† Þviad þitt er Rijked, Mættuгen og Dyrden um Allder, Amen. †

Hun hefur miked i sier folged, og er harla naudsynleg: Pvi 1. Minnum vier Gud hier aa sitt Loford, og a sitt Konunglegt Embætte: Pvi brwkum vier þetta so sem fyrer Orsok, hvar fyrer vier eigum ad bænheyrast, nær vier rettelega bidium; Og honum tilheyre, ad stat fyrer Raade voru og forsvara oss, so sem Konungur sijna Pegna.

Pviad þitt er RJJKED: Par med er meint Guds Naadar-RJJKE, þad er, Christi RJJKE, og þad vier bidium um i þessare Bæn, eru þeir Velgiorningar, sem hann wtdeiler, og med hverium hann stioornar þessu sijnu RJJKE aa moote Andskotanum, Holldenu og Heimenum, vegna vors Vanmættes, sem þessum so skiædum Ovinum faaum eingañveigen i moote stadeð, af vorum Kroptum; Nema vier medtokum þad af vors Konungs Hende, hvers Embætte þad er, ad vernda og frelsa sijna Undersaata, sem aadur er sagt, og ad fa þeim þar til Vopn og Veriur, fyrst hann af Naad sine hefur Utvaled sier eitt Rijke i Mannana Hiortum, og virdist

ad

ad kallast, og vera vor Kongur, og þar fyrer hefur hañ skipad, ad bidia hier um, og lofad, ad hañ vilie oß bænheyra. ÞJNNER MATTUGEN: Þesse Ord miña a Guds Almætte: Ad hañ alla Hlute kuñe miklu framar ad giøra, eñ vier kuñum ad hura edur bidia, og hañ sie øllum vorum Ovinum meire. OG DYRDENN; Med þessum Ordum miñer: 1. Trweñ vor, Gud a þad; Ad þad sie hønum vegsamlegt, og þad heyre til ad prijsa og auglijsa hañs Dyrd, hañs Giæsku, hañs Myskunseme, ad hañ Bænheyre oß, Þioona sijna, um þa Hlute, er hañ hefur skipad oß um ad bidia, og gagna til ad efla hañs Dyrd. 2 Stirkest Trweñ vor i Bæneñe vid þesse Ord, fyrst þar vier jaatum ad hañs sie Rijked, hvar iñe vier lifum; Þvi kuñum vier ecke ad efast um, ad so Giæskurijkur Herra, sem hefur afrekad þetta Rijke med Guds Sonar Dauda, hañ mune uña oß þeirra Astgiafa, aan hverra sama hañs Rijke ei getur stadest, þar eingeñ kañ ad leida sier i Hug, ad hañ hafe viliad læta Soneñ forgefens aa sig taka vort Holld og Blood, og lijda i þvi Kvøl og Krosßens

Dauda; Þvi kañ Trwen alldrei ad efast uñ hañs Vilia, til ad veita oss Bæner vorar, nær vier segium ad hañs sie Rijked. 3. Þar vier jaatum ad hañs sie Maatturen, þaa treystum vier þvi, ad hañ gete veitt oss þad hañ lofad hefur, og fyrst hañ bæde vill og kañ, þa meigum vier med þess meira Trauste bidia. 4. Þar vier segium: OG DYRDENN, þa er Trwen þess fullørugg, ad hañ mune veita oss þad hañ lofad hefur, til ad auglysa þar med siñ Guddomlegañ Sañleika, sijna Makt og Goodgirne, so ad eige sege hiner Gudlausu, hvar er nu þeirra Gud? Ps. 115. v. 2. Þvi hañ er Jehova, og vill eingum gefa sijna Dyrd, Es. 42. v. 8. 5. Miñum vier oss siaalfa a, hverneñ vier eigum ad brwka þessa Velgiorninga, sem vier med Bæneñe ødlunst, og hvar til og hvorneñ vier lofum ad brwka þa, sem er: Til Dyrdar honum, og hañs Rijke til Eflingar, hvar uñ David so talar: Ps. 145. v. 11. 12. Þeir munu framsegia Dyrd þijns Rijkis, og tala uñ þijna Makt, so ad þeir kuñgiøre Mañaña Sonum þijna Makt, og Mikilleik Dyrdar þijns Rijkes.

Hvad merker þetta Ord

AMEN.

Pad er Hebræskt Ord, og merker i þessum Stad VISSULEGA, SANNarlega, hvert brwkad er i Nya Testamentenu til ad stadfesta ein̄ Hlut, ad hñ skule obryggdull vera, so sem þegar DRotten̄ sagde, Luc. 23 v. 43. Vid Ræningian̄ a Krossenum: AMEN. sege eg þier i Dag skalltu vera med mier i Paradis; Og er þvi Bænen̄ aalyktud og in̄siglud med þessu Orde: 1. Til þess ad min̄a þan̄ sem bidur, under þad Bænen̄e er loked, a þad, ad athuga, med hvilijkre Gudrækni og Athugaseme hñ hafe lesed Bæner sijnar, hveriar Men̄ epter Christelegre Sidvenju, eru vaner ad enda med þessare Bæn, og til ad uppvekia i oss eina heita og alvarlega Andvarpan til Guds, ad han̄ vilie þær vorar Bæner heyra; sem þier i Christi Nafne høfum wthellt i han̄s Skaut, og in̄siglad med þeirre Bæn, sem han̄s Sonur hefur skipad oss fram̄ ad bera fyrer þaa Hæleitu Guddoomsens Preñingu. 2. Auglyser Trwen̄, med þessu Orde, ad nær Madurem̄ bidur i Anda og San̄leika, þa efest hun ecke um̄ Bænheyrsluna; Helldur treyste þvi, ad allt þad sem

hañ umbeded hefur, i JEsu Nafne, epter hañs eigeñ Forlage, pad mune sier veitast; Þvi hun tekur þetta Ord, AMEN, af Fyrerheite Lausnarans, er hañ sagde, Joh. 16. v. 23. AMEN AMEN sege eg ydur, hvers þier bidied Fødureñ i mijnu Nafne, pad mun hañ veita ydur; Og þar til leggur hun sitt Amen, so sem nockurskonar Iñsigle, uppa pad, ad GUD sie sañordur, epter þvi sem stendur hia Johañem, Cap. 3. v. 33. Sa sem medtekur hañs (Sonarens) Vitnisburd, hañ iñsiglar pad, ad Gud sie sañordur; Þvi kallar og Hieronymus þetta Ord, AMEN, Iñsigle Bænareñar.

Þar nu þesse Bæn iñebindur so myked i sier, sem nu hefur þu sagt, Hvørneñ er mier pad møgulegt, ad læta mier alla þa Hlute i Hug koma, nær eg haña les, hverju vel sem eg villde?

Þar fyrer skalltu fyrst læta allar þijnar Bæner vera bygdar a heñe, so þær til þess heimfærest, sem hun i sier foolged hefur, epter þvi, sem þu ad nockru Leite, hier ad framañ heyrt hefur. J Ødru Lage skalltu yduglega þeinkia um þessa Bæn, og þa Hlute sem hun vijsar þier til, og sierdeilis

deilis under þad þu fer til ad bidia ; Eñ Mañsens Hugur er fliootur ad reña aa þa Hlute, sem hønum tamer eru, og hañ elsk- ar, so og er Heilagur Ande med þier i Bæn eñe, til ad hiaalpa Maattleyse þijnu, og ad miña þig aa þad sem bidia þarf: Ef þu nu giører so, þa munu añarleger Paankar sijdur glepia fyrer þier. J Pridia Maa- ta, þa liggur þier eckert aa ad flyta þier med þessa Bæn; Les hana seint, stødugt og med Athygle, þa mun þier margt Gott i Hug koma; Og hugleid hversu stoor Synd þad sie, ad fleipra hana wt af Muñenum all- eina, eñ hura eckert um̃, hvers Madur bid- ur; Þess vegna meina eg, ad so sie tilgiørt i Heilagre Pioonustugiørd, ad þesse Bæn, og adrar Veniulegar, verde sungnar, so ad Foolked sem aasamt Prestenum aa ad bid- ia til Guds, þad hafe Toom til ad hura ept- er, hvers þad bidur.

Hvad Raad skal eg hafa vid þvi, ad mier flioge eige Añarleger Paankar i Hug, medañ eg er ad bidia ?

Fyrst skalltu, aadur eñ þu fer ad bidia, hugleida med þier, hversu stoor og skelfeleg Haatign þad er, sem þu ætlar ad frañflyt-

ia þijnar Bæner fyrer. J Aññañ Marta, hvad stoora Þorf þu hefur aa, ad verda Bænheyrdur, hvad þier best maa takast, ef þu yfervegar Eymd þijna og Vannmatt, eñ Afl og Ofstæke Ovina þiña, og Hættu þa, sem þier er hvern Dag bweñ af Daudanum, sem verdur þier aññadhvert Jñgaaugur til Lijfsens, edur Upphaf eylijfra Kvala. Ad þessu undaññfornu, skalltu fyrst bidia Gud uñ, ad forlaata þier Synder-nar; Og kosta Kapps uñ, ad vera i Naad hiaa hönum, nær þu bidur, og so framveiges ad stioorna Hiarta þijnu, og vekia i þvi Gudrækilegar Hræringar. Og ef þu ert þier medvitande þess Veikleika, ad Hugur þiñ hvarfle vijda i Bæneñe, þa bid med faam Ordum, eñ þo kroptugum og alvarlegum, eñ bid helldur optar: Vilie Aññarleger Þaunkar eñ þa stelast iñ hiaa þier, þa hugga þig vid Guds Myskunseme, sem tekur Viliañ fyrer Verked, og bid Forlaats aa þessum Veikleika, ad Endingu Bænareñar.

Nu þoott ad eg meige fullviss vera uñ Bænheyrsluna, sem nu hefur þu sagt, Eige ad sijdur veikest Trw mijn opt og Tijdum, og serdeilis i Mootlætenn, allrahelllst þegar Gud dregur Hialpena undañ, jafnvel i

Andleg

Andlegum Efnum, oa Stundum.

Hvad þvi vidvijkur, ad Gud undañdreg ur Hiaalpena, þa giörer hañ þad alldrei, nema þeim til Gooda sem hañ elska, og af Hiarta bidia; Þvi seger hañ: Es. 49. v. 8. A þægelegum Tijma skal eg Bænheyra þig, og aa Dege Hiaalpræđesins skal eg hiaalpa þier; Hver Spaamañsens Ord ad Paulus heimfærer 2. Cor. 6. v. 2. Til Andlegra Hluta: Eñ þess er ad giæta, ad þu legger þad til, sem i þijnu Vallde er, og Gud hefur gefed þier Krapta til ad framkvæma, sem er: Ad Krossfesta þitt Holld Daglega, þad er: Ad dempa Holldsens Girnder; Og ad J klædast nyum Mañe, þad er: Ad leggia allt Kapp aa, ad giöra þad Gud hefur boded. Þvi hvad er þad ad bidia Gud ad taka fraa sier Holldlega Lyst, og Syndsamlegar Girnder, eñ ala þær þo og elska, og strijda ecke aa moote þeim? Er Gud þa skylldugur ad Bænheyra þig? Edur hefur hañ forgefens End urfædt þig og Endurnyad? Eñ ef þu legg ur þad til, sem i þijnu Vallde er, þa maattu vera so viss uñ Bænheyrsluna, so sem Gud er Sañordur; Eñ aa medañ hañ undañ-

dregur Hialpena, þa laat þier med Paulo nægiast hañs Naad, þvi hañs Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum. 2. Cor. 12. v. 9. Eñ hvad Trwarveikeñe viduiikur, þa er þad, ad soñu visst, ad Fyrerheit Naad areñar i Evangelio, heyra ad soñu øllum til; Eñ uppaa þad, ad Trweñ, sem kemur af Heyrn Ordsens, Rom. 10. v. 17. Mege þesssstyrkare verda, þa hefur Gude þocknast af siñe Ouñrædelegre Myskunseme, ad laata Ordenu, siñ heyrt verdur, fylgia synelег Merke, sem eru Sacramenteñ, so ad sierhverium Einum verde þad meddeilt i þeirra Krapte, sem øllum er frambodeð i Ordenu.

Seg mier nockud af SACRAMENTUNUM, Hvad er SACRAMENT?

SACRAMENTUM er Eiñ Giørningur, af Gude iñstiptadur, i hverium ad Himnesker Hluter, med Krapte visssra Orda, verda samteingder þeim synelegu Jardnesku Hlutunum, og af Guds Þienara meddeilder þeim, er Sacramenteñ-brwka, so ad med þessum Hætte verde Naad Evangeli, sem i Ordenu heiteñ er, so sem med ødru Iñsigle og Pante, Tileinkud og Iñsiglud þeim sem trwa. Hvad

Hvad mørg eru SACRAMENTENN?

I Gamla Testamentenu voru Tvø Sacrament, sem var: UMSKURNENN, Gen. 17. v. 10. Med hveriu Mañeskiañ var iñviigd og iñtekeñ i Guds Sattmaala; Añad var PASKA-LAMBED, Exod. 12. Sem var iñsett i Miñingu Utleidsluñar af Egypta-Lands Prældoome. Þesse Sacramente eru nu afmaad, og eñnur i þeirra Stad iñsett af Christo: SKIRNENN i Stadeñ Umskurnareñar; Eñ DRottens KVOLLDMAALTID i Stadeñ Paaska-Lambsens. Þo er odruviise hattad Gamla Testamentesins Sacramentum eñ þess nya; Þvi Gamla Testamentesins Sacramente, voru Fyrermyndan og Skugge Epterkomande Giæda, Hebr. 10. v. 1. Eñ i þvi Nya er allt þad uppfyllt, sem i hinu Gamla var fyrermyndad, og þvi høfum vier i þeim siaalfañ Liikamañ, og siaalfa Hlutena, sem Paulus vottar, Col. 2. v. 17. Er hañ seger: Ad hvilijkt hafe vered Skugge þess Epterkomande, eñ Christi sie Liikameñ; Þad er: Ad allt sie i Christo uppfyllt.

Seg

Seg mier nockud af SKJJRNENNE.

SKJJRNENN er hid Fyrra Sacrament Nya Testamentesins, i hveriu ad Mañeskiañ, lifande, og boreñ i þeña Heim, epter Guds Bode, samteingdu med Fyrerheite Naadareñar, verdur auseñ Vatnenu, hvert ed samteingt er med H. Anda, sem i Ordenu byr: J NAFNE FODUR, og SONAR og HEJLAGS ANDA; So ad Trwen, og fyrer Trwna Arfleidslan og Endurfædingeñ verde heñe veitt og iñsiglud.

Hvad merker þetta Ord, Ad JNNSJGLA?

Pad merker hier ad stadfesta, og giora Eiñ vissañ um̃ þad, sem lofad er: So sem þegar Meñ giora eiñ Giørning, þa setia þeir Jñsigle þar ad nedañ, so hañ skule Obrygdanll og stadfastur vera; So hefur og Gud giort i þessu, til ad hiaalpa Vantrw Mañsens; Þess vegna seger i Fyrsta Johañis Pistle, Cap. 5. v. 8. Þrijr eru þeir, sem Vitnesburdeñ bera aa Jordu, Andeñ Vatned og Blooded; Hvar Andeñ merker Orded, þvi Guds Ande byr þar i; Vatned Skijrnena; Eñ Blooded þad Heilaga Alltaresins Sacramentum; Og so

sem Jñsigleñ duga ecke fyrer utañ Giørningeñ, eñ Giørnigureñ verdur stadfestur med Jñsiglunum, so megna og ecke Sacramenteñ neitt fyrer utañ Orded, hiaa þeim, sem til Ara eru komner, og Heilvita eru, eñ Orded og Guds Fyrerheit i Ordenu verda med Sacramentunum, so sem med nockurskonar Jñsigle stadfest; Þar fyrer seger Paulus: Rom. 4. v. 11. Ad Abraham hafe medteked Teikn Um̃skurnareñar, so sem Jñsigle Rettlætes Trwareñar, Þad er:: Þeirrar Trwar, er hañ feinged hafde af þvi Orde, er hañ aadur af siaalfs Guds Muñe heyrt hafde, ad i hañs Sæde (þad er i Christo) skylldu Blessast allar Þiooder, Gen. 22. v. 18. Og ad hañ villde vera hañs Gud, og hañs Sædis epter hañ.

Þu seger, ad H. Ande samteingest med Vatnenu i Skijrneñe; Eñ i Frædunum steudur, ad Guds Ord se i, og med Vatnenu?

Þad er hid sama; Þvi Guds Ande byr i Ordenu, eñ Orded er þad Medal, med hveriu ad Guds Ande og Vatned samteingiast; Añars er þetta riett, ad Heilagur Ande samteingist Vatninu i Skijrneñe; Þvi hañ er, sa Himneske Hlutureñ, er aasamt

þeim

þeim Jardneska, sem er Vatned, giører Skijrnena. Þetta vottar sialfur Drotteñ, Joh. 3. v. 5. Nema hver fædest af Vatne og Anda, kañ hañ eige iñ ad ganga i Guds Rijke; og strax þar epter seger hañ: Þad sem af Andanum er fædt, þad er Ande, og Gud wtheller sijnum Anda yfer oss i Endurgetningar-laugeñe; Og so sem Paulus, Gal. 4. v. 4. Seger Guds Son ad vera giordañ af Kviñuñe, so er H. Ande og Vatned, Efne vors andlegs Getnadar, ad vier giørunst Andleger; Þvi so sem ad i Alltaresins Sacramento eru Jñsetningar Ordeñ þad Medal, er samteinger Christi Lijkama og Blood vid Brauded, og Vijned, eins samteinger Orded hier Andañ og Vatned.

Hver eru þau Guds Ord, sem Vatned og Andañ samteingia?

Þau eru med tveñu moote: 1. Er Þad Bodorded, þad er sama og Jñsetningar-Ordeñ, hver ritud standa hia Matthæum, Cap. 28. v. 19. Fared wt uñ allañ Heimeñ, og keñed øllum Þioodum, og skijred þær i Nafne Fødurs, og Sonar, og Heilags Anda. Añad Ord Fyrerheitesins

tesins er so hlioodande hia Marc. Cap. 16. v. 16. Sa sem trwer og verdur skijrdur, hũ skal hoolpeñ verda, eñ sa sem ecke trwer, hañ skal verda Fordæmdur. Hverutveggiu þesse Ord, samteingia, med sijnum Krapte (sem iñefaleñ er i Guds Bode og i hañs Fyrerheite) þad Himneska, og þad Jardneska; Þvi seger Paulus, ad Christur hafe helgad Søfnudeñ, hreinsadañ af sier med Vatns-laugeñe fyrer Orded, Eph. 5. v. 26.

Syn mier af Ritninguñe, ad Børneñ eigi ad skijrast?

Hvad kemur hier til ad efast þar um̃?

Þetta sem Christur seger: Hver Sem Trwer Og Verdur Skijrdur, Sa Skal Hoolpeñ Verda. Eñ hverneñ meiga Børneñ trwa; Þar þau bera eige Vitsmune til, ad þeckia þañ, þau skulu trwa a?

Þu munt og flestu þvi trwa um̃ Gud og Guddoomlega Hlute, sem þu eige aldeilis skilur; Añars være Trweñ eige Trw; Þvi hun er Vissa þeirra Hluta, er vier siaum eige, Ebr. 11. v. 1. Jhverium vier eigum ad gefa vora Skilningu fangna under Hlydni Trwareñar; Eñ hverneñ sem þvi er vared, þa er þad vijst, ad Børneñ trwa;

Þad

Þad vottar hañ sialfur, sem ollum trw-
udum hefur Trwna gefedog afrekad, JEs-
us Christus, þa hañ kallar þau þa Smæl-
ingia, sim a sig trwa, Matth. 18. v. 2. og 6.
Lucas Cap. 18. v. 15. og 16. nefner þau
somu Omaalga Born, og seger þau hafe ve
red boreñ til JEsum, hvad ei verdur skiled
um̃ vareñ Born; Og (hvad meira er) ad
Frelsareñ seger, Matth. 19. v. 14. Ad þvi-
lijkra sie Guds Rijke; Eñ aan Trwareñar
er omogulegt Gude ad þocknast, sim̃ Postul-
eñ vottar, Hebr. 11. v. 6. Og þeir sem
Gude ei þocknast, kuña eige ad eignast Gu-
ds Rijke, og eñ framar seger hañ, Luc. 18.
v. 17. Ad sa sem eige medtake Guds Rijke
so sem añad Ung-Barn, edur omaalga-
Barn; Hañ gange þar eige iñ. Eñ þyk-
ie nockrum þetta olijklegt, þa lijte hañ a
Dæme Johañis Baptistæ, um̃ hvern Ein-
gilleñ sagde, Luc. 1. v. 15. Ad hañ mun-
de uppfyllast af Heilogum Anda i fra Mo-
odur Lijfe: Þvi mun þa Gud eige eins fa
verkad Trwna i Smaabornunum? Edur
var hañ Johañi meira skylldugur, eñ odru
Barne, þar hia honum er eckert Mañgrei-
nar aalit? Þvi edlast Borneñ ad vijsu
Trw-

Trwna i Skijrneñe, og eiga þar fyrer að skijrast: 1. Þviad þeim tilheyrer Fyrerheit Saaluhjaalpareñar: So sagde Petur, Act. 2. v. 39. Ydur og Børnum ydar eru Fyrerheiteñ giørd. 2. Leifed Børnum Til Miijn Ad Koma, seger Frelsareñ, Luc. 18. v. 16. Eñ Skijrneñ er þad Medal, fyrer hvert Børneñ verda færd til Christum. 3. Hvad sem af Hollde er fædt, þad er Hollð, Joh. 3. v. 6. Eñ Hollð og Blood erfa eige Guds Rijke, seger Postuleñ, 1. Cor. 15. v. 50. Þvi skyllðu Børneñ þa ecke skijrast? 4. Þviad Børneñ voru um̃skoreñ a Attunda Degi; Eñ Skijrniñ er komeñ i Staðeñ Um̃skurnareñar; Hvar fyrer hun og nefnest Christi Um̃skurn af Postulanum, Col. 2. v. 11.

Getur eingeñ Saaluhjaalpeñ orded, nema hañ Skijrdur sie?

Su er Guds Almeñeleg Raadstøfun i siñe Kyrkiu, ad þeir alleina hoolpner verde sem skijrast; Þvi sagde hañ vid Nicodemum: Joh. 3. v. 5. Nema Madureñ Endurfædest af Vatne og Anda, kañ hañ eige iñ ad gaanga i Guds-Rijke, þo er Gud eige vid þetta Medal bundeñ; Þar fyrer

 nær

nær hañ seger: Marc. 16. v. 16. Hver
Sem Trwer Og Verdur Skijrdur, Hañ
Skal Hoolpeñ Verda, Eñ Hver Hañ
Ecke Trwer, Hañ Skal Verda Fordæm-
dur, Þa seger hañ eige: Ad hver sem eige
skijrdur verdur, hañ skule fordæmast; Eñ
þeim ei kuña Skijrn ad hreppa, þeim kañ
Skijrnarleysed ecke ad bægia fraa Saalu-
hiaalpeñe; Þvi Gud vill ecke ad nockur af
þessum Miñstu tapest: Matth. 18. v. 14.
So sem eru Børn þau, er ei hlioota Skij-
rn; So og varner Meñ, sem eige kuña
Skijrneñe ad naa; Hvad audsied er af þe-
im Israels Sonum, sem bæde Unger og
Gamler doou O-umskorner i Eydimørk-
eñe, Jos. 5. v. 5. Sem og Ræningianum,
er doo Oskijrdur, Luc. 23. v. 42. So er og
Dæme þar til Sonar Davids, sem hañ O-
med Bersabe, hver ed deyde O-umskoreñ,
og þo sagde Fader hñs: 2. Sam. 12. v. 23.
Eg mun koma til hañs, og hañ eige til
mijn. Kuñugt er, hvad Gud sagde um
Børn þeirra Ogudlegu Ninive Borgar-
Maña vid Jonam, Jon. 4. v. 11. Skyll-
da eg ecke þyrma Ninive, þeim stoora St-
ad, i hverium ad eru meir eñ Toolf Siñum
Tiju

Tyu Þusund Mañs, þeirra sem ei vita til Hægre nie Vinstre Handar. Og hiaa Ezech. Cap. 16. v. 21. Kallar Gud þau Børn sijna Syne, sem Ogudleger Skwr-Goda-Dyrkarar Foornfærdu Moloch. Hvar fyrer eingeñ Efe er um̃ þvilijkra Saaluhiaalp; Eñ hinum er einsætt, og aldeilis Omissande ad skijrast, sem Skijrneñe naa kuña; Eñ Børneñ hafa einga Sok i Forsoomun Skijrnareñar, og eru þvi under sømu Raad, so sem Børn þau, er Moloch voru offrud; Eñ su Skulld lender hiaa þeim, sem þau skijra, edur til Skijrnareñar færa eiga, hiaa hveriun sem Forsoomuneñ finst; Og er þad ein hroopande Synd; Þvi þeir baña Børnunum i Himnarijke, ad so miklu Leite, sem i þeirra Vall de steudur; So ad Foroktun Skijrnareñar fordæmer, eñ ecke Skijrnarleysed: Þvi seger um̃ Pharisæos: Luc. 7. v. 30. Pharisæi og Skriftlærder, sem ei skijrdust, hofnudu Guds Raade aa moote sialfum sier. Um̃ Barnaña Saaluhiaalp talar Irenæus Lære-Fader, Lib. 2. Cap. 29. ægiætis vel: Hañ (Christur) kom til ad giøra alla hoolpna fyrer sialfañ sig, þvi er

hañ vegna allra Alldurs komeñ (hañ meinar, vegna Ungra og Gamallra) og hañ er Børnunum Barn ordeñ, so hañ Børneñ helgade. Hier ad auke eru Guds Heilagra Maña Vitnisburder; David seger um̃ sig: Ps. 22. v. 10. Allt fraa Moodur-Lijfe ertu miñ Gud; Eñ Gud er eige nema Trwadra Gud, epter Naadeñe, so sem hañ sagde Gen. 17. v. 7. Vid Abraham, Fødur Trwadra: Eg skal vera þiñ Gud, og þijns Sæđis Gud. Og Job seger um̃ sig, Job. 3. v. 12. 13. Ad hefde hañ daaed i Moodur-Lijfe, þa hefde hañ sofnadur þagnad og hvijlt i Svefne sijnum. Eñ med lijkum Ordum plagar Ritningeñ ad wtmaala Sælu Utvalldra: Vier munum iñgaanga i Hvijldena, vier sem trwad høfum, seger Paulus, Hebr. 4. v. 3. Þad er i Guds Barna Sælu. Og Apoc. 14. v. 13. Sæler eru þeir, sem i DRottne deya. Andeñ seger vissulega, ad þeir hvijlest af Erfide sijnu; DRotteñ seger sialfur vid Jeremjam, Cap. 1. v. 5. Adur eñ þu komst wt af Moodur-Lijfe, helgade eg þig; Eñ eingeñ verdur helgadur, nema fyrer Trwna. Eg vil hier ei margt tala um̃ Børn

þau,

þau, er Pharao liet Lijflaata i Egypta-Lande: Exod. 1.v.22. Og Antiochus a Maccabæanna Dogum, 1. Macc. 1.v.51. Adur eñ þau voru um̄skoreñ, edur Herodes, Matth. 2.v.16. Þegar Christur var nyfæddur. Villde nockur fordæma þau, þa være hañ grim̄are eñ Herodes, sem være hin mesta Ohæfa ad þeinkia um̄ Gud, sem er Bruñur Giæskuñar.

Ma eingeñ skijra nema Guds Ords Þienare?

Eige Almeñelega; Þvi þeir einer eru Raadsmeñ Guds Leyndardooma, 1. Cor. 4.v.1. Eñ i Vidlogum og Naudsyn mä hver Madur skijra, so Karlmadur sem Kona, er hefur Vitsmune þar til; Þar fyrer um̄skar Ziphora Kviña Moisis siñ Son, Exod. 4.v.25. Og i Maccabæanna Bookum 1. Maccab. 1.v.63. og 2. Maccab. 6.v. 10. Lesum vier, ad Konur hafe um̄skored: Þvi nær Kyrkiu-Þienara vantar, þa hverf ur Þioonustuñar Rettur aptur til Safnadarens; Þar fyrer kende Apollos, Aqvilas, Priscilla, og er audvitad, ad þau og skijrt hafa, Act. 18.

Hvad gagnar Mañinum Skijrneñ?

Þad seger Lutherus med þessum faum

Ordum: Hun frelsar oss fra Daudanum og Dioflenum, og giefur þeim ollum eylijft Lijf og Saaluhialp, sem trwa þvi, sem Ordeñ Guds og Fyrerheiteñ lofa; Hvad hañ wtleggur i hinum Stærre Catechismo a þeña Haatt: Ad Skijrnareñar Kraptur, Verk, Avoxtur og Tilgangur sie, ad giora Meñena hoolpna; Þvi eingeñ verde til þess skijrdur, ad hañ verde Hofdinge, helldur til þess, ad hañ hoolpeñ verde, so sem Ordeñ hliooda; Eñ vier vitum, ad þad er eckert añad, hoolpeñ ad verda, eñ ad verda frelsadur fra Syndareñar, Daudans og Diofulsins Ofrijke, og i Rijke Guds Sonar settur ad verda.

Hverneñ verda Meñ fra Daudanum frelsader, þar þeir aller hlioota þo Einusiñe ad deya?

Þad skedur þañeñ: Ad vier verdum fyrst Jardader fyrer Skijrnena til Daudans, Rom. 6. v. 4. Þad er, til ad deya Syndeñe, og til ad deyda hiñ gamla Adam; Þvi ad i Skijrneñe hliootum vier Krapta til þess, so ad lijka sem Christur er uppvakeñ fra Daudum, fyrer Dyrd Fodursens, so getum vier geinged i Endurnyungu

ungu Lijfdagaña; Eñ þeim ed so ganga, og trwa a JEsum Guds Son, kañ Daudeñ ecke ad granda, þvi þott þeir deye, skulu þeir samt lifa, so sem Frelsareñ lofar, Joh. 11. v. 25.

Med hverin moote skedur þetta?

Þu hefur heyrt ad Madureñ fædest i þeña Heim Reideñar Barn, Eph. 2. v. 3. Þvi hvad sem af Holldenu er fædt, þad er Holld Joh. 3. v. 6. Eñ Holld og Blood kañ eige Guds Rijke ad erfa, 1. Cor. 15. v. 50. J einu Orde ad segia: Þad er under Satans og Syndareñar Vallde; Eñ i Skijrneñe verdum vier Endurfædder, og Guds-Børn af Satans Bornum.

Hvad er þad Holld og Blood, sem þu talar um̃?

Aller Meñ hafa Holld og Blood?

Þad er eige þad synelega Holld og Blod, sem vier aþreifum og Augum lijtum; Helldur er þad su Spilling, er vier kollum Uppruna Synd, og i Ritninguñe nefnest hiñ gamle Madureñ, þad er, su Jllska er vier, Madur epter Mañ, hofum i Arf tekeð epter vorn fyrsta Fodur Adam: Þvi kallast hun og hiñ gamle Adam; Hun er hin nærsta Orsøk til alls ills, er vier adhofunst,

þad er: Ad vier erum Reidegiarner, Hei-
ptræker, Omillder, Dramblaater, Agiar-
ner, Ofundsiuker, Lygner, Later, Laus-
laater, Ohoofsamer, Hirdulauser, Van-
trwader, og i einu Orde: Til allra Lasta
og Klækia hneigder af Naatturuñe, sumer
meir, eñ sumer miña; Og eige einasta
hurum vier þessar Odaader, helldur frem-
tum þær, epter þvi sem hver er lyndur til,
og þorer ad giøra; Nema Drottens Ande,
sem oss i Skijrneñe gefeñ er, hefde oss apt-
ur afslijku; Og þar vier erum so giarner a
hid illa, þa høfum vier leida a øllu goodu,
og þvi sem Gud hefur boded. Nu fyrst vi-
er erum i Christi Rijke setter, þa getum vi-
er fyrer Krapt Endurgetningareñar, drep-
ed vondar Gyrnder, og þad heiter, ad deyda
hiñ Gamla Mañeñ, hvad ad er hin retta
Brwkun Skijrnareñar.

Hvad er Endurgetningeñ?

Endurgetniñgeñ er Guds Naadar-Gi-
ørningur, med hverium ad Madureñ, ho-
lldlegur af holldlegum fæddur, endurfæd-
est med Ordenu og Skijrneñe, og verdur
andlegur af Andanum fæddur, fyrer For-
þienustu Christi Dauda og Upprisu, og od-
last

laſt fyrer Trwna Fyrergefning Syndaña Arfleidſlu Guds Barna og Arf eilijfs Lijfs. Þetta er liooſt af epterfylgiande Ritningareñar Ordum: Paulus ſeger, Eph. 5. v. 26. Ad Christur hreinſe Søfnuden med Vatns-laugeñe fyrer Orded, og til Titum, Cap. 3. v. 5. Seger hañ; Ecke af Nettlætiſins Verkum, ſem vier giørdum, helldur af ſiñe Myſkunſeme, hefur hañ oſs hoolpna giort, fyrer Endurgetningar-Laugena, og Endurnyungar Heilags Anda; Hvar af ſiaa ma, ad Endurgetningeñ er Orſøk til Saaluhtaalpareñar, og Petur ſeger, Cap. 1 1. v. 3. Bleſſadur ſie Gud og Fader DRottens vors JEſu Christi, ſem hefur Endurgeted oſs til lifande Vonar.

Hvad er þad ad verda Andlegur af Andanum fæddur?

Þad er ad faa nya Krapta, ſem H. Ande i Skijrneñe iñplantar i Mañſens Saalu, til ad deyda Hollded, þad er hollдlegar Girnder, og til ad hata Syndena, eñ ad elſka Gud, og þad ſem hañ boded hefur.

Verdur Madureñ þa aldeilis andlegur, þegar hañ er Endurfæddur?

Nej: Eige er þeſs Von, a medañ vier

bwum i Holldenu: Vier ødlunst alleina Frumvort Andans, so sem Paulus ad Ordekemst, Rom. 8. v. 23. Eñ Leifar hiñar gømlu Spillingar loda þo vid oss, so leinge vier lifum; yfer hverium Paulus kvartar, Rom. 7. v. 23. Segiande: Ad hñ fiñ eitt añad Løgmaal i sijnum Limum, sem mootstrijde sijns Hugskots Løgmaale, og take sig fangeñ under Syndareñar Løgmaal; Og hier af kemur su Baraatta, sem er a millum Holldsens og Andans, so leinge sem vier lifum i Holldenu.

Hvilijk er Trweñ, su er riettlæter Mañeñ?

Su Trw, fyrer hveria Madureñ rettlættur verdur, hun er eige einasta ein fullkomeñ Þecking a alls Mañkynsens Endurlausnara, JEsu Christo, og ad Guds Reide sie fyrer hañ blijdkud, og stillt, eñ Naadeñ øllum heiteñ; Helldur og er hun eitt efalaust Hiartans Traust her uñ, med hveriu ad Syndareñ, aangradur og sundurkrameñ i Hiartanu vegna Synda siña, fulltreyster þvi, ad Gud mune sier, þott hañ være allra Maña syndugastur, Syndernar fyrergefa, fyrer sijns Sonar Skulld, og tilreikna sier hañs Riettlæte.

Verd-

Verdur þesse Rettlætande Trw veitt Man̄en-
um i Endurfædingun̄e ?

Ad søm̃u veitest hun Børnunum i Skijr-
nen̄e, under eins og þau Endurfædast,
so sem aadur er, ad nockruleite, sagt, og eige
þarf Skijrnen̄ Trwaren̄ar med til ad verka
Trwna i þeim; En̄ þeir ed gamler skijrast,
verda fyrst i Trwn̄e, þad er Trwarbrøgd-
unum ad uppfrædast, so þeir, fyrer Naad
Guds, sam̃sin̄e þvi, sem af Gude og Christo
sagt verdur, þeim til Saaluhiaalpar, og
ad ydrast undan̄faren̄a Synda, so þær ve-
rdi þeim fyrergefnar: Þetta er liooft af
Dæme Geldingsens, er sagde vid Philipp-
um, Act. 8. v. 36. og 37. Sia Vatned,
hvad er i moote þvi eg Skijrest? En̄ Phi-
lippus svarade; Ef þu trwer af øllu Hi-
arta, þa leifest þad. Han̄ sagde: Eg tr-
we, ad JEsus Christus sie Sonur Guds;
Og um̃ Corinthios seger, Act. 18. v. 8. Þa
þeir heyrdu þad, trwdu þeir, og voru skij-
rder. En̄ þessa Jaatning giøra Gudfed-
gin vegna Barnan̄a, i þvi Trauste, ad þe-
im mune Trwaren̄ar Astgiof strax med-
deilast, vid hveria ad sa er bunden̄, sem
skijrdur er, nær han̄ til Vits og Ara kemur,

Eñ um̃ Ydranena, er auglioos Adferd Johañis Baptistæ, og Postulaña, i hinu Fyrra Christni-Bodi; Hiaa Matthæum, Cap. 3. v. 6. Stendur: Þeir urdu skijrder i Jordan af-hønum, medkeñande Synder sijnar. Og er þeir skaarust i sijnum Hiørtum, erhlyddu a Rædu Peturs, og søgdu: Hvad skulum vier giøra, þa svarade hañ: Giøred Ydran, og hver ydar sem eiñ laate skijrast i Nafne JEsu Christi, til Fyrergefningar Syndaña, Act. 2. v. 38. So er þa Verkun Endurgetningareñar sü hiaa Børnunum, ad þeim veitest Trweñ; Eñ hiaa þeim, sem til Ara komner eru, stadfestest hun og iñsiglast med Skijrneñe.

Er þar nockud meira sem Skijrneñ verkar syrer Endurgetninguna med Mañenum?

Trwareñar Nafn hefur þad ad søñu allt i sier foolged; Eñ til þess ad Skijrnareñar Kraptur og Verkan betur skiliest, þa keñer Christeleg Kyrkia so: 1. J Endurgetninguñe verdur Skilningureñ upplyst ur, so ad vier getum lært ad þeckia JEsum Christum oss til Sæluhiaalpar, og ad skynia, hvad Guds Anda er, hvad holld-

legum

legum Mañe er omøgulegt, 1. Cor. 2. v. 14. Þvi hañs Þaankar eru Reide og Fiandskapur i gegn GUDE, Rom. 8. v. 7. Sem Postuleñ vottar; Og her um̃ talar hñ so .2.Cor.4.v.6. Gud sa ed bad Liooseñ, ad Skijna wr Myrkrunum, hañ hefur skyned i Hiørtum vorum, til Upplysingar Dyrdarlegrar Þeckingar Guds, i Persoonu JEsu Christi; Hvar Postuleñ, aan efa, meinar Skijrnena, sem nefnest Upplysing hiaa Grickium, eñ Skijrn hiaa oss, hvert Ord ad er sømu Meiningar, þvi upplyster Hluter eru skiærer, af hveriu Orde Skijrnareñar Nafn er dreiged. J Ødru Lage Lagfæreft Vilieñ (sem af Naatturuñe er giarn aa hid illa) og hneigest til Hlydnis Trwareñar; Par um̃ talar so Paulus, Rom 6. v. 17. Þacker sieu Gude, ad þier vorud Þrælar Syndareñar, eñ þier hafed af Hiarta hlydnast þvi Lærdooms Forme, er þier vorud sellder til. J Þridia Maata ødlunst vier i Endurfædinguñe Fyrergefning Syndaña, og verdum rettlætter fyrer Gude fyrer Trwna; Þviad i Endurgetningar-Laugeñe wthelller Gud yfer oss yferfliootanlega

Hei-

Heilögum Anda, so vier rettlætter fyrer hañs Naad verdum Erfingiar eilijfs Lijfs; Tit. 3. v. 6. 7. Og fyrer sama Anda ødlunst vier Arfleidslu Guds Barna; Þar um̃ talar so Paulus: Rom. 8. v. 15. Þier hafed medteked, eige Prældooms Anda, aptur til Otta, hell dur hafed þier medteked Arfleidsluñar Anda, fyrer hvern vier køllum Abba, Fader, og um̃ sijder ødlunst vier eilijft Lijf, aller þeir ed færa sier i Nyt þessa giæskufulla Raadstøfun hins lifanda Guds; Þvi seger Paulus, Rom. 8. v. 17. Eñ ef vier Børn erum, þa erum vier og Erfingiar Guds, eñ Sam-arfar Christi. Og Petur seger, 1. Pet. 1. v. 3. og 4. Hañ hefur Endurfædt-oss til lifande Vonar, til þess Arfs, sem er a Himnum geimdur.

Hverneñ er vared Rettlætinguñe, er þu um̃talader?

Hun er i Tveñu iñefaleñ; Fyrst i þvi, ad Gud eige tilreiknar oss vort Raanglæte; Þad er, Synder vorar, þad vottar Paulus, 2. Cor. 5. v. 19. Gud hefur i Christo forlijkad Heimeñ vid sialfañ sig, tilreiknande þeim eige Synder þeirra; Og i Añañ Maata, ad hañ tilreiknar oss sijns

Son-

Sonar Rettlæte, þvi kallast hañ og Jehova vort Rettlæte, Jer. 23. v. 6. Þetta styrker Paulus: 2. Cor. 5. v. 21. Pañ sem ecke vısse af Synd, hañ hefur Gud giørt ad Synd, so ad vier yrdum Guds Rettlæte i hønum, þad er, Rettlætter fyrer Gude.

Verdur Madureñ Rettlaatur fyrer Gude þadañ i frꝏ, ad hañ er i Skijrneñe Einu-Siñe Rettlaatur?

Missa kañ hañ þad Rettlæte, sem hañ i Skijrneñe ødlast, og þvi verr, ad margur misser þad aldeilis. Þu hefur Allareidu heyrt, hverier ad sieu þiner sierlegustu Averter Endurgetningareñar, ꝏ medal hverra er Fyrergefning Syndaña, af hverre Rettlætingeñ framkemur; Eñ þesse Rettlæting er ei þess Hꝏttar, ad Uppruna-Spillingeñ takest i burtu, so Madureñ kuñe ei framveigis ad syndga, helldur verdur Sekt heñar burttekeñ, og Rettlæte Christi oss tilreiknad; Eñ þessare Guds Naad kañ Madureñ ad tapa, jafnvel þott hønum sieu Syndernar Einusiñe tilgefnar, og hañ hafe i Endurgetninguñe so mikla Krapta ødlast, ad hañ gete, ef hañ vill, Gude hlydnast, So ei misse hañ þa

Naad

Naad, og Rettlætingu, er hañ i Skijrneñe ødlast hefur, þvi þær Synder, sem Oviliande og Oforhurad verda Mañenum, reiknar Gud eige til Rænglætis, þeim sem Endurfædder eru; Jaa, eiñeigeñ kuña Guds Børn og hañs Utvalder ad missa þessa Naad, og falla i Guds Oblydu, sem siaa maa af Dæme Arons, Exod. 32. v. 4. Davids, 2. Sam. 11. v. 5. 15. Peturs Matth. 26. v. 74. Og aðarra, sem i Stoor-Synder ratad hafa; Samt eiga þeir aller apturkvæmt til Naadar Guds, sem Einusiñe i Skijrneñe Rettlætter eru, ydrast Syndaña, og trwa þvi, ad þær verde tilgefnar fyrer JEsu Guds Sonar Forþienustu, fyrer hveria þeir i Fyrstuñe Endurfædder og Rettlætter eru; So þoott ad Endurgetningeñ verde i einu, þa varer þo heñar Kraptur um̃ alla Æfe þess, sem legg ur Kapp aa, ad gaanga i Endurnyungu Lijfdagaña: Par fyrer aa Guds Barña Lijferne ad vera, so sem ein sijfelld Skijrn; Og fyrer þvi seger Lutherus, ad Vatns-Skijrneñ merke þad, ad hiñ Gamle Adam eige i oss Daglega ad Dreckiast og Deydast: Og eige einasta merker hun þad, helld-
ur

ur veitest oss i Skiirneñe Heilagur Ande, sꝏ ed verkar med oss bæde ad ydrast og af ad lꝏta Syndunum, eñ ad fara vaxande i Gudrækelegu Framferde, poott alldrei verde pad fullkomed i pessu Lijfe, Sokum Breiskleikans; Pvi þurfum vier og Dag legrar Ydranar vid, ecke einasta fyrer Stoor-Synderuar, er Meñ drygia ꝏ moote Samvitskuñe, og med Umþeink-ingu, helldur og fyrer hinar, er vier smꝏ-ar kollum, og verda ad Ovilia, edur af Brꝏdræde.

Hvad er Endurnyungeñ?

Endurnyungeñ er Guds Nꝏdar Ver-k i oss, med hveriu ad fyrer Heilagañ Anda, vegna JEsu Christi Forþienustu, tem-last i þeim Mañe, sem i Skiirneñe er End-urfæddur, og Rettlættur, Leifar Uppruna Spillingareñar, Dag epter Dag; Eñ hañ verdur ætijd i Hugskotenu, og i Til-hneigingunum meir og meir Lagfærdur, og epter Gude myndadur, epter þvi sem pad skie kañ i þessa Hollds Veikleika, so hañ fyrer Trwna vardveittur verde til Eylijfs Lijfs.

Hverneñ verkar Gud þetta i Mañenum?

Hverneñ Gud þad verke, getur eige nockur Madur sagt, eñ þad keñer oß Ritningeñ, ad allt þvilijkt verkar H. Ande med oß; Þvi nefneſt þad Helgan Andans, 2. Theſſ. 2. v. 13. Hveria hañ wtretter med Ordenu og Sacramentunum, ſo ſeger Chriſtur: Joh. 17. v. 17. Fader Helga þaa i þijnum Sañleika, þijn Ord eru Sañleikur; Eñ uñ Skijrnena ſeger Paulus: Tit. 3. v. 5. Ad hun ſie Endurgetningar-Laug Heilags Anda, og þad þeſs vegna, ad i Skijrneñe verda oß meddeilder Kraptar til ad Endurnyaſt Daglega, ef vier ſlöckvum ecke Andañ, Sem Paulus ad Orde keinſt, 1. Theſſ. 5. v. 19. Eñ i Alltareſins Sacramento verda aller Rett-trwader Eitt med Chriſto, Joh. 6. v. 56. og Cap. 15. v. 4. J hverium Meñ bera mikeñ Avöxt. Joh. 15. v. 5. Fyrer þeſſa alvitra Raadſtøfun Guds, verdur hañ, ſem daudur er i Syndunum, fyrſt, Lijfgadur, Eph. 2. v. 5. Og hiñ Ogudlege Rettlættur, Rom. 4. v. 5. So hañ gete ſijdañ Offrad ſiaalfañ ſig Eina Lifande Foorn, Heilaga og Þocknañlega Gude, J hveriu ad Endurnyung-

urnyungeñ er foolgeñ.

Hver er Mismunur Endurgetningareñar og Endurnyungareñar?

1. Endurfædingeñ, sem og hefur Rettlætinguna i sier foolgna, hun geingur undañ Endurnyungeñe; Pvi Endurnyungeñ er heñar Avøxtur. 2. Madureñ hiaalpar eckert til siñar Endurfædingar edur Rettlætingar, helldur er hañ þar i, so sem Steiñ, fyrer þeim, sem hønum vellter; Pvi vier fædunst dauder i Syndeñe; Eñ i Endurnyungeñe er Madureñ Gude sainverkande, fyrer þaa Krapta, sem hønum i Endurfædinguñe veitter eru; Pvi bydur Paulus: Rom. 12. v. 2. Ad vier skulum um̃myndast i Endurnyungu vors Hugskots; Hvad hañ munde eige bioda, nema nockud stæde i þess Mañs Vallde, sem Endurfæddur er, jafnvel þott Guds Anda Kraptur verke þad mesta; Pvi seger hañ aptur: Rom. 8. v. 26. Ad Andeñ hiaalpe Maattleyse, edur veikum Mætte vorum. 3. I Endurfædinguñe Rettlætunst vier af Christi Rettlæte, sem oss er afrekad, og med Trwñe medteked verdur; Eñ vier Endurnyunst med voru eigeñ

Rettlæte, hvert þo alldrei verdur fullkomed Søkum Veikleika Holldsens, og þarf þvi alltijd med hiñs fullkomna Rettlætes Christi. 4. Rettlætingeñ verdur i Einu Augnablike: So fliott sem vier med Trwñe medtøkum Christi Forþienustu, so fliott Rettlætunst vier, þad er: Oss verda under eins Syndernar fyrergefnar, og allur vor Ofullkomlegleike bættur; Eñ Endurnyungeñ framkemur smaamsamañ, þvi saa Jñre Madureñ Endurnyast Dag epter Dag seger Paulus. 2. Cor. 4. v. 16. 5. J Rettlætinguñe hiaalpa Good-Verkeñ aldeilis eckert, þvi vier Rettlætunst aan Verdskulldunar, af Guds Naad, fyrer þa Endurlausn, sem skied er i JEsu Christo, Rom. 3. v. 24. Eñ ef þad er af Naadeñe, þa er þad ecke af Verkunum, Rom. 11. v. 6. Eñ i Endurnyungeñe eru þau iñefaleñ, og Endurnyungeñ i þeim: Þvi erum vier Skapader i JEsu Christo til Goodra Verka, hver Gud hefur tilbwed, ad vier gaungum i þeim, Eph. 2. v. 10.

Verdur Madureñ so opt Rettlættur, sem hañ yfirgefst Syndaña, og trwer hær verde sier tilgefnar?

Ad viiſſu verdur han̄ þad. J fyrſtu verdur han̄ i Skijrneñe Rettlætttur; Eñ fyrer þvi, ad vier Daglega ſyndgunſt, og fremium Rangloeted, þa þurfum vier ſo opt Rettlætingareñar vid, ſem vier ſyndgunſt, hveria vier ødlunſt fyrer ſaña Ydran; Þvi alltijd varer Kraptur Endurgetningareñar til ad Rettlæta þaa fyrer Trwna, ſem ydraſt af Hiarta, þoott eige ſieum vier nema Eitt Siñ Vatne auſner, og han̄ ſem Daglega ydraſt, han̄ (ſo ad ſegia) ſkijreſt Daglega; Þviad i Skijrneñe er oſs Naad eñ gefeñ, og Andeñ og Krapturen̄ til ad temia hiñ Gamla Mañeñ; Eñ þeir, ſem eige vilia leidaſt af Andanum, eñ gaanga epter Holldenu, þad eru þeir, ſem Ydrunarlauſt framfara i Syndum og Glœpum, moote Samvitſkuñe, þeir hafa Skijrnareñar eingeñ Not, medan̄ þeir eru þvilijker, helldur eru þeir Andlega dauder, og kuña eige Gude ad þioona, Rom. 8. v. 8. Og miſſa ſo Trwna, og Guds Naad, ſo ſem þeir ed wtreka gooda Samvitſku, og lijda Skip-Brot aa Trwñe, 1. Tim. 1. v. 19. Hvar af þu ſier, hverſu Omiſſande ad er Dagleg Endurnyung; Þo gagnar Skiir-

 neñ

neñ og Endurgetningeñ þeim, sem so fra aa-
falla, og jafnvel leinge hafa villt fared, til
þess, ad þeir eiga apturkvæmt til Guds
Naadar, so þeir geta þvijngad Hollded
under Ok saññar Yðranar aptur aa ny;
Þvi aa hverium Tijma sem hiñ Ogudlege
snyr sier til Guds, þa skal hañ lifa, allra
hañs Synda skal ecke ad Eylijfu minst
verda, seger DRotteñ, Ezech. 18. v. 21.

Fyrst Meñ brioota hañ Saattmaala, er Gud
giørdi vid oss i Skijrneñe, þurfa Meñ þa
eige ad giøra hañ ad nyu?

Eingañ nyañ Saattmaala þarf Gud
ad giøra vid oss uppa sijna Sijdu, þvi hañs
Gaafur eru ei þañeñ, ad hañ kuñe ad yd-
rast þeirra, Rom. 11. v. 29. Eñ sokum
vorra Afbrota þurfum vier hañ ad endur-
nya.

Hverneñ skedur þad?

Þad skedur sierdeilis i Alltaresins Sa-
cramente.

Hvad er SACRAMENTUM ALLTARESINS?

SACRAMENTUM ALLTARE-
SINS er hid Aññad Nya Testamente-
sins SACRAMENT, iñsett af sialfum
JEsu Christo, i hveriu, epter hañs Bode
og

og Fyrerheite, hans sannarlegt Holld verdur meddeilt, i og med helgudu Braude, ollum þeim er þad eta; Og hans sannarlegt Blood, i og med helgudu Vijne, ollum þeim, er þad drecka; Enn hia þeim alleina, sem trwa, verdur med þessare Guds Giof, so sem med ødru Innsigle, Endurnyungarennar Kraptar, og Syndanna Fyrergefning styrkt og stadfest, til þess, ad þeir, ed þad verduglega brwka, ødlest eilijft Lijf.

Hvernenn maa eg þad skilia, ad HOLLD og BLOOD DRottens, sem er til Himna uppstijged, þad veitest mier i og med Braudenu og Vijnenu?

Þu fær þad eige skiled, helldur enn hvern annann þvilijkann Leindardoom Guds; Enn fyrer þvi ad Gud, þad er: JEsus Christur, Gud og Madur i einne Personu, i hvers Munne alldrei voru Svik funden, Es. 53. v. 2. Hann hefur þad talad, og skipad þier og allre Christnenne so ad hallda, sem hann innsett hefur, þa ætt þu, og mætt þvi stadfastlega trwa; Enn undrast ecke, þott hans Holld sie til Himna upphafed, og þo nærlægt i SACRAMENTENU; Þvi Postulenn seger, Col. 2. v. 9. Ad i honum bwe øll Fylling Guddoomsens lijkamlega, þad er,

er, i hañs Lijkama; So ad hvar sem Christi Guddoomur er, þar er og hañs Mañdoomur: Eñ þad er vijst, ad Gud er allstadar; Þvi skyllde þa eige Christi Lijkame kuña i Sacramente Alltaresins nærlægur ad vera, med þeim Hætte, sem Gude einum er kuñugur.

Hvert er þad Bodord, er þu talader uñ?

Þad er þad, sem stendur hiaa Matthæum, Cap. 26. v. 26. og 27. Marcum, Cap. 14. v. 22. og 33. Og Lucam, Cap. 22. v. 19. Hvert þu les i Jñsetningar Ordunum, sem eru þesse Ord; Giored Þad J Mijna Miñing. Drecked Þad J Mijna Miñing.

Hvert er Fyrerheitesins Ord?

Þad stendur i Jñsetningar Ordunum med þessum Hætti: Þad er Caleikur hins Nya Testamentis J Mijnu Bloode, Sem Fyrer Ydur Uthelleft Til Fyrergefningar Syndaña: J hverium sijdurstu Ordum, þeim er lofud og heiteñ Fyrergefning Syndaña, sem eta Guds Sonar Holld, og drecka hañs Blood verduglega.

Kañske ad þesse Ord: Þad er miñ LJKAME, Þad er mitt BLOOD, hafe añarlega Þijdingu, og þijde eige þad Verulega og Sañar-

lega

lega HOLLD og BLOOD DRotts-
ens, helldur sieu Teikn þeir-
ra alleina?

Pad være Ogudlegt ad þeinkia um̃ Christum: Þvi þetta er Testamentum, edur hin sijdasta Raadstøfun, er hañ giørde, under siñ Dauda, vid Christelega Kyrkiu, fyrer sitt Blood; Eñ eitt Testament gioreſt med fullum og skijrum Ordum, med hverium, ad ſaa sem þad giører, ecke skrifar añad, eñ hañ meinar; Og eru þad Ofgar ad ætla Guds Syni, ad hañ, sem þaa var bweñ til ad wtgefa sitt Lijf i Daudañ fyrer Mañkyned, ad hañ munde vilia draga Christnena aa taalar med tvijrædum Ordum, fyrer hveria hañ bored hefur Guds Reide, og hinar bitru Helvijtis Pijſler, og miklu helldur laata þau skiliaſt, so sem þau tolud eru. Og alldrei hefur hañ edur hañs Postular þesse Ord ødruvijse utlagt; Pad er vitanlegt, þegar hañs Læresveinar eige skildu þad, sem hañ kiende, þa spurdu þeir hañ um̃ Skilning Keñingareñar, so sem hiaa Matth. stendur Cap. 13. v. 36. Er þeir beiddu hañ, ad leggia ſier ut Epterlijkinguna um̃ Illgreſed, og vijdar añarſtad-

stadar; Edur og ad þeir rædduſt a þar um̃ ſijn æ millum, ſo ſem Joh. 16. v. 18. Er þeir ſógdu: Hvad er þad han̄ ſeger: Jn̄ an̄ lijtels Tijma? Vier vitum eige hvad han̄ ſeger: Og þa han̄ talade i Epterlijk-ingum, lagde han̄ ſijnum Læreſveinum wt alla Hlute heimuglega, ſeger Marcus, Cap. 4. v. 34. En̄ þad ſkal alldrei fin̄aſt, ad þeir hafe an̄adhvert efaſt um̃ Skilning þeſſara Orda, edur ſpurt han̄ þar ad, edur han̄ wtlagt þau ødruvijſe. Og þott ein-hver villde ſegia: Ad þeir hafe ei giætt þeſs, vegna Faafrædes ſijns, þa hygge han̄ ad þeim Ordum, er JEſus ſagde, Joh. 16. v. 12. Eg hefe en̄ nu margt ad ſegia ydur, en̄ þier geted þad nu eige griped, en̄ þegar hn̄ kemur ſa San̄leikſins Anden̄, han̄ mun leida ydur i allan̄ San̄leika. Hver vill nu vera ſo ogudlegur, ad ætla, ad Man̄-kynſens Frelſare munde hafa leynt Skiln-inge þeſſara Orda (æ hverium ad ſo miked rijdur) fyrer ſijnum Læreſveinum, er han̄ wtſende til ad ken̄a øllum Pioodum? Ed-ur, ad H. Ande hafe forſoomad ad giøra ſitt Embætte; Edur i þridia lage; Ad Chriſti Tolf Poſtular, ſem lietu fleſter Lijf

ſitt

sitt fyrer þessa Kenungu, þeir mundu hafa Orded samrænda i þvi, ad draga Mañkyned at tælar med þvi, ad lata þad ei vita rettañ Skilning Ordaña, ef þau ættu odruvijse ad skiliast eñ þau hliooda? Par þo Paulus vitnar fyrer Biskupunum i Ephe so, Act. 20. v. 26. og 27. Ad hañ hafe eingu undanskoted, ad ei hafe hañ openberad þeim allt Guds Raad.

Verdur þa BRAUDED umbreitt i Holld, og VIJNED i Blood?

Eingañveigeñ: Þvi þu sier og fiñur Brauded, sem þu etur, og Vijned, er þu dreckur; Helldur er Guds Lijkame, og hañs Blood þar J og MED, þad er: Ad Hollded er samteingt Braudenu, og Blooded Vijnenu, þo eige siaer þu þad; Eins og þu sier eige Heilagañ Anda i Skijrnar-Laugeñe, og þo er hñ Vatnenu samteingd ur; Og so sem ad Gud var i Christo, 2. Cor. 5. v. 19. Og med Christo, Act. 10. v. 38. Fyrer Einingu Personuñar, þo osynelegur, so er og Christi Holld og Blood i, og med Braudenu og Vijnenu fyrer Einingu SACRAMENTESINS, þo ei verde þau sied: Þvi sagde Christur, þa er hañ

feck

feck þeim Braudeð og Caleikeñ: Þetta er mitt HOLLD og BLOOD, eñ Braudsens og Vijnsens getur hañ ecke, þvi að þeir saau þau, og medtooku þau, synelega og þreifanlega, eñ hañs HOLLD og BLOD saau þeir eige; Fyrer þvi greinde hañ hier hañ hellsta Part SACRAmenteſins, sem var i og med Braudenu og Vijnenu. Madur kañ ad skilia þetta betur af almeñelegu Maale, þott olijku sie samañ ad jafna; Þegar eg fæ einum Handskript uppaa nockra Peninga, þaa sege eg: Þetta er Handskript uppaa so marga Peninga, eñ ecke sege eg: Þetta er Pappir og mijn Handskript. Naar eg afhende einum eitt Ilaat fullt af Vijne, þa sege eg: Þetta er Vijn, og ecke: Þetta er Trie og Vijn, þvi hañ sier, ad það er Pappir og Tre, sem hitt iñehelldur. Þvi merkia þesse Ord Christi, i Jñsetningar-Ordunum, so miked sem hañ sagt hefde: J og med þessu Braude og Vijne er mitt HOLLD og BLOD; Og þvi brwkar christeleg Kyrkia þesse Ord: J Og MED, epter Chrysostomo og Augustino, til ad wtmaala þeña Leyndardoom, eige til þess ad wtskijra þar med

Haatt

Hiartt og Maata, hverneñ Hollded og Blooded sie naalægt (þad fær eingeñ Madur griped) helldur til ad auglijsa, ad vier truwum, ad þau sieu þar sañarlega og verulega naalæg, og i þessare Trw stirker oss Paulus, er hañ seger, 1. Cor. 10. v. 16. Blessunareñar Kaleikur, sem vier blessum, er þad eige MEDDEJLJNG CHRJSTJ BLOODS; Brauded sim vier brt ootum, er þad eige MEDdeiling CHristi Lijkama; Eñ i allre Meddeilingu er bæde þad sem meddeillt er, og saa, sem medeillt verdur, so er og hier: Añarsvegar er Brauded og Hollded, Vijned og Blooded; Eñ añarsvegar erum vier, sem þau medtokum; Eñ hverutveggiu Hlutena, bæde þaa Himnesku og Jardnesku, nefner Postuleñ til þessarar Meddeilingar, þvi medtøkum vier og hverttveggia. Og duger þetta Postulans Vitni, bæde til þess, ad syna ad oss sie Jesu Christi sañur Lijkame og Blood meddeillt i ALLTARESJNS SACRAMENTO, sem og hitt, ad ei umbreitest Brauded og Vijned i HOLLD og BLOOD, helldur samteingest hvert med ødru, eins og Andeñ og Vatned i Skijrnareñar

eñar Sacramento ; Pvi nefner hañ hier MEDDEILING.

Munu þesse Ord:

Taked og Eted, Drecked aller hier af.

Munu þau, sege eg, tilheyra nema Lærefveinunum, sem DRottẽ talade vid i þad Siñ?

Ad vijsu tilheyra þau allre Christneñe, allt til Veralldareñar Enda; Eñ Postularner voru so sem heñar Um̃bods-Meñ, til ad taka vid þessare Guds Giøf; Par fyrer seger og Paulus, sem þo vär eige nalægur, þegar Frelsareñ iñsette þetta Sacramentum, hañ seger, 1.Cor. 11.v.23. Er hañ talar hier um̃: Eg hefe medteked af DRottne, þad eg ydur afhendt hefe. Og aptur seger hañ i sama Capitula, v.26. Ad Meñ skule hier med kuñgiøra Dauda DRotteñs, þar til hañ kemur, þad er: Allt til Enda Veralldar, nær hañ koma mun Heimeñ ad dæma; Og Kraptur þess arra Orda: Þetta Er Miñ Lijkame, Þetta Er Kaleikur Hins Nya Testamentis J Mijnu Bloode, (med hverium þeir Himnesku og Jardnesku Hluterner verda samteingder) hañ varer ævallt, so leinge Heimureñ stendur; Eins og þeirra Almætt-

is

is Orda, er Gud talade i Upphafe: Gen. 1. v. 28. Vared og Margfalldest og uppfylled Jordena.

Hvad er þad,
Ad kũngiora Dauda DRottens?

Þad er hid sama og Ad Giora Þetta J Hans Minning. Luc. 22. v. 19. Þad skedur: Nær vier han Lofum og Þrijsum, elskum og þøckum hønum þa O-umræðelegu Giædsku, ad han gaf sitt Lijf i Daudan fyrer oss; Og i Ødru Lage minnunst vier þess, ad aller þeir Velgiørningar, sem han oss afrekad hefur, med sijnum Dauda, þeir heyra oss til, og þar fyrer tileinkum vier oss þaa. J Pridia Maata, þar han hefur oss so heitt elskad, þa eigum vier þess ad minnast, ad elska hver annan, epter hans Bode hiar Joh: Cap. 13. v. 35. Þar af skulu aller þeckia ydur, ad þier sieud mijner Læresveinar, ad þier elskest Jnbyrdis; Annars erum vier ecke Rettsinnader Vord-Gester Christi.

Hvert er Gagn og Nytseme þessa Sacramentis?

Fyrsta Nytseme þess, er TRUAR-STYRKINGENN.

Hverneñ styrkest Trúeñ þar vid?

Þad

Þad ſkedur med þvi moote: Ad ſierhver Eiñ ydrande Syndare tekur til ſijn þeſſe Ord: Taked og Eted, Þad Er Miñ Lijkame, Sem Fyrer Ydur Verdur Gefeñ; Item, Þad Er Mitt Blood, Sem Fyrer Ydur Uthelleſt Til Fyrergefningar Syndaña: Þvi fyrſt Guds Sonur hefur talad þad til allra, þa veit eg, ad þad heyrer og mier til, hverſu ſem eg er Syndugur; Eñ Trwa mijn ſtirkeſt hvad meſt vid þad, nær eg medtek med Muñenum þad ſama HOLLD og BLOOD, i hveriu Gud hefur lided fyrer mijnar Synder, ſo eg kañ þa ecke ad efaſt um, ad þær ſieu mier aldeilis fyrergefnar; Og þvi er SYNDANNA FYRERGEFNING hiñ Añar Avoxtur þeſſa Sacramentis. Hiñ Pridie Avoxtur þeſſa Sacramentis er EFLING og STYRKING KRAPTA ENDURNYUNGARENNAR: Þvi ef ad Skurdgooda-Dyrkararner, ſem verda Hluttakendur Bords og Kaleiks Dioſlaña, 1. Cor. 10. v. 20. 21. Ef þeir verda Dioſlaña Lags-Meñ; Hvad miklu helldur munu þeir verda Eiñ Ande med Gude, 1.Cor.6.v.17. Sem eru Hluttakendur

endur Gudlegrar Naatturu, til ad um̃ſlya þa Spillingu, ſem i Heimenum er af Girndeñe? So ſem Petur ad Orde kemſt. 2. Pet. 1. v. 4. Frelſareñ ſeger ſiaalfur.: Joh. 6. v. 56. Sa ſem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hañ blijfur i mier og eg i hønum; Hvar hañ talar um̃ hina Andlegu Nautn, ꝏan hverrar hin Lijkamlega er ei, nema til Fordæming ar, ſem ſijdar mun ſagt verda; Eñ hver ed blijfur i mier, og eg i hønum, hañ ber mikeñ Avøxt, ſeger hañ: Joh. 15. v. 5. So ſtirkiaſt nu aller þeir, ed þeſſa Guds Giøf Rettelega brwka, æ meir og meir i Trwñe, og øllu goodu Verke og Gude þægelegu, ſem af Trwñe fram̃kemur, fyrer Krapta Endurfædingareñar, er hvad meſt Endurnyaſt med þeſſare Heilogu Nautn.

Verda þa aller þeir, ed brwka þetta Sacramentum Hluttakande þeſſara Avaxta?

Laangt er fraa þvi, þeſs verr, hvad Gud naade og betre! Þvi hefe eg ædur talad um̃ þaa, ſem þetta Sacramentum Rettelega brwka; Eñ þeir alleina brwka þad Rettelega, ſem reyna og prooſa ſiaalfa ſig: 1. Cor. 11. v. 28. 1. Hvert þeir trwe,

Pad er: Hvert þeir samsiñe i Hiarta sijnu þvi, sem uñ Gud og hañs Vilia er opeñberad, og hier ad framañ hefur vered uñ talad; Eñ þo allra hellst uñ þa Forlijkun og Endurlausn, sem ad sked er fyrer JEsum Christum, hvers Lijkama og Blood vier medtøkum i þessu Sacramento, til Stadfestingar þar uñ: So og i Pdru Lage, Hverneñ þeir trwe; Þvi eige er þad noog, ad trwa þad satt ad vera, sem Gud hefur i sijnu Orde opeñberad oss til Sæluhiælpar, þar Dioflarner vita þad eiñeñ og trwa þvi, Jac.2.v.19. Helldur og hvert su Trw sie Avartarsøm hia sierhverium sem þetta Sacramentum medtekur, hvert hañ elskar Gud, og vill þoleñmoodlega lijda nockud hañs vegna, hvert hañ elskar siñ Næunga, og er liwfur æ ad forlæta hønum sijnar Misgiørder, og hvert hañ hefur Medaumkun med hønum, nær hønum æ moote blæs, Eige einasta med Orde og Tungu, helldur med Verke og Sañleika, 1.Joh.3.v.18. Og gete hañ ei med Verke, þa samt med iñelegre Medaumkan i Hiartanu. J Pridia Mæta, ef þu fiñur Brest hiæ þier i þvi, ad eige hafer þu slijkt

sliȷ́rt giort, sem vera aa og þar vante miked til, þa aattu ad ydrast þess af Hiarta, og hafa Leida aa undañfornum Syndum, og aasetia þier ad lifa betur fram̃veigis, og bidia Gud um̃ Styrk siȷ́ns H. Anda: Þetta heiter ad Reyna og Proofa siaalfañ sig, 1.Cor. 11. v. 28. Og seger Postuleñ þad eñ þa gior, 2. Cor. 13. v. 5. Med þessum Ordum: Reyned siaalfa ydur, hvert þier sieud i Trwñe; Proofed siaalfa ydur, hvert þier þecked siaalfa ydur, ad JEsus Christus sie i ydur, nema þier sieud ræker.

Hverneñ kemur þad til, ad hin saña Trw er alldrei Avaxtarlaus?

Þad kemur so til: Ad hun er kveikt i oss af Heilogum̃ Anda i Skiȷ́rneñe, og eflest af hinum sama Anda, epter þvi sem Meñ þrooast ad Alldre og Vitsmunum, hiaa ollum þeim, sem ei mootstanda honum, og hañs Verkum, med viȷ́svitande Þverwd; Hvad Paulus kallar Eph. 4. v. 30. Ad hryggia H. Anda Guds; Eñ hvar sem H. Ande byr i Mañsins Hiarta, þa giorer hañ Trwna so friooſsama, ad hun færer Avexte, Þad er, ad af heñe uppspretta goodar Hugsaner, Ord og Giorder, sem Gud hef-

ur boded i sijnu Løgmaale, epter þvi sem þad kañ ad verkast i þessu Daudlega Hollde, hiaa sumum meir, eñ sumum miña, so sem Gud wtskipter hverium einum Gaafum Naadar siñar; Eñ þesse Verkan H. Anda skedur med þeim Hætte, þad næsta Mañlegur Skilningur fær þeckt og griped; Ad saa sem trwer aa Gud, og øllu þvi sem um hañ er sagt, og hier ad framañ er umtalad, bæde i Utskijringu Bodordaña, og Trwarjaatninguñe, hañ eige einasta Ottast hañ fram yfer alla Hlute; Hañ hrædest ad fara Ovarlega med hañs Nafn, og vanbrwka þad; Og ad vanhelga hañs Hvijldar-Daga, edur forsmaa hañs Ord; So og ad giora nockurt þad, sem bañad er i hiñe sijdare Bodorda Tøbluñe, og aadur er, ad nockru Leite, talad um i Utleggingu Bodordaña: Og eige einasta Ottast hañ ad fremia þetta, af þvi ad Gud er so Maattugur, og so Rettlaatur, helldur og nær hañ hugleider Guds O-umrædelega Giæsku i Skøpunar, i Endurlausnareñar, og i Helgunar-Verkenu, i Poleñmædeñe yfer sijnum Syndum, er hañ Daglega fremur, og øllum ødrum Opriot-

ande

ande Velgiørningum, sem vid hañ fram̄koma aa hveriu Augnablike: Pa vaknar i hañs Hiarta Elskañ til Guds, so hañ fær Lyst til ad giøra pad hañ boded hefur, og ad fordast pad, sem hañ hefur bañad; Og fyrer pvi hañ veit, ad Gud er Heilagur, og hatar pad Illa, pa leggur hañ allt Kapp aa, ad J-klædast Einum nyum Mañe, pad er, ad fara Dag-batnande, so hañ verde epter Gude skapadur: Eñ bæde peña Otta (sem er eiñ Sonarlegur Otte, so sem pa nockur hrædist gooda Forelldra, eñ eige Præls-Otte) so og Elskuna til Guds, vekur Heilagur Ande i Mañenum, so ad Trweñ verdur Avartarsom, og fæder Goodverkeñ af sier; Og par i er Endurnyungeñ foolgeñ, sem eg hefe aadur um̄talad, hver poott ad sie Ofullkomeñ i pessu Lijfe, pa tekur Gud pau Verk fyrer fullkomeñ, sem af Trwñe fram̄koma, Sokum Forpienustu JEsu Christi.

Hver er Mismunur aa millum Præls-Ottans, og Sonarlegs-Otta?

Hañ er saa: Ad Prælleñ Ottast eige neina Straffed, eñ giører eckert af Elsku edur Rækt vid siñ Herra; Pvi kallar Paulus

lus þad Ambættar-Syne, Gal. 4. v. 25-30. Pad er Præla, ſem af Logmaalenu villdu Rettlætaſt, eñ eige af Trwñe: Eñ Sonureñ bæde Ottaſt og Elſkar, og hañs Otte er alltijd med Elſku blandadur: Petta Tvent adſkilur Paulus Rom. 8. v. 15. Segiande: Pier hafed eige medteked Prælkunar Anda aptur til Hrædſlu, helldur hafed þier medteked Anda Arfleidsluñar, fyrer hvern vier køllum, Abba, Fader. Prælleñ verdur Reidur og Opoleñmoodur nær hañ ſtraffadur er: Sonureñ ydraſt þeſs, ad hañ hafe Fødureñ ſtygdañ; Þvi hañ veit hañ giører eckert af Reide, helldur af Elſku, til ad Lagfæra þad, ſem aabootavant er.

Er þetta Sacramentum aldeilis Omiſſande til ad verda Saaluhvolpeñ?

Ad viſſu er þad Omiſſande, øllum þeim ſem þvi og þeſs rettre Handteran naa kuña; Þvi ſaa ſem þad forſmaaer, hañ forſmaaer Chriſti Bodord, er ſagde i Jñſetningar-Ordunum: TAKED OG ETED; Item, DRECKED HJER AF ALLER; Eñ ſaa, ſem forſmaaer hañs Bodord, hañ forſmaaer Gud; Eñ þaa, ſem

sem hañ forsmaa, þaa vill hañ forsmaa, 1. Sam. 2. v. 30. Eñ þeir, sem hañ forsmaaer, eiga Hlutskipte med þeim, til hverra hañ segia vill aa Siidarsta Dege; Eige þeckta eg ydur, Fared fraa mier aller Illgiorda-Meñ. Matth. 7. v. 23. Eñ hver sem þessu Sacramento eige naa kañ, hønum duger hin Andlega Nautn, sem Frelsareñ uñtalar, Joh. 6. v. 53. Segiande: Sañlega, Sañlega sege eg ydur, Nema þier Eted Holld Mañsens-Sonar, og Drecked hañs Blood, þa munud þier eige hafa Lijfed i ydur.

Hvilijk er þesse Andlega Nautn?

Þad er eckert añad eñ ad fiña i Hiartanu, og tileinka sier, medfullre Trw og Trauste, Averte JEsu Pijnu og Dauda, sem er Fyrergefning Syndaña og eilijft Lijf; Og er Misinunur hiñar Lijkamlegu og Andlegu Nautnar þar i foolgeñ; 1. Ad su Andlega Nautn verkar alltijd Fyergefningu Syndaña; Eñ hin Lijkamlega eige alltijd, og ei nema hin Andlega fylge med; Þvi sumer eta og drcka O verduger. 2. Þvi su Lijkamlega er Onyt fyrer utañ hina; Eñ su Andlega verkar med fullum Krapte, aan

þessarar, þar sem þa Lijkamlegu brestur.
3. Þeirre Andlegu Nautn fylgia eingver
syneleger Hluter; Eñ aan þeirra kañ su
Lijkamlega eige ad standast.

Hvar fyrer er su Lijkamlega Berging iñsett, fyrst hin næger?

Eg hefe eige sagt þad, ad hun nægе, ef
Madureñ kañ hiñar niootande ad verda;
Miklu helldur ad sa, sem forsmaaer, edur
forsoomar hina Lijkamlegu Nautn, hañ
verdur eige hiñar Andlegu hluttakande,
þvi hañ er eige Guds Vinur; Eñ þar fyr-
er er hin Lijkamlega Nautn bodeñ, ad Trw
eñ kañ optlega ad veikiast; Jaa, eingeñ er
so sterkur, ad hũ kuñe ad treysta so uppa sig,
ad hañ eige einhvern tijma bile i Trwñe, hv-
ersu sem hañ er vel uppfræddur, og sañfrod-
ur um Guds Giæsku og Myskunseme;
Þvi er þad eitt hid mesta Elsku-merke Frel-
sarans, ad hañ hefur gefed oss sitt Holld
og Blood til ad eta og drecka, bæde med
Lijkamans og Trwareñar Muñe; So ad
þegar eg medtek þessa Guds Giøf, sũ a Kro
ssenum er foornfærd fyrer Synder mijnar
med Lijkamans Muñe, þa styrkest mijn
Trw þar vid, sem aadur er sagt, ad eg kuñ-
giøre

giøre Dauda DRottens, sem dæreñ er fyrer Synder mijnar, so eg þar fyrer rettlætur yrde: Og þad er ad eta Holld og Blood DRottens i Andlegañ Mæta, edur med Muñe Trwareñar; An hvers hin Lijkamlega Nautn er eige alleina onyt, helldur og so snyst þeim til Fordæmingar, sem Hlutena Overdugur medtekur; Þvi hañ verdur sekur vid HOLLD og BLOOD DRottens, 1. Cor. 11. 29. Sem jafñvel hinum Vañtrwudu verdur i þessu SACRAmente meddeilt.

Eñ þott þessu sie so vared, þa er samt hin Lijkamlega Nautn omissande, eige einasta vegna Christi Bodords, helldur og hins, ad hun iñsiglar og stadfester hiaa øllum þeim, er hana verduglega brwka, Syndaña Fyrergefning, epter þessum Ordum DRottens: ÞAD ER MINN LJKAME, SEM FYRER YDUR VERDUR GEFENN: ÞAD ER MITT BLOOD, SEM FYRER YDUR UTHELLEST, TIL FYRERGEFNINGAR SYNDANNA; Þvi Christur hefur gefed sitt Holld wt fyrer Lijf Heimsins; Eige einasta til Endurlausnar,

ar, med hverre ad Eilijft Lijf er ollum afrekad, helldur og til Fædslu i Drottenlegre Kvolldmaaltijd, ad hun sie bad Medal Saaluhiaalpareñar, fyrer hvert ad sierhver eiñ Rett-trwadur, tileinkar sier Fyrer gefning Syndaña, og medtekur hana, so sem eina Stadfestingu og Iñsigle þar uppa. Og þo þetta Orda Tiltæke þykie undarlegt: Ad Eta og Drecka Holld og Blood DRottens i Andlegañ Maata, þa er þad eige ovenjulegt i Heilagre Ritningu, so seger David, Ps. 128. v. 2. Þu munt eta Erfide þiña Handa, þad er: Avort þijns Erfides; Eins etum vier med Trwareñar Muñe Avort JEsu Pijsla, er hañ þolde i voru Holldi, og vor iñre Madur nærest þar af, eins og Lijkameñ af Erfide Handa vorra.

J þridia Maata; Er þetta Sacramentum so sem Lutherus seger i sijnum Stærra Catechismo, gefed oss, so sem fyrer daglega Fædu, so ad Trwareñar Kraptar endurnærest; Hañ hefur aan Efa meint: Ad so sem Madureñ, þott hañ ete sig eitt siñ mettañ, þa verdur hañ aptur Matlystugur, og þarf Fædnuñar vid, til ad vidhallda

hallda sijnu lijkamlegu Lijfe; J vidlijkañ Maata, þoott ad ein rett-trwud Saal hafe i þessu Sacramento eitt siñ feinged Andlega Sadningu, þad er: Fulla Vissu um Kvittun Synda siña, þa samt, (af þvi vier getum ecke aan Synda lifad) þa hungrar oss og þyrster aptur epter Rettlætenu, Matth. 5. v. 6. Hvert vier ødlunst i þessu Sacramento, og verdum ad Nyu metter af Nægtum Guds Hwss, til Vidurhallds og Næringar voru andlegu Lijfe, hvers vier hluttakande verdum i Endurfædinguñe.

Hversu opt skal Madur bruka þad Heilaga Alltaresins SACRAMENT?

Þad er hverge aakveded i Guds Orde; Þo maa siaa af þessum Ordum Christi: So Opt Sem Þier Gioored Þetta, ad þad aa optar eñ skialldnar ad bruka; Eñ þad er hiñ vissaste Maate her til, ad so sem Meñ Eta so opt sem þaa hungrar, so skal Madur bruka þessa Saalar-Fædu, so opt sem hañ fiñur til Andlegs Hwngurs, þad er: So opt sem hañ vantar Andans Hugsvølun, epter hverre hañ mun optlega laanga, sem verkar Saaluhiaalp sijna med Ugg og Otta, og hugleider, ad hañ daglega ryfur

sinn Skijrnar Sattmaala, sem Endurnyadur verdur i þessu Sacramento.

Enn Ef einhverium er so haattad, ad hann skiallvann, edur alldrei, finnur þetta Andlega Hwngur, aa hann þa ad hallda sig fraa þessu Sacramente, aa medann hann er so aa sig komenn?

Ad viisu skal eingenn medtaka þettu H. Sacramentum, utann alleina hwngrud Ond; Enn þad verdur þeim til eingrar Afsøkunar, helldur til þess meire og hrædelegri Fordæmingar, sem eige laangar epter þessu Gestabode, ad hann forsoomar þau Medøl, er Gud hefur skipad til ad sundurmeria Hiartad, og ad vekia i Mannenum Þorsta Rettlætesins, sem er: 1. Kostgiæfeleg og athugasøm Heyrn Guds Orda; Þvi fyrer Ordsens Heyrn kemur bæde Jdranenn og Trwenn: Þeir skaarust i sijnu Hiarta, Act. 2. v. 37. Er Petur heyrdu tala aa Hvijtasunnudøgum, og Guds Ord er lifande og kroptugt, og hvertu Tvijeggiudu Sverde hvassara, þreingiande sier i gegnum Bein og Merg. Hebr. 4. v. 12. 2. Bænenn, aan hverrar eingenn kann ad heimta af Gude, ad hann skape i hønum hreint Hiarta, og gefe hønum nyann vissann Anda, þad er sanna Ydran og Leida a Synd

eñe, þvi eingeñ girneſt þad, ſem hañ ei um̃bidur, þvi beidde og David um̃ þetta, Pſ. 51. v. 12 3. Er þad Proofan og Reynſla ſiaalfs ſijns, hveria margañ vantar, og fæſter leggia Kapp þar aa, ſvo vel ſem þarf, þad er: Ad þeir ecke gefa ſier Stunder til ad rañſaka ſitt Fram̃ferde, Hugreñingar, Ord og Giorder; Añadhvert af Hirduleyſe; Edur fyrer þvi, ad þeir eru komner i einhvern ſyndſamlegañ Vana, ſem þeir añadhvert eigi þeckia fyrer Synd, edur þyker ſo vænt um̃, ad þeir ei vilia af honum laata. Saa ſem þetta þrent forſoomar, hañ er eige hæfur til ad fiña til nockurs Andlegs Hwngurs, og þoott hañ hende ei nema ſmaaar Synder, er Meñ ſo kalla, þa er honum miklu verr fared, eñ hinum allra hrooplegaſta Syndara, ſem ydraſt, og þecker ſijn Afbrot; Eñ ef nockur twt af ſañre Audmykt og Ofbode ſiña Synda, þykeſt overdugur vera, og þorer eige þar fyrer ad koma nærre þeſſum Helgum Doomum, þa vite hañ, ad honum er þeſs meire Þorfa, ad koma til þeſſa Bords; Þvi her ſkal hañ fiña Hugſvolun Saalu ſiñe; Eñ hañ, ſem þad hefur tilreidt Moñunum til Synda-lauſnar og Saaluhiaalp-

ar, hañ hefur til sijn boded øllum þeim, sem Erfide drygia, og Þwnga eru þiaader, og lofad ad hañ vilie þa endurnæra, Matth. 11. v. 28. Þvi skal eingeñ hallda sig hier fra, hversu stoorsÿndugur sem hañ er, nær hñ ydrast af Hiarta, helldur trwe þvi stadfastlega, ad Guds Þienare hefur hañs Umbod til þess, ad fyrergefa hønum Syndernar i JEsu Nafne, hver ed sagt hefur, Joh. 20. v. 23. Hveriumm hellst þier fyrergefed Syndernar, Þær skulu þeim fyrergefnar verda; Item, Matth. 18. v. 18. Hv. ad þier leysed a Jordu, skal a Himnum leyst verda..

Hverneñ skal Madur rettelega bwa sig under Medtekningu þessa Sacramentis?

Þad er þrent, sem hier byriar i þessu ad athuga. 1. Hvad þu giøra skallt, ædur eñ þu gengur til þessa Sacramentis. 2. Hvad þu skallt giøra i Aflausneñe, og æ medañ þu ert staddur fyrer Alltarenu. 3. Hvad þu ætt framvegis ad giøra.

Hvad skal eg giøra ædur eñ eg géing til Sacramentis?

Þad hefur þu optlega heyrt, ad eingeñ skal þetta Sacramentum medtaka, utañ hañ

hañ hafe ængurfullt Hiarta fyrer Syndernar; Eñ fyrer þvi, ad vier ei getum þvi til Vegar komed af vorum Kreptum alleina; Þvi Gud er sa, ed verkar i oß, bæde Viliañ og Verked, Phil. 2. v. 13. Þa ættu fyrst ad bidia Gud um̃, ad sundurkremia Hiarta þitt med alvarlegre Ydran, og giøra þig hæfelegañ til þessa Gudrækneñar Eyrendes; Eñ fyrer þvi, ad Gud hefur gefed þier i Endurgetninguñe Krapta til ad samverka sier i þijnu Sæluhiaalpar-Verke; Þvi seger Gud hiaa Esajam: Esa. 1. v. 16. Hreinsed ydur, Þvoed ydur. Og eñ: Joel. 2. v. 13. Sundurrijsed eige ydar Klæde, helldur ydar Hiortu: Þa ættu alla þaa Atburde ad brwka, sim̃ Gud hefur ædur gefed þier Krapta til.

Hverneñ fæ eg best vaked i mier þessa Krapta Endurgetningareñar, til ad sundurkremia mitt Hiarta?

Þu hefur ædur heyrt, hvad eg sagt hefe um̃ Bodordeñ, og þeirra Skilning, og hvad i þeim sie Boded og Bañad. Hugleid þad nu med þier gaumgiæfelega, og Rañsaka hin iñstu Fylsne þijns Hiarta, hvad margt þu hefur Ogiort laated, af þvi sem þar er boded; Og i Añañ Stad, hversu

margt þu giørt hefur af þvi, sem þar i er bañad, eige einasta Oviliande og af Bráád ræde, helldur og med Umþeinkingu, og af ááſettu Raade. Hugleid nu under eins hvad ſtoor HErra Gud er; Hverſu Maatt ugur; Ad hañ getur ſtrax kaſtad þier med Lijfe og Saalu i eylijfañ Elld, Matth. 10. v.28. Hverſu Vijs, ad hañ veit jafnvel þijna heimuglegustu Páánka; Hverſu Rettlaatur, ad hañ vill dæma Mañeñ til eylijfra Kvala fyrer Syndernar; Jáá, hinar minſtu Synder, og Leyneleguſtu, Pſ. 90.v.8. Jafnvel, neina Madureñ ydreſt þeirra og trwe áá Soneñ; Eñ þu veitſt eige nær Daudeñ kallar þig fyrer Guds Doom. Nær þu Hugleider þetta gaum giæfelega, mun þier eige koma þa til Hugar ad ydraſt þeſs, ad þu hafer ſtyggt ſo Volldugañ, ſo Vijſañ og Rettlaatañ HErra, eñ leidt yfer þig eilijfa Fyrerdæmingu? Og i Sañleika: Vier ydrunſt þeſs nærſta miøg, ef vier høfum ſiaalfum oſs Skada giørt af Braadræde, Forſoomun, edur Gaaleyſe, añadhvert áá Formegun vorre, edur Heilbrygde; Og þvi ſkylldir Meñ þa ecke ydraſt þeſs, ad vier høfum med

Synd-

Syndunum leidt yfer oss Guds Reide, sem breñur allt til nedsta Helvijtis, Devt. 32. v. 22. Og eylijfar Helvijtis-Pijsler, sem eru Obærelegar?

Hugleid og þad i Ødru Lage, med eingu miñe Gaumgiæfne, helldur eñ hid Fyrra, hversu Naadugur, Giæskufullur, og Poleñmoodur ad sie þesse Stoore HErra: Les þad, sem sagt er um̃ hañ, i Utskijringuñe yfer Trwar-Greinernar, ad hañ hefur skapad þig, vidhelldur og forsorgar þig Daglega, med øllu þvi, sem i Fyrstu Greineñe er upptaled; Ad hañ hefur Endurleyst þig med herfelegum Dauda og Pijnu sijns Eingetens Sonar, hver honum er so kiær, sem sialfur hañ; Hefur Helgad þig og Endurgeted i Skijrneñe, sem varst daudur i Syndeñe, og giort þig, sem varst Reideñar-Barn, Eph. 2. v. 3. Ad sijnu Barne og Samarfa JEsu Christi, Rom. 8. v. 16. 17. Ad hañ hefur skipad þier ad bidia sig um̃ alla þæ Hlute, er þier æliggur; Og lofad, ad hañ villde þig Bænheyra, og Bænheyrer Daglega; Jæ, þoott þu hañ eige beded hafer, so sem byriar, þa hefur hañ eige læt ed þig vanta sijnar Astgiafer, helldur er hañ Poleñmodur, hefur sparad þig midt i Syndunum, til ad draga þig til Ydrunar; Og ad Sijdurstu hefur hñ gefed þier sijns Sonar Holld og Blood, til ad Eta og Drecka, til Stadfestingar um̃ allra þiña Synda Fyrergefning, og sialfur gefed þier þetta dyra Medal til ad forlijkast vid sig: Eñ þeña so Naadugañ, Giæskurijkañ og Poleñmodañ Gud hefur

þu Daglega stygt med vitanlegum Syndum, jaa, margfalldlega, sijdañ þu lofader Boot og Betran sijdarst i Skrifta-Stoolnum; Seg mier: Nær þu þetta Hugleider, mun þier ei koma til Hugar, ad laata þig þad aangra af Hiarta? Þvi ef good Børn edur Þienarar ydrast þess, ad styggia gooda Forelldra edur Hwss-Bændur; Þvi skylldu Meñ þa ei laata sig þad aangra, ad þeir styggia so goodañ Gud, hvers Naad og Giæska ad yfergnæfer allañ Skilning. Af þessare Rañsookn siaalfs sijns, og þvi Angre, sem þar af verdur, spretta og framkoma þeir Hluter, er Gud krefur af ydrande Mañe, under Fyrergefning Syndaña, Sem er: Sañarleg Audmykt fyrer hønum, nær þu ber samañ hañs Giæsku og þijna Illsku, hañs Heilagleik og þiñ Saurugleik, hañs Þoleñmæde og þijna Þvermoodsku, hañs Trwfeste og þijna Brygdmælge, hañs Dyrd og þijna Vesølld, og allañ þiñ Overdugleika, vid hañs Guddoomlega Haatign.

J Ødru Lage, nær þu samañber þetta, og sier þar af, hversu mørg Tiju Þusund Punda, ad þu siert Gude skylldugur, og aatt einkis Urkoste, nema ad þier kastad verde i þin ytstu Myrkur, hvar vera mun Op og Taña-Gnystran, utañ hañ uppgefe þier alla Skulldena; Eñ þier kemur til Hugar, ad þiñ Naaunge hafe giort þier aa moote, þa muntu siaa hvad lijted þad er, hiaa þvi, sem þu ert Gude skylldugur: Og ef þu villt faa þiña Synda Kvittan, þa muntu fyrergefa hønum, wt af Hiarta sijn-

ar

ar Mootgiørder vid þig, og ecke þeinkia til ad hefna þess a honum fram̃veiges, hversu stoort og miked sem þad er; Þvi, nema þu so giører, þa er þad forgefens, ad þu ydrest, og þu hefur eckert ad festa þijna Trw a, um̃ Kvittun Syndaña, nema þu forlæter þijnum Brooður sijnar Misgiørder. Þetta er þad hellsta, sem þu ætt ad giøra under Aflausnena, eñ þad er eige eiñrar Stundar Verk, þvi er þier einsætt, ad taka til ad huxa hier um̃ nockru ædur eñ þu fer til ad forlijka þig vid Gud, i Skrifta-Stoolnum? Og þar med adgreiner þu hvad best DRotteñs Lijkama fra añarre Fædu, so sem Postuleñ ad Orde kemst. 1. Cor. 11. v. 29. Þegar þu nu hefur sundurkramed þitt Hiarta med Miñingu Synda þiña, og Guds Reide, og hañs Giæsku, ad samverkanda H. Anda; Þa gack iñ ad Skrifta-Stoolnum, epter Christelegre Sidveniu; Og jæta þijnar Synder fyrer Guds Þienara; Og heyr, med Athygle, hvad hañ þier af Guds Alfu seger, og bodar; Og trw þvi stadfastlega, ad ef þu ert Sañydrande, þa hefur hañ Valld til ad fyrergefa þier Syndernar, epter Christi eigeñ Ordum; Eige af sialfum sier, þvi hañ er Madur, syndugur eins og þu, helldur i Um̃bode DRottens, og epter hañs Fyrerheite; Og þegar hañ so giört hefur, þa mattu vera fullviss þar um̃, ad þijnar Synder eru kvittar i Himnenum, hversu sem þær eru svlar og Andstyggelegar; Og til eins Iñsiales og Stadfestu her uppa, þa medtekur þu skoñu

þar epter, þad sama JEsu Christi Hold og Blod, sem fyrer þijnar Synder doo a Krossenum; Eñ þu ꜳtt stoduglega ad trwa, eige einasta, ad þad sie i Sacramentenu Verulega og Sañarlega nærlægt, helldur ad þad sie fyrer þijnar Synder gefed og wthellt, þvi seger Lutherus i Frædunum: Sa er Sañarlega Maklegur og Velskickadur, sem Trwna hefur a þessum Ordum: Fyrer Ydur Giefst og Uthellest til Fyrergefningar Syndaña, þviad þetta Ord, FYRER YDUR, Krefur Fullkomlegrar Trwar i Hiartanu. A þessum sijdurstu Ordum vardar miked um, ad hafa greinelegañ Skilning; Eñ sw er Meining þeirra: Ad sa sem vill gainga verduglega til Guds Bords, hañ skule þvi stoduglega trwa, ad Christi Lijkame og Blood sieu wtgefeñ til siña Synda Fyrergefningar, og þad sama ꜳttu ad hugsa, þegar þu heyrer þesse Ord leseñ i Iñsetningar Ordunum, fyrer Alltarenu; Og nema þu trwer þvi, þa ertu Overdugur, og verdur sekur vid Holld og Blood DRottens, 1. Cor. 11. v. 27. Pier til Fordæmingar; Þvi byriar þier vel ad profa sialfañ þig, epter Postulans Bodi, 1. Cor. 11. v. 28. Hvert þu siert i Trwñe, þad er: Hvert þu trwer þessum Ordum; So eru nu þesse Ord: Taked og Eted, þad er miñ LJJKAME, sem fyrer ydur verdur gefeñ; Drecked aller hier af, þad er Kaleikur hins Nya Testamentes i mijnu BLOODE, sem fyrer ydur wthellist til Fyrergefningar Syndaña, þau eru, sege

eg,

eg, so sem Hond Guds, med hverre hañ retter oss Fyrergefningu Syndaña i Sacramentenu; Eñ Trweñ er, so sem Hond syndugs Mañs, er vid heñe tekur: Eñ þoott Trweñ sie veik, þad giorer ej hañ Overduğañ, sem er Bord-Giestur DRottens; Þvi ein veik Trw, er þo samt Trw; Og ein veik Hond tekur eins vel vid Olmusu, og su sem full-hraust er; Og sa sem giarnañ villde vera Trwar-sterkare, hañ berst vid Trwna; Og af þvi hinu sama, ad hañ berst vid hana, þa maa hañ vita, ad hañ er i Trwñe; Hañ seger med Fodur hins Tunglsiwka: Eg trwe ad soñu HErra, eñ hiaalpa þu Vantrw miñe: Marc. 9. v. 24. Sa sem Vantrwadur er, hañ trwer aldeilis ecke; Eñ hiñ Veiktrwade hañ trwer, eins og eiñ halltur geingur, þo ei gange hañ so fliott sem hiñ Heilfætte: Þvi skal hañ hvad hellst brwka þetta Sacramentum, hvar hañ mun fiña Andlegañ Styrk; Þvi Gud er Trwr, og hañ, sem þad hefur iñstiptad, Vill ei Lijtt-logande Hor-Kveik wtslockva, Esa. 4.2.v.3. Eñ aa medañ laate hañ sier nægia Drottens Naad, þvi hañs Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum. 2.Cor. 12. v.9.

Þad Þridia er þad, sem þu giora att, epter þad, ad þu hefur þañeñ medtekid HErrans Lijkama og Blood, sem er: Ad þu skallt betra þiñ Lifnad Daglega, þad mesta þier mogulegt er, og verin þar til allre Arvekni og Astundan, ollum Saalar og Lijfs Kroptum, ad krossfesta þitt Holld med þess

Girndum og Tilhneigingum, eñ ikklædast einum Nyum Mañe, sem epter Gude er skapadur; Og nema þu so giører, og ef þu lætur þier þykia vænt um̃ þijnar fornu Synder, þaa spiller þu þeirre Kvittun, er þu hefur aadur feinged; Þvi sagde DRotteñ, Joh. 8. v. 11. Vid Hoorkonuna, er hañ afleyste i Musterenu: Gack burt og syndga ei framar; Og vid hiñ karlæga, er hañ læknade vid Dyked Betheʒda, sagde hañ, Joh. 5. v. 14. Syndga nu eige framar, ad ei hende þig añad verra; Og hvad er þad? Vier bidium Gud ad taka fraa oss Syndena, eñ vier elskum hana þo, og vilium ei strijda i moote heñe, þar Gud hefur þo gefed oss Krapta þar til. Vert þvi ei siaalfum þier so illur og oþarfur, ad þu onyter þessa Guds Giof, med vijsvitande Ydkun somu Synda, edur spiller þeirre Ydran med hverre þu afrekader þeirra Kvittan; Sierdeilis þar þu ei veitst, hvert þu aatt heñar Kost optar; Þvi hun er ecke i þijnu Vallde, nær þu einusiñe hefur wtreked og wtslockt Andañ med Þvermoodskuñi og Ohlydneñe vid Gud, hverium þu hefur lofad Boot og Betran. Hugleid hvad ometanlegañ Velgiørning þu þeged hefur i þessu Gestabode, sem er Kvittun Synda þiña, sem fyrer Guds Sonar Blood er afrekud, hvers minste Drope ad er Þusundsiñum dyrmætare eñ Himen og Jord. Vert þvi ecke so oþacklaatur, ad þu ecke vidurkeñer þeña ysermaata stoora Velgiørning med Christelegu Lijferne, og Ydkun þeirra Hluta, er Gud boded hefur,
eñ

en Leida og Hatri a þvi, sem han hefur bañad. Lat
þier til Hugar koma, hvad heitt han hefur þig elskad,
og hvad mikla Elsku þu ert honum aptur a mot sky-
lldugur um. En ef þu elskar han, þa verda þier eige
hans Bodord þung, 1. Joh. 5. v. 3. Helldur sprettur
allt Gudrækilegt Framferde siaalfkrafa af Elskune
til hans, þvi hun er Root allra Christilegra Dyg-
da. Þu hefur i þessu Sacramente endurnyadan
Saattmaala, er Gud giørde vid þig i Skijrneñe,
og það Heit, er þu honum giørder, ad afneita
Dioflenum, og ollu hans Athæfe; Siaa til, ad
þu eige riufer þad aptur a ny med vijsvitande Synd
um og Glæpum. J þessu Gestabode hefur Gud
endurnyad þa Krapta, er han gaf þier i Endurfæd-
inguñe, vara þig, ad eige nidurbriooter þu Guds
Verk, og hans Rijke i þier, med Satans Verk-
um og hans Pioonustu. Þu medtookst Holld og
Blood DRottens til ad styrkia þijna Trw med,
uñ Fyrergefning Synda þiña, og þu trwder þvi,
ad þær væru þier fyrergefnar; En ef su Trw var-
er ei leingur eñ i þad siñ, og verdur sijdan Avaxtar-
laus, þa er hun eige betre eñ þeirra, sem trwa um
stundarsaker, og falla fra a Freistingar-Tijman-
um, Luc. 8. v. 13. Og vill þad þa lijted gagna þier,
ad þu hefur trwad, helldur maattu vita, ad þu hef-
ur mist Trwna, nema hun bere Avoxt, þvi Trweñ
er daud aan Verkaña; seger Jacob, Cap. 2. v. 17.
og 20. Eñ þu ert ad nyu falleñ i Guds Oblydu;
Heyr þvi Peturs Ord, 2. Pet. 2. v. 20. og 21. 22
Þar

Par han seger: Ef þeir, epter þad þeir umflued hafa Saurgan Heimsins, fyrer Peckingu DRottens og Frelsara vors, JEsu Christi, verda aptur af þeim fanngner og sigrader, þa eru þeirra siidare Kiør lakare Orden en hin fyrre; Þvi betra være þeim eige ad hafa þeckt Veg Riettlætesins, helldur en ad þecktum honum, ad viikia fra þvi Heilaga Bodorde, sem þeim er afhendt; En þa hender þad, sem plagar ad segiast i hinum sanna Maalshætte; Hunduren er aptur horfen til sinar eigen Spyu, og hid þvegna Sviin til Leirvelltunar. En med þessu meinar eige Postulen daglegar Avirdingar Guds Barna, sem eingen fær vidgiort, og eige þott þeir rata meige i stærre Synder, þvi þeir eiga jafnan apturkvæmt til Guds, fyrer Ydranena, sem Gud ottast; Um hveria David talar, Ps. 73. v. 24. Med þessum Ordum: Þo ad han hrase þa verdur han eige burtkastadur, þvi Drotten helldur i Hond med honum. Og Paulus huggar oss med þvi, Rom. 8. v. 1. Ad eingen Fordæming sie hia þeim, sem eru i Christo JEsu, hverier eige ganga epter Holldenu helldur epter Andanum; Þad eru þeir, sem eige lata Syndena riikia i siinum daudlegum Liikama, ad þeir hlyde henne i hennar Girndum, Rom. 6. v. 12. Og hefe eg so sagt hier nockud af Christendoomenum; Hvers Ender og Avoxtur er þad sem fyrer skomu var umtalad, sem er Fyrergefning Syndana, hverre ad filger Eiliift Liif.

**Priis Einum Gude sie Lof og Dyrd!**

